# SÁLMABÓK

OG

# HELGISIÐA-REGLUR

**Hins evangeliska lúterska kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi.**

---

**WINNIPEG 1915**
Á KOSTNAÐ KIRKJUFÉLAGSINS

# ALMENN GUÐSÞJÓNUSTA.

Á tilteknum tíma, eða þegar hringt hefir verið í síðasta sinn, leikur organisti forspil á organ kirkjunnar.

Að því loknu má annaðhvort hafa inngöngubæn og syngja svo sálm, eða syngja þegar inngöngusálminn. Söfnuðurinn stendur á meðan sálmurinn er sunginn og þangað til að því er komið, að bera fram syndajátninguna.

Þá fer presturinn fyrir altarið og ávarpar söfnuðinn þannig:

Í nafni Guðs föður, sonar og heilags anda!

Söfnuðurinn syngur:

Amen.

Þá ber presturinn fram þessa syndajátning:

Beygjum hjörtu vor fyrir Drotni og játum syndir vorar.

Almáttugi Guð, skapari vor og frelsari! Vér sekir syndarar játum fyrir þér, að eðli vort er syndugt og vanheilagt, og að vér höfum brotið á móti þér í hugsunum, orðum og verkum. Þess vegna flýjum vér í faðm eilífrar miskunnar þinnar og biðjum þig og grátbænum um náð, sakir Drottins vors Jesú Krists.

**Þessa málsgrein á vel við að söfnuðurinn hafi yfir með prestinum :**

Miskunnsami faðir, sem gefið hefir eingetinn son þinn í dauðann vor vegna, miskunna þú oss og veit oss sökum friðþægingar hans fyrirgefning allra synda vorra; auk þú oss með heilögum anda þínum sanna þekking á þér og vilja þínum og einlæga hlýðni við þitt heilaga orð, svo vér fyrir náð þína fáum öðlast eilíft líf, fyrir Jesúm Krist, Drottin vorn. *Amen.*

**Þá segir presturinn :**

Drottinn, miskunna þú oss !

**Söfnuðurinn syngur :**

Drottinn, miskunna þú oss !

**Presturinn segir :**

Kristur, miskunna þú oss !

**Söfnuðurinn syngur :**

Kristur, miskunna þú oss !

**Presturinn segir :**

Drottinn, miskunna þú oss !

**Söfnuðurinn syngur :**

Drottinn, miskunna þú oss !

**Þá segir presturinn :**

Almáttugur Guð, vor himneski faðir, hefir miskunnað sig yfir oss og gefið eingetinn son sinn í dauðann fyrir oss, og fyrirgefur oss hans vegna allar syndir vorar. Öllum þeim, sem á nafn hans trúa, gefur hann einnig mátt til að verða

Guðs börn og veitir þeim heilagan anda.

**Söfnuðurinn syngur :**

Amen.

**Þá segir presturinn :**

Dýrð sé Guði föður, syni og heilögum anda !

**Söfnuðurinn syngur :**

Dýrð sé Guði föður, syni og heilögum anda, svo sem var frá upphafi, er enn og verða mun um aldir alda. *Amen.*

**Eða presturinn segir :**

Dýrð sé Guði í upphæðum !

**Og söfnuðurinn syngur.**

Dýrð sé Guði í upphæðum, friður á jörðu og velþóknan yfir mönnunum! Vér lofum þig, vér göfgum þig, vér dýrkum þig, þakkir gjörum vér þér sakir mikillar dýrðar þinnar, Drottinn Guð, himneski konungur, almáttugi faðir. Ó, Drottinn Jesús Kristur, þú eingetni sonur, ó, Drottinn Guð, lamb Guðs, sonur föðurins! þú, sem burtu ber heimsins synd, miskunna þú oss; þú, sem burtu ber heimsins synd, þigg þú bæn vora; þú, sem situr til hægri handar Guði föður, miskunna þú oss. Því þú einn ert heilagur, þú einn ert Drottinn, þú einn, ó, Kristur! með heilögum anda, ert hæst í dýrð Guðs föður. *Amen.*

**Þá segir presturinn :**

Drottinn sé með yður !

**Söfnuðurinn syngur:**
Og með þínum anda.

**Þá segir presturinn:**
Látum oss alla biðja.

Kollekta dagsins.

**Söfnuðurinn syngur:**
Amen.

**Þá segir presturinn:**
Pistillinn *(eða lexían)* á...........*(fyrsta sunnudag í aðventu)* er skrifaður í..... *(bréfi Páls postula til Rómevrja, 16. kapítula)* og hljóðar þannig:

Pistill dagsins.

**Söfnuðurinn syngur:**
Hallelúja. Hallelúja. Hallelúja.

(Á föstunni er gamall siður að syngja ekki Hallelúja, en í stað þess mætti syngja vers úr Passíusálmunum.)

**Þá segir presturinn:**
Guðspjallið, sem tilheyrir þessum Drottins degi, skrifar guðspjallamaðurinn ........... *(Matteus í 21. kapítula)*.

**Söfnuðurinn syngur:**
Guði sé lof og dýrð fyrir hans gleðilegan boðskap.

**Presturinn les**
Guðspjall dagsins.

**Söfnuðurinn syngur:**
Dýrð sé þér, Drottinn!

**Eða:**

Sælir eru þeir, sem heyra Guðs orð og varðveita það.

Þá stendur söfnuðurinn á fætur og ber fram ásamt prestinum hina postullegu trúarjátningu:

**Eg trúi á Guð föður almáttugan, skapara himins og jarðar.**

**Eg trúi á Jesúm Krist, hans einkason, Drottin vorn, sem getinn er af heilögum anda, fæddur af Maríu mey, píndur undir Pontíusi Pílatusi, krossfestur, dáinn og grafinn, steig niður til heljar, reis á þriðja degi aftur upp frá dauðum, steig upp til himna, situr við hægri hönd Guðs föður almáttugs, og mun þaðan koma, að dæma lifendur og dauða.**

**Eg trúi á heilagan anda, heilaga almenna kirkju, samfélag heilagra, fyrirgefning syndanna, upprisu holdsins og eilíft líf. Amen.**

Þá er sunginn sálmur.

Svo fer presturinn í prédikunarstólinn, flytur bæn og prédikan.

Að því búnu mælir hann fram þessa blessunarósk:

Náðin Drottins Jesú Krists og kærleiki Guðs og samfélag heilags anda sé með yður öllum. *Amen.*

Eða:

Friður Guðs, sem er æðri öllum skilningi, varðveiti hjörtu yðar og hugs

anir yðar í samfélaginu við Jesúm Krist. *Amen.*

Eða:

Drottinleg blessan.

Þá er sunginn sálmur.

Þá fer presturinn fyrir altarið og segir:

Skapa í mér hreint hjarta, ó, Guð.

Söfnuðurinn syngur, standandi:

Skapa í mér hreint hjarta, ó, Guð,
og veit mér af nýju stöðugan anda.
Varpa mér ekki burt frá augliti þínu
og tak ekki þinn heilaga anda
frá mér.
Veit mér aftur fögnuð þíns hjálpræðis
og styð mig með fúsleiks anda.

Eða presturinn segir:

Guði þekkar fórnir eru sundurmarinn andi.

Söfnuðurinn syngur:

Guði þekkar fórnir eru sundurmarinn andi,
sundurmarið og sundurkramið hjarta
munt þú, ó Guð, eigi fyrirlíta.
Gjör vel við Zion sakir náðar
þinnar,
reis múra Jerúsalem!
Þá munt þú hafa þóknun á réttum
fórnum.

Þá ber presturinn fram almenna kirkjubæn:

Eilífi, miskunnsami Guð og faðir! Vér biðjum þig í nafni Drottins vors Jesú Krists:

Lít í náð til kristinnar kirkju þinnar; varðveit þú hana og helga í sannleikanum. Lát orð þitt vera flutt rétt og hreint og sakramentin réttilega um hönd höfð. Blessa þú alla boðendur fagnaðarerindis þíns og alla starfsmenn ríkis þíns, bæði innan kristninnar og hjá heiðnum þjóðum; leiðbein þeim og styrk þá í öllu starfi þeirra með heilögum anda þínum. Send starfsmenn til uppskeru þinnar, og opna öllum heiðingjum og þjóðflokki Ísraels dyr þíns ríkis. Minst þú í miskunn óvina kirkju þinnar, og lát þá snúa sér til lífsins.

Varðveit þetta land, sem vér búum í, og blessa þú allan hag þess; lát alt gott hepnast með oss, en kom í veg fyrir öll ill ráð og óguðleg fyrirtæki. Halt þú líka verndarhendi þinni yfir þjóð vorri og ættjörð.

Ver, Drottinn, ekkjum athvarf og föðurlausum faðir. Veit sjúkum og sorgmæddum líkn og huggun. Hjálpa þú náðarsamlega öllum, sem eiga í baráttu við efasemdir og freistingar. Styrk þá, er þrautir líða sökum Jesú nafns. Veit oss friðsemi og farsæld í allri sambúð vorri, gott og hentugt tíðarfar, rétt-

lát og kristileg úrslit allra starfsmála vorra.

Blessa þú kirkjufélag vort og alla söfnuði þess, og halt þú náðarhendi þinni yfir öllu starfi þess, að það megi verða ríki þínu til eflingar og heilögu nafni þínu til dýrðar.

Sérstaklega felum vér þennan söfnuð í hendur þínar. Bæg hneykslunum frá oss og sameina oss í heilögum kærleika til þín.

(Hér mega koma sérstakar fyrirbænir.)

Miskunna þig, Drottinn, yfir alla menn, samkvæmt óumræðilegum kærleika þínum í Jesú Kristi, Drotni vorum. Og þegar stund vor kemur, unn oss þá að deyja sáluhjálplegum dauða úr heimi þessum, og á efsta degi að rísa upp í dýrð og vegsemd.

Þá segir söfnuðurinn með prestinum.

**Faðir vor, þú sem ert á himnum. Helgist þitt nafn. Tilkomi þitt ríki. Verði þinn vilji, svo á jörðu sem á himni. Gef oss í dag vort daglegt brauð. Og fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldunautum. Eigi leið þú oss í freistni, heldur frelsa oss frá illu. Því að þitt er ríkið, mátturinn og dýrðin að eilífu. Amen.**

Síðan ber söfnuðurinn fram offur sitt, og leggur presturinn það á altarið.

Þá má bera fram kirkjulegar auglýsingar.

Síðan er sunginn sálmur.

Þá segir presturinn:

**Drottinn blessi þig og varðveiti þig.**

**Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig og sé þér náðugur.**

**Drottinn upplyfti sínu augliti yfir þig og gefi þér frið.**

Söfnuðurinn syngur:

Amen. Amen. Amen.

Síðan gjöra allir bæn sína, standandi, og er svo leikið eftirspil á organið.

(Ef skíra á börn, ferma, eða fólk er til altaris, þá fara þær athafnir fram, þegar sunginn hefir verið sálmurinn á eftir prédikun.

---

# SKÍRN.

(Ætlast er til, að skírn fari fram í kirkju ávalt, þegar því verður við komið.)

Fyrst er sunginn skírnarsálmur.

Þá talar presturinn á þessa leið:

Náðin Drottins Jesú Krists og kærleiki Guðs og samfélag heilags anda sé með oss öllum.

Guðs orð í heilagri ritningu kennir, að allir menn séu fæddir með syndugu eðli. Þessa kenningu staðfestir öll reynsla og sýnir, að allir menn eru synd-

ugleik háðir frá móðurlífi. En Guðs sonur, Jesús Kristur, er í heiminn kom inn til þess að vér, syndugir menn. skyldum ekki glatast í syndinni, heldur öðlast eilíft líf í Guðs ríki sem Guðs ástfólgin börn. Og til þess hefir Drottinn vor og frelsari gefið oss skírnina og með henni veitt öllum mönnum og þjóðum aðgang að Guðs ríki og gæðum þess.

Fyrir því hefir hann og skipað fyrir um skírnina og sagt: "Alt vald er mér gefið á himni og jörðu. Farið því og gjörið allar þjóðir að lærisveinum, með því að skíra þá til nafns föðurins og sonarins og hins heilaga anda, og með því að kenna þeim að halda alt. sem eg hefi boðið yður. Og sjá, eg er með yður alla daga, alt til enda veraldarinnar" (Matt. 28, 18-20).

Að Drottinn á dögum holdsvistar sinnar veitti börnunum viðtöku í náð, sýnir oss hið heilaga guðspjall, er svo hljóðar:

"Og menn færðu börn til hans, til þess að hann skyldi snerta þau, en lærisveinarnir ávítuðu þá. En er Jesús sá það, gramdist honum það og hann sagði við þá: Leyfið börnunum að koma til mín og bannið þeim það ekki, því að slíkra er guðsríkið. Sannlega segi eg yður: Hver sem ekki tekur á móti guðsríki eins og barn, mun alls

eigi inn í það koma. Og hann tók þau sér í fang, lagði hendur yfir þau og blessaði þau" *(Mark. 10. 13—16)*.

Vér viljum nú biðja þess, að einnig þetta barn *(þessi börn)* verði aðnjótandi blessunar Guðs, og segjum af hjarta:

Almáttugi, eilífi Guð, faðir Drottins vors Jesú Krists og faðir vor, vér ákölllum þig fyrir þetta barn þitt *(þessi börn þín)* og biðjum þig að veita því *(þeim)* skírnargjöf þína og eilífa náð fyrir laug endurfæðingarinnar. Drottinn, virztu að taka á móti því *(þeim)*. Og eins og þinn eingetinn sonur hefir sagt: "Biðjið, og mun yður gefast: leitið, og munuð þér finna; knýið á, og mun fyrir yður upp lokið verða", svo gef þú nú barni þessu *(börnum þessum)* gjafir þínar, ljúk upp fyrir því *(þeim)* dyrum náðar þinnar, svo að það *(þau)* megi fyrir þessa himnesku laug verða aðnjótandi eilífrar blessunar og hljóta inntöku í ríki þitt, sem þú hefir opnað oss fyrir Drottin vorn Jesúm Krist. **Amen.**

**Nú gengur presturinn að skírnarfontinum og segir:**

Lofaður sé Guð, faðir Drottins vors Jesú Krists, sem eftir mikilli miskunnsemi sinni vill endurfæða þetta barn

*(þessi börn)* til lifandi vonar fyrir upprisu Jesú Krists frá dauðum.

Drottinn varðveiti inngang þinn og útgang héðan í frá og að eilífu. *Amen.*

Síðan gjörir presturinn krossmark fyrir enni og brjósti barnsins með þessum formála :

Meðtak þú tákn hins heilaga kross, bæði á enni og brjóst, til merkis um að hugur þinn og hjarta á að helgast fyrir trúna á hinn krossfesta Drottin Jesúm Krist.

Heyrum nú skírnarsáttmálann, sem barnið á *(börnin eiga)* að skírast til :

Eg afneita djöflinum og öllum hans verkum og öllu hans athæfi.

Eg trúi á Guð föður almáttugan, skapara himins og jarðar.

Eg trúi á Jesúm Krist, hans einkason, Drottin vorn, sem getinn er af heilögum anda, fæddur af María mey, píndur undir Pontíusi Pílatusi, krossfestur, dáinn og grafinn, steig niður til heljar, reis á þriðja degi aftur upp frá dauðum, steig upp til himna, situr við hægri hönd Guðs föður almáttugs, og mun þaðan koma að dæma lifendur og dauða.

Eg trúi á heilagan anda, heilaga almenna kirkju, samfélag heilagra, fyrirgefning syndanna, upprisu holdsins og eilíft líf. *Amen.*

**Síðan spyr presturinn:**

Á að skíra barnið til þessarar trúar?

**Því er svarað:**

Já.

**Þá spyr presturinn:**

Hvað á barnið að heita?

**Því er svarað.**

**Presturinn nefnir barnið, eys það þrisvar vatni og segir um leið:**

Eg skíri þig til nafns föður, sonar og heilags anda. *Amen.*

**Þá leggur presturinn hönd á höfuð barnsins og segir:**

Almáttugur Guð, faðir Drottins vors Jesú Krists, sem nú hefir endurfætt þig fyrir heilagan anda, tekið þig í samfélag síns elskulega sonar og veitt þér fyrir gefningu syndanna, hann styrki þig með náð sinni til eilífs lífs.

Faðir vor, þú sem ert á himnum. Helgist þitt nafn. Tilkomi þitt ríki. Verði þinn vilji, svo á jörðu sem á himni. Gef oss í dag vort daglegt brauð. Og fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldunautum. Eigi leið þú oss í freistni, heldur frelsa oss frá illu. Því að þitt er ríkið, mátturinn og dýrðin að eilífu. *Amen.*

Friður sé með þér. *Amen.*

**Þá ávarpar presturinn foreldra barnsins.**

guðfeðgin og aðra, sem viðstaddir eru, á þessa leið :

Góð systkin, þér skuluð vera vottar þess, að þetta barn er skírt (þessi börn eru skírð) til nafns föður, sonar og heilags anda. Sem kristinn söfnuður (í heimahúsum: fyrir hönd kristins safnaðar) hafið þér tekið á móti því (þeim) í félag kristilegrar kirkju. Felið það (þau) í bænum yðar og minnist þeirrar kristilegu skyldu yðar og alls safnaðarins, að annast um að barn þetta (börn þessi) megi, er það vex (þau vaxa) upp, halda sér við Krist, eins og það er (þau eru) nú fyrir skírnina gróðursett á honum. Friður sé með yður. *Amen.*

Síðast er sunginn skírnarsálmur.

---

## SKEMMRI-SKÍRN.

Sé af einhverjum ástæðum ekki unt að ná til prests til að skíra barn, má hver fullorðin kristin manneskja, hvort heldur er karl eða kona, skíra það skemmri skírn. Fer athöfnin þá fram á þessa leið :

Sá, sem framkvæmir skírnina, segir :

Himneski faðir, meðtak þú þetta barn í nafni Drottins vors Jesú Krists.

Þá nefnir hann barnið, eys það þrisvar vatni og segir um leið :

Eg skíri þig til nafns föður, sonar og heilags anda. *Amen.*

Faðir vor, þú sem ert á himnum. o.s.frv.

---

# FERMING.

Fyrst er sunginn fermingarsálmur.

Þá ávarpar presturinn börnin nokkrum orðum.

Síðan nefnir hann nafn hvers einstaks barns og leggur fyrir það þessar þrjár spurningar :

Afneitar þú djöflinum og öllum hans verkum og öllu hans athæfi ?

Trúir þú á Guð föður, son og heilagan anda ?

Viltu standa stöðugur *(stöðug)* í þessum skírnarsáttmála þínum til þinnar dauðastundar ?

Barnið svarar hverri spurningu um sig játandi.

Þá segir presturinn :

Gef mér þá hönd þína þessarri játningu til staðfestu.

Þegar presturinn hefir tekið í hönd barnsins, krýpur barnið, en presturinn leggur hönd á höfuð þess og segir :

Hinn þríeini Guð, sem áður hefir

tekið þig að sér sem sitt barn í heilagri skírn og gjört þig að erfingja eilífs lífs. hann viðhaldi þér í skírnarnáð þinni alt til enda; hann gefi þér stöðuglyndi í þinni trú, þér til sáluhjálpar.

Vertu trúr (trú) til dauðans, þá munt þú öðlast kórónu lífsins.

Þegar öll börnin hafa unnið heitið, segir presturinn:

Berum sameiginlega fram játning trúar vorrar.

Söfnuðurinn stendur á fætur og segir með prestinum og fermingarbörnunum:

**Eg trúi á Guð föður almáttugan, skapara himins og jarðar.**

**Eg trúi á Jesúm Krist, hans einkason, Drottin vorn, sem getinn er af heilögum anda, fæddur af María mey, píndur undir Pontíusi Pílatusi, krossfestur, dáinn og grafinn, steig niður til heljar, reis á þriðja degi aftur upp frá dauðum, steig upp til himna, situr við hægri hönd Guðs föður almáttugs og mun þaðan koma, að dæma lifendur og dauða.**

**Eg trúi á heilagan anda, heilaga almenna kirkju, samfélag heilagra, fyrirgefning syndanna, upprisu holdsins og eilíft líf. Amen.**

Þá ávarpar presturinn fermingarbörnin þessum orðum:

Kæru ungu bræður og systur! Samkvæmt þessarri góðu játningu, er þér hafið nú játað í viðurvist margra votta, lýsi eg yfir því, að yður er nú veittur aðgangur að kvöldmáltíð Drottins og heimiluð öll þau réttindi er fermdum safnaðarlimum bera, samkvæmt grundvallarlögum safnaðarins.

Friður sé með yður.

Þá er sungið vers.

[Rétt er við fermingar-guðsþjónustu að sleppa trúarjátningunni á eftir guðspjallinu.].

---

# KVÖLDMÁLTÍÐIN.

Þegar sungið hefir verið altarisgönguvers eða sálmur, ávarpar presturinn altarisgestina þannig,—en þeir standa á meðan:

Svo að þér, kæru Krists vinir! getið réttilega meðtekið hið heilaga kvöldmáltíðarsakramenti Drottins vors, þá ber yður af hjarta að trúa því og treysta, að Jesús Kristur er kominn í heiminn til að gjöra synduga menn sáluhólpna, og að hann enn á þessarri stundu kallar til sín alla, sem erfiða og þunga eru hlaðnir, og vill veita þeim hvíld. Þér eigið að trúa því, að hann

er mitt á meðal vor hvert sinn og hvar sem vér erum saman komnir í hans nafni, og að hann gjörir yður hluttakandi í líkama sínum og blóði í þessu sakramenti, er hann sjálfur stofnsetti, til þess að viðhalda samfélagi lærisveina sinna við sig og efla kærleiksfélagið milli allra játenda sinna.

Þegar þér því eftir boði Drottins og að dæmi hinna fyrstu lærisveina hans etið af brauðinu og drekkið af kaleiknum, þá gjörið þér það til að játa, að þér séuð og viljið vera lærisveinar hans, og til að minnast hans, sem elskaði oss og gaf sig í dauðann fyrir oss; en jafnframt til þess að sækja hingað styrk sálum yðar og næring guðslífinu í yður. Trúið því af hjarta, að enn sé hinn upprisni Drottinn nálægur oss, er vér neytum hinnar helgu máltíðar með innilegri þrá eftir fyllra samfélagi við hann og einlægu kærleiksþeli til bræðra vorra, og að fyrir samfélagið við hann fái enn hinn syndum hlaðni fyrirgefning, hin órólega samvizka frið og hinn veiki styrk til fullkomnara lífernis.

Ef þér því eruð komnir hingað af innilegri þrá eftir samfélagi við hann og finnið til þess, að enn eruð þér of fjarri honum, þá getið þér réttilega

neytt hinar helgu máltíðar, yður til trúarstyrkingar og eflingar í öllu góðu.

Og svo sannarlega sem þér af hjarta iðrist synda yðar og í einlægri trú flýið til Guðs náðar í Jesú Kristi, frelsara vorum, svo sannarlega boða eg yður, samkvæmt Guðs orði og fyrirheitum, fyrirgefningu allra yðar synda, í nafni Guðs föður, sonar og heilags anda.

Presturinn snýr sér að altarinu og segir:

Látum oss biðja.

**Faðir vor, þú sem ert á himnum. Helgist þitt nafn. Til komi þitt ríki. Verði þinn vilji, svo á jörðu sem á himni. Gef oss í dag vort daglegt brauð. Og fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldunautum. Eigi leið þú oss í freistni, heldur frelsa oss frá illu. Því að þitt er ríkið, mátturinn og dýrðin að eilífu.**

Söfnuðurinn svarar:

Amen.

Þá tekur presturinn patínuna með brauðinu sér í hönd og segir:

**Vor herra Jesús Kristur, á þeirri nótt sem hann svikinn var, tók hann brauðið, gjörði þakkir og braut það, og gaf sínum lærisveinum og sagði: Takið og etið; það er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn. Gjörið það í mína minningu.**

Því næst tekur presturinn kaleikinn sér í hönd og segir:

**Sömuleiðis eftir kvöldmáltíðina tók hann kaleikinn, gjörði þakkir, gaf þeim hann og sagði: Drekkið allir hér af: það er kaleikur hins nýja testamentis í mínu blóði, sem fyrir yður úthellist til fyrirgefningar syndanna. Gjörið þetta, svo oft sem þér það drekkið, í mína minningu.**

Þá tekur presturinn patínuna með brauðinu, snýr sér að altarisgestunum og segir:

Brauðið, sem vér brjótum, er samfélag um líkama Krists!

Því næst útdeilir hann brauðinu og segir um leið við hvern altarisgestanna:

Þetta er líkami Drottins vors Jesú Krists.

Þá tekur hann kaleikinn, snýr sér að altarisgestunum og segir:

Sá bikar blessunarinnar sem vér blessum, er samfélag um blóð Krists!

Síðan útdeilir hann víninu og segir um leið við hvern altarisgestanna:

Þetta er blóð Drottins vors Jesú Krists.

Þegar hann hefir útdeilt hverjum hring, segir hann:

Sá krossfesti og upprisni Jesús Kristur, sem hefir gjört yður hluttakandi í sínum heilaga líkama og blóði og

fullnægju gjört fyrir allar yðar syndir, hann varðveiti yður í samfélaginu við sig og viðhaldi yður í lifandi trú til eilífs lífs. Hans náð og friður sé með yður. *Amen.*

Þá standa þeir upp, sem hafa meðtekið sakramentið, og ganga til sæta sinna, en næsti hringur, ef fleiri eru, krýpur við altarið. Þegar allir hafa meðtekið sakramentið, segir presturinn:

Nú lætur þú Drottinn, þjón þinn í friði fara.

Söfnuðurinn syngur:

Nú lætur þú, Drottinn, þjón þinn
í friði fara,
eins og þú hefir heitið mér,
því að augu mín hafa séð hjálpræði
þitt,
sem þú hefir fyrirbúið í augsýn
allra lýða,
ljós til opinberunar heiðingjum
og til vegsemdar lýð þínum Ísrael.

Þá les presturinn þessa bæn:

Vér þökkum þér, Drottinn, alгóði Guð, eilífi faðir, að þú hefir veitt oss þessa blessuðu náðarstund við kvöldmáltíð þíns elskulega sonar, og mettað oss himneskum ástgjöfum þínum. Blessa oss af náð þinni nautn hins heilaga sakramentis; lát kærleika frelsarans gagntaka hjörtu vor; lát trú vora á þig og hann bera sér

vitni í helgun lífernisins og hans sæla frið búa í hjörtum vorum, með fullvissunni um þína náð og velþóknun. Þér og honum sé lof og þakkargjörð um aldir alda.

Söfnuðurinn svarar:

Amen.

(Sjúklinga og gamalmenni, sem ekki komast til kirkju, má taka til altaris í heimahúsum, og er þá tilhlýðilegt, að nákomnir ættingjar þeirra eða vinir séu til altaris með þeim.)

---

# HJÓNAVÍGSLA.

---

Fyrst er sunginn hjónavígslusálmur.

Þá biður presturinn bæn, og ávarpar síðan brúðhjónin þannig:

Með því að vér erum saman komin til að stofna helgan hjúskap, þá heyrum kenningu Guðs orðs um hjónabandið og kærleikssambúð kristinna manna. Og þá fyrst, hvað frelsari vor, Jesús Kristur, segir sjálfur um hjónabandið:

Hafið þér eigi lesið, að skaparinn frá upphafi skóp þau karl og konu, og sagði: Fyrir því skal maður yfirgefa föður og móður og búa við eiginkonu sína, og þau tvö skulu verða eitt hold? Þannig eru þau ekki framar tvö, heldur

eitt hold. Það sem Guð því hefir tengt saman, má eigi maður sundur skilja. (Matt. 19, 4-6).

Heyrum enn fremur orð postulans Páls:

Þér menn, elskið konur yðar, að sínu leyti eins og Kristur elskaði söfnuðinn og lagði sjálfan sig í sölurnar fyrir hann (Ef. 5, 25).

Konur læri að elska menn sína, elska börn sín, vera hóglátar, skírlífar, heimilisræknar góðlátar, eiginmönnum sínum undirgefnar, til þess að orði Guðs verði ekki lastmælt (Tít. 2, 4-5).

Íklæðist því, eins og Guðs útvaldir, heilagir og elskaðir, hjartgróinni meðaumkun, góðvild, auðmýkt, hógværð, langlyndi; umberið hver annan og fyrirgefið hver öðrum. En íklæðist yfir alt þetta elskunni, sem er band algjörleikans, og látið frið Krists ríkja í hjörtum yðar (Kól. 3, 12-15).

Þá spyr presturinn brúðgumann:

N. N., eg spyr þig: Er það einlægur ásetningur þinn, að ganga að eiga konuna, N. N., sem hjá þér stendur, og með Guðs hjálp lifa saman við hana í meðlæti og mótlæti og hverjum þeim kjörum, sem algóður Guð lætur ykkur að höndum bera, eins og kristnum eiginmanni ber að lifa saman við eigin-

konu sína, þangað til dauðinn skilur ykkur?

Sé svo, þá staðfest það frammi fyrir augliti Guðs og í viðurvist þessara votta, með því að segja: já.

Brúðguminn svarar:

Já.

Því næst spyr presturinn brúðurina:

Sömuleiðis spyr eg þig, N. N.: Er það einlægur ásetningur þinn, að giftast manninum N. N., sem hjá þér stendur, og með Guðs hjálp lifa saman við hann í meðlæti og mótlæti og hverjum þeim kjörum, sem algóður Guð lætur ykkur að höndum bera, eins og kristinni eiginkonu ber að lifa saman við eiginmann sinn, þangað til dauðinn skilur ykkur?

Sé svo, þá staðfest það frammi fyrir augliti guðs og í viðurvist þessara votta, með því að segja: já.

Brúðurin svarar:

Já.

Ef hafður er hringur, þá segir presturinn, um leið og brúðguminn dregur hringinn á hönd brúðurinnar:

Þessi hringur sé sýnilegt tákn þess, að þið hafið í Drottins nafni heitið hvort öðru æfinlegri samfylgd í trygð og elsku.

Ef hafðir eru tveir hringir, segir prest-

**urinn um leið og brúðhjónin draga hring hvort á annars hönd :**

Þessir hringir séu sýnilegt tákn þess, að þið hafið í Drottins nafni heitið hvort öðru æfinlegri samfylgd í trygð og elsku.

Þá segir presturinn enn fremur :

Gefið svo hvort öðru hönd ykkar þessum hjúskaparsáttmála til staðfestu.

**Leggur svo presturinn hönd sína yfir hendur þeirra og segir :**

Með því að þið, N.N. og N.N., hafið komið ykkur saman um og heitið hvort öðru því, að lifa saman í heilögu hjónabandi, og með því að þið hafið játað þetta opinberlega í áheyrn þessa kristna safnaðar (þessara votta) og gefið hvort öðru hönd ykkar því til staðfestu, *þá lýsi eg yfir því, að þið eruð rétt hjón, bæði fyrir Guði og mönnum, í nafni Guðs föður, sonar og heilags anda.* ***Amen.***

Það sem guð hefir tengt saman, má eigi maður sundur skilja.

**(Séu fleiri en ein brúðhjón gefin saman í senn, skal hafa þetta alt, frá því spurningarnar byrja, upp aftur við hver brúðhjón fyrir sig)**

**Síðan krjúpa brúðhjónin og presturinn leggur hönd sína á höfuð þeim og segir :**

Látum oss biðja.

Herra Guð, himneski faðir, þú sem hefir skapað karl og konu og ákvarðað þau til hjúskapar, og viðhaldið þessari skipun og blessun þinni alt til þessa, vér biðjum þig að varðveita og blessa þessi brúðhjón, svo að alt, sem þú lætur þeim að höndum bera, verði þeim til góðs og þínu heilaga nafni til lofs og dýrðar. Bænheyr það í Jesú nafni. *Amen.*

Faðir vor, þú sem ert á himnum, o.s.frv.

**Þá segir presturinn:**

Drottin blessi þig og varðveiti þig o.s.frv.

**Loks er sunginn sálmur.**

---

# GREFTRUN FRAMLIÐINNA.

### I. Á heimilinu.

Áður en lík er flutt af heimili til greftrunar, er lesinn ritningarkafli og beðin bæn og sunginn sálmur eða vers á undan og eftir.

En ef líkið er ekki flutt í kirkju, fer athöfnin á heimilinu fram á sama hátt og ráð er fyrir gjört í kirkjunni.

### II. Í kirkjunni.

Fyrst er sunginn sálmur.

**Þá les presturinn ritningarkafla, einn eða fleiri, og biður þessa bæn:**

Himneski faðir! Vér þökkum þér þá föðurlegu miskunn þína, að þú hefir með orði þínu tendrað lifandi von í hjörtum vorum og lætur hana lýsa oss í dimmu dauða og sorgar. Vér þökkum þér af hrærðu hjarta að þú lætur oss ekki eina, þegar dauðinn ógnar sálum vorum og harmur nistir hjörtu vor, heldur vitjar vor í líkn, til þess að styrkja oss og hugga. Og vér biðjum þig af auðmjúkum hug, miskunnsami faðir, að veita oss vizku og náð til þess að höndla með trúuðum og þakklátum hjörtum þá himnesku von og huggun, sem þú hefir búið oss í orði þínu og fyrir upprisu þíns elskulega sonar, Drottins vors og lausnara, Jesú Krists. Algóði faðir! hughreyst oss svo og hugga á þessari skilnaðarstund og öllum sorgarstundum lífs vors, að vér fáum öruggir lifað þér og þegar jarðnesku lífi voru lýkur dáið þér, og meðtak oss þá í hinar eilífu tjaldbúðir fyrir föðurlegan kærleika þinn í Jesú Kristi. *Amen.*

Þá má syngja sálm eða vers.

Því næst flytur presturinn líkræðu.

Að endingu er sunginn sálmur.

### III. Við gröfina.

Meðan líkið er látið síga niður í gröfina,

**á vel við, ef ástæður leyfa, að sunginn sé sálmur, eða höfð yfir þessi ritningarorð:**

Moldin hverfur aftur til jarðarinnar, þar sem hún áður var, en andinn til Guðs, sem gaf hann.

Jesús sagði: Ég er upprisan og lífið; sá sem trúir á mig, mun lifa þótt hann deyi. Og hver sá, sem lifir og trúir á mig, hann skal aldrei að eilífu deyja.

Sáð er forgengilegu, en upprís óforgengilegt; sáð er í vansæmd, en upprís í vegsemd; sáð er í veikleika, en upprís í styrkleika; sáð er náttúrlegum líkama, en upprís andlegur líkami.

Lofaður sé Guð og faðir Drottins vors Jesú Krists, sem eftir mikilli miskunn sinni hefir endurfætt oss til lifandi vonar fyrir upprisu Jesú Krists frá dauðum.

Guði séu þakkir, sem gefur oss sigurinn fyrir Drottin vorn Jesúm Krist!

**Því næst segir presturinn:**

Með því að algóðum og alvitrum Guði hefir þóknast að taka sálu þessa látna bróður vors (þessarar látnu systur vorrar, eða: þessa látna barns) burt úr heimi þessum, þá afhendum vér jörðunni líkama hans (hennar eða: þess) í von um upprisuna til eilífs lífs fyrir Drottin vorn Jesúm Krist, sem mun

breyta lægingarlíkama vorum í sömu mynd og dýrðarlíkami hans hefir, eftir þeim krafti, að hann og getur lagt alt undir sig.

Þá kastar presturinn þrisvar mold á kistuna með þessum orðum:

Af jörðu ert þú kominn;
að jörðu skalt þú aftur verða;
af jörðu skalt þú aftur upprísa.

**Má þá syngja sálmvers. Beygja svo allir höfuð sín í þögulli bæn og presturinn segir:**

Náðin Drottins Jesú Krists og kærleiki Guðs og samfélag heilags anda sé með yður öllum Amen.

**Ganga síðan allir burt, nema grafarmenn.**

# I.

# Almenn tilbeiðsla.

## 1. Guðsþjónustan.

### 1. 231

Lag: Adams barn, synd þín svo var stór.

SEND oss nú, faðir, anda þinn
með ástgjöf hans í brjóst vor inn,
svo kenning Krists vér trúum.
Þín heilög rækja lát oss lög
og lífsins orð þín girnast mjög,
að hug til himna snúum.
Ó, góði faðir, gef þá náð,
að gjörðir, mál og alt vort ráð
þér hrós og heiður tjái.
Æ, ver þú hjálp og hjástoð vor,
að hver og einn í Jesú spor
um lífstíð fetað fái.

2. Ó Guð, í tíma vek oss vel,
sem vitum ei nær kemur hel
og dagur dómsins stranga.
Að hafna synd oss hjálpa þú,
í hreinum kærleik, von og trú
veit öllum oss að ganga.
Oss villukenning forða frá,
við fláttskap heims oss kenn að sjá,
að hann ei sálir svíki.
Í gleði' og hrygð oss grandi ver.

og gef að síðar erfum vér
þitt heilagt himnaríki.

## 2.

Lag: Lofið Guð í hans helgidóm.

GAKK inn í herrans helgidóm,
þú hjartkær drottins lýður,
og lofa Guð með glöðum róm.
er gleðihnoss þér býður.
Um löndin öll
Guðs orðin snjöll
af ótal vörum hljómi
í herrans helgidómi.

2. Sinn einkason oss Guð vor gaf,
svo gleði hans vér nytum,
svo frelsi þar vér fengjum af
og fyrirgefning hlytum.
Því gleðjumst vér
af hjarta hér
og hrópum allir glaðir:
Ó abba, elsku-faðir!

3. Hans blessað orð er boðað nú
um bygðir heimsins víða;
það vekur kærleik, von og trú,
og veitir huggun blíða.
Hvern andardrátt,
hvern æðarslátt
þá ástgjöf látum róma,
og hallelúja hljóma.

4. Ó lofum Drottin, drottins hjörð,
hans dýrð og gæzku játum;
hans náðarorð um alla jörð

vér ætíð vera látum
vort ljós á leið
og líkn í neyð
og lækning heims í þrautum
og huggun hels á brautum.

3. 561

Lag: Sæti Jesú, sjá oss hér.

SJÁ, ó Jesú, saman vér
söfnumst nú þitt orð að heyra;
opnast lát þú helgum hér
himin-fræðum sál og eyra.
Himin þinn að í sér inni
og þig sjálfan hjörtun finni.

2. Myrkri hjúpað hugskot er,
heims er æ á vegum reikar;
andi þinn ef ljós ei lér,
langt af vegi mannvit skeikar.
Gott að hugsum, gott að iðjum,
gef oss styrk, er hér þig biðjum.

3. Ó, þú ljóminn dýrðar dýr,
dreif þú villu-myrkri svarta;
veit að sálar sjónin skýr
sannleiks mæti ljósi bjarta;
söng vorn, bæn og athöfn alla
elsku-merki hrein þú kalla.

4. 558

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

SUNNUDAGS er ljós tók lýsa,
lífsins herra reis af gröf;
sunnudags hver sól, er rísa

sést, því dýrsta flytur gjöf,
móti dauða boðar bót,
broddi' hans snýr frá hjartans rót,
minnir á með unað blíðum
æfi drottins hér með lýðum.

2. Orðið hans af ótal tungum
endurtekst um heimsins lönd.
svefni vakna þú af þungum,
þigðu lífið nú, mín önd.
Eyru hver sem hefir, hann
heyri; gæt þín, aumur mann.
Rísum upp; sjá, rís á hæðum
röðull lífs; hans fögnum gæðum.

3. Hver er ljómar Drottins dagur,
dauðinn bleikur hörvar frá,
myrkrin skelfast, friðarfagur
foringinn því birtist þá.
Drottinn sinni' í dýrð á storð;
dýrðlegt hljómar sannleiks orð,
máttugt orð, sem myrkrum eyðir,
menn úr dauða frelsta leiðir.

## 5. 554

Lag: **Hjartað, þankar, hugur, sinni.**

**Ó** minn Guð, hve yndislegir
**eru þínir bústaðir.**
Upp þar ljúkast lífsins vegir,
ljóssins blíðu náðardyr.
Þar eg leita þín og finn
þig, minn góði hirðirinn;
hjarta svala má þar mínu
mildu' af lífsins vatni þínu.

2. Þar er, Guð minn, gott að vera,
gott að lofa nafnið þitt,
fram að mega bljúgur bera
bænar-andvarp jafnan sitt.
Æ þar, Jesú, orðin þín
endurkveða' í hjarta mín:
"Faðir, þér eg þakkir segi;
þig falst smælingjunum eigi."

6. 560

Lag: Guðl lof skal önd mín inna.

Í Drottins helgidómi
sé Drotni sungin þakkargjörð;
um víða veröld rómi
hans vald og náð hans barnahjörð.
Hann allir lofi lýðir,
því líkn hans aldrei þver;
hann allar tigni tíðir,
því tign hans frábær er.
Hver hljóðfæranna hljómur
æ heiðri skaparann;
hvert andartak, hver ómur
um aldir göfgi hann.

7. 564

Lag: Ofan af himnum hér kom eg.

Í kirkju þína kenn þú mér
að koma, Drottinn, sem mér ber,
svo hvert sinn er eg héðan fer,
eg handgengnari verði þér.
2. Til auðmýktar mitt hjarta hrær,
þá hönd mér gef, sem brjóstið slær,

og bæn, sem hrópar, herra kær,
mér hjálp og miskunn sekum fær.

8. 565

Lag: Sál dufti klædd, ei sæmir þér.

MINN Guð og herra, hjartað mitt
þinn helgidóm lát vera,
og dýrstan unað orðið þitt
mér alla daga bera.
Eg geng þá fús í heilagt hús,
að hlýða röddu þinni,
og heim svo fer, að eftir er
þitt orð í sálu minni.

9. 556

Með sínu lagi.

Ó, syng þínum Drotni, Guðs safnaðar hjörð;
syngið nýjan söng,
þér englanna herskarar, himinn og jörð
öll veröldin vegsami Drottin!

2. Ó, syng þínum skapara lofgjörðarlag;
syngið nýjan söng
og kunngjörið hjálpráð hans dag eftir dag.
Öll veröldin vegsami Drottin!

3. Ó, syng þú um dýrð Guðs á himnanna hæð;
syngið nýjan söng,
hvert hjarta, hver tunga, hver taug og hver æð.
Öll veröldin vegsami Drottin

10. 226

Lag. Nú biðjum vér heilagan anda.

ÞITT orð og andi', ó Guð, veit nú,
að oss í réttri saman tengi trú.
Kristið höfum heiti;
helga Krists lærdóma
hreinum hann varðveiti
hjá oss æ í blóma.
Herra, heyr þá bón.

3. Ó, vísdómsandi', oss veit það skyn,
að vor sé heill að eiga Jesúm vin,
hans að boðum hlýðum,
hans í fótspor fetum,
hrept með helgum lýðum
himna-sælu' að getum.
Herra, heyr þá bón.

3. Ó, friðarandi', óröskuð veit
vor bræðra eining verði hvern um reit,
svo í sæld og voða
samhuga fram förum;
einn lát annan stoða
öllum lífs í kjörum.
Herra, heyr þá bón.

4. Ó, guðdómsandi', uppfyll vort geð
á andlátsstundu hæstri huggun með,
að vér einkis metum
allan heimsins blóma,
heldur hrept að getum
himindýrð og ljóma.
Herra, heyr þá bón.

11. 229

Lag: Lofið vorn Drottin.

SANNLEIKANS andi, lát sannleikans
ljós þitt oss skína,
send oss í myrkrunum himnesku geisl-
ana þína;
sannleikans sól
sjálfs Guðs að hátignarstól
lát þú oss leiðina sýna.

2. Kærleikans andi, hér kom með þinn
sólaryl blíða,
kveik þú upp eld þann, er hjartnanna
frost megi þíða.
Breið yfir bygð
bræðralag, vinskap og trygð;
lát það vorn lífsferil prýða.

3. Friðarins andi, á friðarins brautir
oss leiddu,
friða þú hjörtun og sundrunga stormun-
um eyddu;
fær oss þinn frið
föður vorn himneskan við;
heimför til hans loks oss greiddu.

4. Heilagur andi, þér heilagt bygg
musteri' á jörðu,
heilagan söfnuð og flekklausan kristn-
ina gjörðu.
Heilagra hnoss
hlotnast um síðir lát oss
Drottins með heilagri hjörðu.

12. 24

Lag: Sjáðu, sjáðu, faðirinn fríðl.

KOMUM, fögnum fyrir Drotni,
frelsis bjarg vor Guð er oss;
lofgjörð vor og þökk ei þrotni,
þegið prísum náðar hnoss.
Guð er drotnum hæstum hærri,
hans er dýrðin öllu stærri;
gjörvalt er í hendi hans,
hafsdjúp öll og bygðir lands.

2. Komum, Guðs á fötskör föllum
fram með bæn og þakkargjörð.
Guð er vígi' og vörn oss öllum,
vér hans eignarþjóð og hjörð.
Hlýðum rödd Guðs, herðum eigi
hjörtu vor á æfivegi;
keppum náð að höndla hans,
hvíld að erfum sæluranns.

13. 33

Lag: Hver veit, hvað fjærri er æfi endl.

ÞÚ sendir, Drottinn, dögg af hæðum
í dropum smáum nið'r á jörð,
að kveykja líf í köldum æðum
og klaka leysa böndin hörð.
Lát náðardaggar dropa þinn
svo drjúpa' í mína sálu inn!

2. Þú lætur, Drottinn, ljós af hæðum
hér lýsa sólargeislum í.
Það grundu skrýðir geisla klæðum
og gulli faldar himinský.
Ó, lát þú náðarljósið þitt
svo lýsa skært í hjartað mitt!

3. Þú sendir, Guð, þinn son af hæðum;
hann sól og dögg var allri jörð:
Hann lýsir oss í ljóssins fræðum
og leysir synda böndin hörð.
Það ljósið prýði líf mitt alt!
Sú lífdögg þíði helið kalt!

## 14. 186

Lag: Ó Guð, þér hrós og heiður ber.

VÉR horfum allir upp til þín
í eilíft ljósið Guði hjá,
þar sem að dásöm dýrð þín skín,
vor Drottinn Jesú, himnum á.
2. Vorn huga, Drottinn, drag til þín
í dýrðarljómann jörðu frá:
því ekkert hnoss í heimi skín,
sem hjartað friða' og gleðja má.
3. Og ekkert löngun hjartans hér
af heimsins gæðum seðja má.
Vér þráum líf, sem eilíft er,
og ætíð þér að vera hjá.
4. En styrk oss til að stríða hér,
að stríða synd og löstum mót.
Æ, veit oss náð, að þóknast þér
og þig að elska' af hjartans rót.

## 15. 212.

Með sínu lagi.

SPÁMAÐUR æðsti, sem hefir frá
hæðum
hjálpræðiskenning oss blessaða fært,
mentaðu' oss fávísa menn í þeim fræðum,
mönnum veit öllum, að geti þeir lært

það, sem í dimmviðri þrauta má lýsa,
það, sem til himins má leiðina vísa.

2. Prestur hinn æðsti, sem fyrir oss færðir
fórnina dýrstu, þitt heilaga líf,
gef þú, að allir af syndunum særðir
sér til þín snúi, þú volaðra hlíf.
Bið fyrir öllum, að brot sín þeir gráti,
bið fyrir öllum, að frelsast þeir láti.

3. Konungur æðsti, sem kristninni stýrir,
kraft henni veit þú að heyja gott stríð.
Gef þú, að ávextir dygðanna dýrir
daglega vaxi hjá kirkjunnar lýð.
Lát þinnar verndar og líknar oss njóta,
lát þér til dýrðar oss sigurinn hljóta.

## 16.

5/2

Með sínu lagi.

ÞANN signaða dag vér sjáum enn
með sólunni' af djúpi rísa;
oss alla það veki, auma menn,
að oss virðist Drottinn lýsa;
því lýsi vor verk, oss, ljóssins börn,
að lengur ei myrkrin hýsa.

2. Þá signuðu stund, þá sælu nátt,
er sonur Guðs blíður fæddist,
þá ljómaði' af degi' í austurátt
og ógurlegt myrkrið hræddist,
og ljúflega breiddist ljós um heim,
alt lífið að nýju glæddist.

3. Þó strá hvert á jörðu' og lilja' í
og lauf fengi röddu skæra, [lund
og alt vildi Guði alla stund
með englunum lofsöng færa,
sú vegsemdin yrði döpur og dauf
mót dýrðinni ljóssins kæra.

4. Af gröfinni rís með gull í mund
hinn glóandi morgunblómi;
með kórónu gullna kvöldsins stund
loks kemur í góðu tómi;
þá leikur svo dátt á brá með blund
hinn blessaði aftanljómi;

5. Til föðurlands vors svo förum heim,
þar framar ei rennur dagur·
Borg lifanda Guðs í löndum þeim
og ljóminn svo undra fagur
oss tekur þá við; þar endar ei
vor inndæli sæluhagur.

## 17.

Með sínu lagi, eða: Af instu rót.

HVE yndislegt er æ til þín að snúa,
hve yndislegt, minn Guð, hjá þér að búa;
laus allra anna elsku þína kanna
í þinni tjaldbúð, herra herskaranna.

2. Hve langar mína sál í sali þína,
þar sífelt ljósin orða þinna skína.
Vor hljóðnar hljómur, himins vaknar
ómur;
hve gleður mig þinn hái helgidómur.

3. Hve sælir þeir, er athvarf hjá þér
og æ í þínu húsi búa mega! [eiga

Minn Guð, sú gleði, gæzka þín er léði:
Að lofa þig með ljúfu hjartans geði.

4. Í forsal þínum eg sit heldur yztur
en annarsstaðar, þótt eg sitji fyrstur.
Hver Drottins dagur, dýrðarskær og
fagur,
er þúsund sinnum betri' en heimsins
hagur.

---

## 18. 5-36

Lag: Ofan af himnum hér kom eg.

Ó Drottinn, minnar sálar sól,
nú sezt í æginn ljóssins hjól,
en þegar birtan burtu fer,
þín blessuð ásján lýsi mér.

2. Gef hjarta mínu helgan frið,
gef hverri sálu líkn og grið;
ó, fyrirgef oss fall og synd,
ó, frelsa, Drottinn, þína mynd.

3. Ó, frelsa hvert þitt fárátt barn,
er fer nú vilt um eyðihjarn,
og leið það heim í ljós og frið
og legg það föðurhjartað við.

4. Ó, minstu hvers, er mæðir nauð,
ó, metta hvern, er vantar brauð,
ó, lækna hvern, er særir sótt,
ó, sérhvern styrk, er brestur þrótt.

5. Ó, lít á þeirra hrygðar hag,
sem heiðnin blindar nótt og dag;
ó, kveik þeim ljós, ó, send þeim sól,
ó, sýn þeim Jesú náðarstól.

6. Ó, veit hjá þeim að verði ljós,
unz vaknar sérhver dáin rós.
Ó, veit oss öllum hjálp og hlíf
og hér og síðar eilíft líf.

## 19. 26

Lag: Vakna, Síons verðir kalla.

HALLELÚJA, dýrð sé Drotni,
vors Drottins vegsemd aldrei þrotni,
hann tigni alt sem mest það má.
Guð vorn allir göfgi lýðir
og gjörvalt skapað allar tíðir
svo hér á jörð sem himnum á.
Hann lofi líf og sál.
Hann lofi rödd og mál.
Hallelúja!
Hans gæzkuþel
alt gjörir vel,
vor Guð oss blessar líf og hel.

## 20. 568

Lag: Sjáðu, sjáðu, faðirinn fríði.

HÉÐAN burt vér göngum glaðir,
Guð, úr þínu húsi nú;
alt vér þökkum, elsku-faðir,
enn er hér oss veittir þú:
Lífsins orða ljósið bjarta,
læknismeðal sjúku hjarta,
endurnæring, hressing, hlíf,
huggun, svölun, kraft og líf.

## 21. 6 H 3

Lag: Enn í trausti elsku þinnar.

VIRZTU, Guð, að vernda' og styrkja
vora þjóð og gef oss frið;
þeim, sem vel þinn víngarð yrkja,
veit þú blessun, þrótt og lið;
gef, að blómgist, Guð, þín kirkja,
Guð, oss alla leið og styð.

2. Virztu, góði Guð, að náða
gjörvöll börn þín fyr og síð;
lækna sjúka, þreytta, þjáða,
þrenging snú í lífskjör blíð;
mædda, beygða, hrelda, hrjáða
hugga' og styrk þú alla tíð.

## 22. 6 H 2

Lag: Sólin upprunnin er.

ÞÍN kirkja, góði Guð,
þú gef að standi
um aldir óbifuð
af öllu grandi
og orðið þitt til enda heims að megi
til Jesú lýsa lýð
sem leiðarstjarna blíð
á vorum vegi.

2. Lát bygðir blóma ná
og blessun hljóta;
lát réttinn framgang fá
og frið ei þrjóta;
lát sannleiks sól oss sífelt öllum lýsa
og rétta lífs á leið

um lífdaganna skeið
oss veginn vísa.
3. Þá dapur dauðinn ber
að dyrum, faðir,
veit hjálp að höldum vér
burt héðan glaðir
í vissri von um vist í sælu-bygðum;
um myrku heljarhlið
oss heim þú leið í frið
frá háska' og hrygðum.

## 23. 638

**Lag: Mín huggun og von.**

FAÐIR andanna,
frelsi landanna,
ljós í lýðanna stríði,
send oss þitt frelsi,
synda slít helsi,
líkna stríðanda lýði.
2. Lýstu heimana,
lífga geimana,
þerðu tregenda tárin
Leys oss frá illu,
leið oss úr villu,
lækna lifenda sárin.
3. Sælu njótandi,
sverðin brjótandi
faðmist fjarlægir lýðir.
Guðs ríki drotni,
dauðans vald þrotni.
komi kærleikans tíðir.
4. Faðir ljósanna,

lífsins rósannna,
lýstu landinu kalda.
Vertu oss fáum,
fátækum, smáum
líkn í lífsstríði alda.

## 24. 50

Lag: Heiðrum vér Guð af hug og sál.

VORS herra Jesú verndin blíð
veri með oss á hverri tíð;
Guð huggi þá, sem hrygðin slær,
hvort þeir eru fjær eða nær;
kristnina efli' og auki við,
yfirvöldunum sendi lið;
hann gefi oss öllum himna frið.

## 25. 302

Lag: Adams barn, synd þín svo var stór.

VÉR biðjum þig, ó Kristur kær,
lát kenning þína fjær og nær
um heiminn blessun breiða;
gegn táli syndar veit oss vörn,
að verðum Guðs hin réttu börn;
þinn anda lát oss leiða.
Við hjarta þitt oss haltu fast,
og hjörtu vor lát gagntakast
af ástaranda heitum,
sem ljóssins börn að lifum vér
og loksins hljótum vist hjá þér
með helgum himna sveitum.

## 26.

Með sínu lagi.

ALDREI mæzt í síðsta sinni
sannir Jesú vinir fá,
hrelda sál, það haf í minni
harmakveðju-stundum á.

2. Þótt vér sjáumst oftar eigi
undir sól, er skín oss hér,
á þeim mikla dýrðardegi
Drottins aftur finnumst vér.

3. Þótt vér hljótum hér að kveðja
hjartans vini kærstu þrátt,
inndæl von sú oss má gleðja,
aftur heilsum vér þeim brátt.

4. Hrelda sál, það haf í minni
harma-kveðju stundum á:
Aldrei mæzt í síðsta sinni
sannir Jesú vinir fá.

## 27.

Lag: Óvinnanleg borg er vor Guð.

GUÐ faðir vor á himnahæð!
þitt helgist nafnið dýra;
þitt ríki útbreið, efl og glæð;
lát oss þinn vilja stýra.
Gef daglegt brauð og björg,
og brot vor kvitta mörg;
oss freistni forða við,
alt frelsa mannkynið.
Þín dýrð er eilíf. Amen.

28.

Lag: Guðs son mælti: Grát þú eigi.

DROTTINN blessi mig og mína
morgun, kvöld og nótt og dag.
Drottinn vefji vængi sína
vorn um lífs og sálar hag.
Drottinn allra veri vörn;
varðveit, faðir, öll þín börn.

2. Drottinn ljós sitt láti skína,
ljómar fögur ásýnd hans.
Drottinn geisla sendi sína,
sólargeisla kærleikans.
Drottinn yfir lög og láð
láti skína sína náð.

3. Drottinn ásýnd birti bjarta
börnum sínum alla tíð.
Drottinn vermi hvert eitt hjarta,
hressi' og gleðji allan lýð.
Drottinn veiti líkn og lið,
lýsi, blessi' og gefi frið.

2. Lofgjörð og bæn.

29.

Lag: Lofið vorn Drottin.

HEILAGUR, heilagur, heilagur, alls
herjar Drottinn!
Himinn og jörðin um tign þína' og
dýrð bera vottinn!
Öld eftir öld
englanna þúsundafjöld
lofar þig, lifandi Drottinn.

2. Eilífur, eilífur, eilífur tímanna faðir!
Aldrei þú breytist um tímanna hverfandi raðir.
Öld eftir öld
áranna' og daganna fjöld
lofar þig, ljósanna faðir!

3. Alvaldur, alvaldur, alvaldur konungur hæða!
Upphimins sólir, þig tignandi, braut sína þræða.
Himnanna tjöld,
heimanna, geimanna fjöld
lofar þig, lávarður hæða!

## 30.

Með sínu lagi.

NÚ gjaldi Guði þökk
hans gjörvöll barna hjörðin;
um dýrð og hátign hans
ber himin vott og jörðin.
Frá æsku vorri var
oss vernd og skjól hans náð,
og alt vort bætti böl
hans blessað líknarráð.

2. Vor Guð, sem gjörvalt á,
oss gefi snauðum mönnum
í hjörtun æðstan auð
af andans gæðum sönnum;
í náð og sátt við sig
oss seka taki hann,

og leiði loks til sín
í ljóss og dýrðar rann.

3. Guð faðir, þökk sé þér
og þínum dýrsta syni
og æðstum anda skýrð
af engla og manna kyni.
Þitt vald, sem var og er
og verður alla tíð,
sé heiðrað hátt um jörð
og himin ár og síð.

## 31.

Með sínu lagi.

ÞÚ, Guð, ert mikill! Mergðin engla sveita
þitt mikla nafn; þér himnar lotning veita,
þín guðdómstign er hærri allri hæð;
þinn mátt og hátign vottar vorið blíða
og vetrar hret og dögg og haglið stríða
og skruggan skæð.

2. Þú góður ert; þín ást sér aldrei breytir,
sem engli hæstum manninum þú veitir,
já, maðki hverjum það, er þarf hann með;
hvert vor og sumar vottar elsku þína,
og vetrar frost og byljir einnig sýna
þitt gæzkugeð.

3. Hví skyldi þá mitt skelfast hjart að veika?
Hví skyldi' eg þá af kvíða beygður

reika?
Þín gæzka, Drottinn, aldrei, aldrei dvín.
Þótt vötn og eldur veröld hart um
spenni,
í von og trú eg augum mínum renni,
Guð, þó til þín.

4. Já, grafar ógn skal ei né dauðans
skuggar
mér ótta fá, því náðin Krists mig
huggar,
að kveðja veröld veldur mér ei hrygð.
Eg hugrór dey, og dómi kvíði' eg ekki,
því dómarann minn bezta vin eg þekki:
hans treysti' eg trygð.

## 32.

Lag: Andinn Guðs lifanda, eða:
Gleðinnar hátíð.

RÉTTLÁTI Drottinn, hver rannsaka
má
réttvísu dómana þína?
Aldrei þótt fullskilið fáum vér þá,
fegur þeir sólunni skína.
Mannanna réttlæti reynist valt,
réttlátt og heilagt hjá þér er alt.

2. Rréttláti Drottinn, í rétt ef þú fer,
ranglátir skelfast vér hljótum;
margt það vér gjörum, er mislíkar þér,
mót þér vér daglega brjótum.
Umbun þín, Drottinn, er einskær náð,
alt hjá oss mönnum er spilling háð.

3. Réttláti Drottinn, lát ranglæti mitt

reiknast í dómi mér eigi;
réttláti Drottinn, gef réttlæti þitt
réttlæti mig á þeim degi.
Drottinn, þitt réttlæti' er reginhaf,
röðli sem elskunnar ljómar af.

## 33.

Lag: Syng Guði dýrð.

ÞITT nafn, ó Drottinn, dýrðlegt er
þín dýrðleg verkin undrumst vér.
Og dýrðlegt er þitt dýrðarráð,
en dýrðlegust þín ást og náð.

2. Eg margt hef syndgað móti þér,
en miskunn þín samt hlífir mér;
eg ótal margt hef illa gert,
þú æ samt þolinmóður ert.

3. Þá undan dreg eg iðrun mín,
mér eftir bíður náðin þín;
þó viltur gangi' eg glæpa stig,
þín gæzkan kallar samt á mig.

4. Þá brýt eg þér á móti mest,
þú mig vilt leiða, Guð, sem bezt,
og tregðist eg að þjóna þér
með þolinmæði vægir mér.

5. Og hjálpin, Drottinn, öll mín er
hjá engum nema sjálfum þér.
Til annars hvergi hér eg flý,
en hendur þinnar líknar í.

6. Mitt líf og sál og líkam minn
eg legg í náðarfaðminn þinn.
Mér unn af hjarta' að elska þig..
Í Jesú nafni bænheyr mig.

## 34.

Með sínu lagi, eða: Í Jesú nafni upp stá.

SÉRHVERT ljós um lífsins nótt,
hugsvölun í hverjum þrautum,
hverja gleði' á lífsins brautum,
sérhvert lán og gæða gnótt,
alt hið fagra', er augað lítur,
andinn hvað sem dýrðlegt veit,
alla sælu', er hjartað hlýtur,
Herra, skóp þín elskan heit.

2. Alls hins góða er hún rót,
lind, er heilsu lífsins geymir,
lind, er rík af blessun streymir,
lindin, allra eymda bót;
lind, er heillum lýði vefur,
lind, er helgan veitir auð,
lind, er fegurð lífi gefur,
lind, er vekur hjörtun dauð.

3. Ó, þú Drottinn dýrðarhár!
Föðurást þín aldrei sefur,
Eden nýja hún oss gefur,
þvær af syndir, þerrar tár.
Fyrir Jesúm, frelsið manna,
fyrirgafst þú líka mér.
Líf og himinsælu sanna
sé eg búna' í faðmi þér.

## 35.

Lag: Hver sem ljúfan Guð lætur ráða
eða: Rís upp mín sál og bregð nú blundi.

Í gegnum lífsins æðar allar
fer ástar geisli, Drottinn, þinn;

í myrkrin út þín elska kallar
og allur leiftrar geimurinn
og máttug breytast myrkra ból
í morgunstjörnur, tungl og sól.

2. En skærast, Guð minn, skín og [ljómar
í skugga dauðans vera þín,
er röddin þinnar elsku ómar
í endurleystri sálu mín
og segir: Þú ert sonur minn,
því sjá þú, eg er faðir þinn.

3. Og aldrei skilur önd mín betur,
að ertu Guð og faðir minn,
en þegar eftir villuvetur
mig vermir aftur faðmur þinn,
og kærleiks-ljósið litla mitt
fær líf og yl við hjarta þitt.

4. Lát undur þinnar ástar vekja
upp elsku hreina' í hverri sál,
og öfund burt og hatur hrekja,
og heiftrækninnar slökkva bál.
Lát börn þín verða' í elsku eitt
og elska þig, sinn föður, heitt.

## 36.

Lag: Guði lof skal önd mín inna.

Upp, sál mín, lát ei linna
þitt lof um nafnið skaparans;
lát alt þig ætíð minna
á ást og náð og miskunn hans;
mér sekum grið hann gefur
og græðir sjúkleik minn
úr fjötrum fært mig hefur

og faðm mér breiðir sinn;
mér gnóttir gæða veitir
hans gæzka sérhvern dag,
í fögnuð böli breytir
og bætir vel minn hag.

2. Sín heit ei herrann brýtur
og hans ei breytist vizkuráð;
hans ástarþel ei þrýtur,
ei þverrað fær hans blessuð náð:
hann reiði rétta lægir
og refsing mýkir þrátt;
hann veikum börnum vægir
og veitir líkn og sátt.
Guðs náð er himnum hærri,
ef hún oss veitast má,
hvert afbrot er oss fjarri
sem austrið vestri frá.

3. Sem faðir aumkast yfir
sín elsku börn, er raunir þjá,
svo hvern, sem lastvar lifir,
æ lítur Guð í miskunn á.
Hann man, að mold og reykur
er maður hver á jörð,
sem blómið vallar veikur,
er veðrin skekja hörð.
Þess framar finst ei staður,
er fram hjá stormur brýzt;
svo hverfur hver einn maður
í heimi', er varir sízt.

4. Guðs náð um aldir alda
þeim aldrei bregzt né víkur frá,
með hreinni trú er halda

sér helgum Drottins vegum á.
Guð setti' á himni hæsta
sinn helgan veldis-stól;
um alheim geisla glæsta
hans guðdóms breiðir sól.
Þér menn og englar allir
og alt Guðs verka-safn,
þú jörð, þér himna-hallir,
ó, heiðrið Drottins nafn!

## 37.

Lag: Guðs son kallar: Komið til mín.

ÞÚ, Guð, ert eilíf gæzka og náð,
ó Guð, frá þér, vort hjálparráð,
öll gnótt af gæðum streymir.
Þú, Guð, ert öllum skepnum skjól,
þín skín um aldir náðarsól,
þú, Guð, oss aldrei gleymir.

2. Þú gafst oss líf, svo gætum vér
þá gæzku reynt, sem þú oss tér,
og þegið blessun þína.
Þú saðning hverja' og svölun lér,
á sjó og landi hvar sem er
þín ástar-undur skína.

3. Í miskunn æ þú minnist vor,
þín miskunn við hvert æfispor
oss veg til gæfu greiðir.
Þú hjálpar oss í hverri neyð,
þú hjálpar oss í lífi' og deyð
og loks í dýrð oss leiðir.

4. Þú gafst í dauða, Guð, þinn son
og gafst með því oss sekum von,

að náðar skyldum njóta;
já, ef vér trúum, trúrra laun,
er tímans höfum lokið raun,
þú ætlar oss að hljóta.

5. Þú, Guð, ert eilíf gæzka' og náð,
þú, Guð, vort traust og hjálparráð,
oss aldrei yfirgefur.
Um tíð og eilífð þökk sé þér,
er þúsundfalda náð oss tér
og dýrð oss heitið hefur.

## 38.

Með sínu lagi.

ÞÍN miskunn, ó Guð, er sem himininn há
og hjarta þíns trúfestin blíða;
þinn heilagan vísdóm má hvarvetna sjá
um heims alla bygðina fríða.

2. Sem rambygðu fjöllin þín réttvísin er,
sem reginhaf dómur þinn hreini.
Vor Guð, allra þarfir þú glögglega sér
og gleymir ei aumingjans kveini.

3. Já, dásöm er náð þín og dag sérhvern ný,
ó Drottinn, í skaut þitt vér flýjum;
vér hræðast ei þurfum í hælinu því,
er hörmunga dimmir af skýjum.

4. Ef sálirnar þyrstir, þú svölun þeim lér,
þær saðning fá hungraðar frá þér:

vor Guð, þínu' í ljósinu ljós sjáum vér,
og lífsins er uppspretta hjá þér.

39.

Með sínu lagi.

LOFIÐ vorn Drottin, hinn líknsama
föður á hæðum,
lofi hann allir með söngum og veg-
semdarræðum;
lofi hann sál
lofi hann athöfn og mál;
gnótt hann oss veitir af gæðum.

2. Lofið vorn Drottin; hann leiðir
og verndar og styður,
leysir úr nauðum og heyrir þess andvörp,
er biður;
byggðir um lands
blessaðar ástgjafir hans
drjúpa sem dögg til vor niður.

3. Lofið vorn Drottin; hann ávaxtar
iðninnar sveita,
atvinnu synjar ei þeim, er sér bjarg-
ræðis leita;
farsæld og frið
fulltingi, hjástoð og lið
öllum oss virðist hann veita.

4. Lofið vorn Drottin, er englanna
hersveitir hlýða,
hans eftir skipunum stormar og elding-
ar bíða;
dýrð honum ber;

himininn hástóll hans er,
jörðin hans fótskörin fríða.

5. Lofið vorn Drottin, og takið með
englum hans undir,
allir hann vegsamið lífs yðar gjörvall-
ar stundir;
hátt göfgið hann,
herrann vorn Guð, sem oss ann;
allar hann lofið á lundir.

## 40.

Lag: Heiðrum vér Guð af hug og sál.

VOR Drottinn Jesú, dýrð sé þér,
þig, Drottinn Jesú, lofum vér;
til hjálpar oss í heim komst þú,
til hjálpar oss þú ríkir nú.
Þú styrkir oss í stríði' og neyð,
þú styður oss á sorgarleið,
þú leiðir oss til lífs í deyð.

2. Með lotning sérhvað lýtur þér,
sem lífs á himni' og jörðu er.
Þótt veröld kalli vald sitt hátt;
það veikt er æ og þrýtur brátt;
en ríki þitt ei raskast má,
það rétti' og sannleik bygt er á,
og að eins þar er frelsi' að fá.

3. Vorn óstyrk, Drottinn, þekkir þú,
og það, hve oft vor dofnar trú;
æ, veit oss styrk, svo veröld flá
ei vilt oss geti sannleik frá;
lát hjörtu vor svo helgast þér,

að heilags friðar njótum vér
og hreppum arf, sem aldrei þver.

## 41.

Lag: "Coronation."

ÞÉR ljóssins englar, lífs um rann,
ó, lofið herrann Krist,
og krýnið dýrðarkonung þann,
já, krýnið Jesúm Krist.

2. Þér, vottar blóðs, Guðs helgur [her
í himna dýrðar vist,
ó, tignið hann, sem heiður ber,
og hyllið Jesúm Krist.

3. Þér, Adams börn, leyst ógnum [frá,
er ánauð þjáði byrst,
sem hlutuð frelsi himnum á,
nú heiðrið Jesúm Krist.

4. Þér, lýðir heims, und himni blá,
er heill sú auðnaðist,
við Jesú hjarta frið að fá.
Ó, faðmið Jesúm Krist.

5. Hve fögur stund, er frelsis rós
ei framar getum mist,
en ávalt sjáum lífsins ljós,
vorn lávarð, Jesúm Krist.

---

## 42.

Lag: Nú fjöll og bygðir blunda.

MITT höfuð, Guð, eg hneigi,
að hjartað stíga megi

í bljúgri bæn til þín.
Lát heims ei glys mér granda,
en gef mér bænar anda.
og hjartans andvörp heyr þú mín.

2. Eg bið þig, faðir blíði,
um bót í lífsins stríði,
Í Jesú nafni nú.
Í hæðir hjartað mænir,
þú heyrir allar bænir
í Jesú nafni', í Jesú trú.

3. Og þótt eg öðlist eigi,
gef ei eg þreytast megi
sem bezt að biðja þig.
Þú einn veizt tíma' og tíðir,
eg treysti því: um síðir
þú bænheyrir og blessir mig.

## 43.

Lag: Einn herra eg bezt ætti.

AÐ biðja sem mér bæri,
mig brestur stórum á.
Minn herra, Kristur kæri,
æ, kenn mér íþrótt þá.
Gef, yndi mitt og iðja
það alla daga sé,
með bljúgum hug að biðja
sem barn við föður kné.

## 44.

Lag: Þín miskunn, ó Guð.

ÞÚ, Jesús, ert vegur til himinsins heim,
í heimkynnið sælunnar þreyða;

æ, lát oss ei villast frá veginum þeim
á veginn til glötunar breiða.

2. Þú, Jeús, ert sannleikur; lát oss
fá lært,
ei lyginnar röddum að hlýða;
en veit að oss öllum sé inndælt og kært
af alhug þitt sannleiksorð blíða.

3. Þú, Jesús, ert lífið, sem dauðann
fær deytt;
lát dauðann úr sálunum víkja;
en lífið, sem eilífan unað fær veitt,
með almættis krafti þar ríkja.

## 45.

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

VERTU hjá mér, hirðir beztur,
hjartað mitt svo eigir þú.
Þegar dug og djörfung brestur,
Drottinn, gef mér nýja trú.
Vertu hjá mér, hvort eg þarf
hvíldar eður vinn mitt starf.
Loks er æfiárin þverra,
allra næst mér vertu, herra.

## 46.

Lag: Hjartkæri Jesú, af hjarta eg þrái.

TIL þín, ó Jesú minn, lát þú mig langa,
lýs þú mér blindum, svo finni eg þig;
afvega frá þér ef ætla' eg að ganga,
aftur mér haltu frá glötunar stig;
sýn þú mér veikleik minn, sekt mína'
og galla,

sýn þú mér böl mitt, ef frá þér eg sný;
styð mig, er ætla eg örmagna' að falla,
opna mér faðminn, er til þín eg flý.

## 47.

Lag: Kær Jesú Kristi.

HREINT skapa hjarta,
herra Guð, í mér;
lát ljós þitt bjarta
lýsa' oss jafnan hér
heims á hálum brautum,
heims að flýjum synd.
Unaði' í og þrautum
oss þín prýði mynd.
Verði á oss vilji þinn,
vertu hjá oss, faðir minn;
burtu frá oss sérhvert sinn
synd og voða hrind.

## 48.

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

STYRK oss, Jesú, styrk oss veika,
styrk oss til að fylgja þér;
lífs af braut ei lát oss skeika,
lífs svo kransinn hljótum vér.
Hér er freisting, hér er stríð,
hér er mæða' og reynslutíð;
vér því biðjum: vík ei frá oss,
vertu' í lífi' og dauða hjá oss.

49.

Lag: Enn í trausti elsku þinnar.

VEIT mér náð að vaka' og stríða,
vinna trúarsigurinn,
þínum vilja helgum hlýða,
hreinan geyma lærdóm þinn,
unz eg lít þitt auglit blíða
í Guðs ríki, Jesú minn.

---

# II.

# Þríeinn Guð.

## 1. Sköpun og forsjón.

50.

Lag: Heims um ból.

LOFIÐ Guð, lofið þér Guð,
þjónar hans helgiranns.
Lyftið upp höndum og hjörtum og sál,
hefjið upp lofgjörð og blessunarmál.
:,: Lofið hinn lifanda Guð. :,:

2. Lofið Guð, lofið þér Guð,
börnin öll hans í höll.
Lofið þér Drottin í helgidóm hans,
heilagan konung hins eilífa lands.
:,: Lofið hinn lifanda Guð. :,:

3. Lofið Guð, lofið þér Guð,
allir menn, allir senn.
Lofa þú Drottin, hans dýrkeypta hjörð.

Drottin, sem skapaði himin og jörð.
:,: Lofið hinn lifanda Guð. :,:

## 51.

Með sínu lagi.

UPP, skapað alt í heimi hér,
að heiðra Guð, vorn Drottin;
hið minsta verk hans mikið er,
um mátt hans alt ber vottinn.

2. Hvað get eg sagt? Ó, málið mitt
ei megnar, Guð, að lýsa,
hve margt er ástar-undur þitt,
hve öflug stjórnin vísa.

3. Ó, miklið Guð, þér menn á jörð,
á málum óteljandi;
ó, mikla Guð, þú hólpin hjörð,
á himna dýrðarlandi.

4. Guð, einn og þrennur, þakkar-
sé þér, og jafnan vari; [gjörð
vort hallelúja hljómi' á jörð,
en himnar amen svari.

## 52.

Lag: Einn herra eg bezt ættl.

HVE dýrðlegur er Drottinn
og dásemd mikil hans!
Þess öll ber veröld vottinn
í verkum skaparans:
Í svells- og sumarrósum,
í sólar geislastaf,
í himins leifturljósum;
um loft og jörð og haf.

2. Oss benda blómin smáu
á blessun lífgjafans,
og himinfjöllin háu
á hátign skaparans;
oss benda djúpir dalir
á Drottins hlífðarskjól
og háir hamrasalir
á herrans veldisstól.

3. Oss djúpið hafsins hulda
eins hermir alsstaðar
um Drottins vegu dulda
og djúp hans miskunnar;
oss boðar báran kalda,
er brotnar hafs við strönd,
að andstreymisins alda
fer eins við Drottins hönd.

4. Oss bendir loftsins ljómi
og ljósin uppi þar
að herrans helgidómi
í hásal eilífðar;
oss þangað vísar veginn
hans verk, svo dýrðlegt hér,
en hvað þá hinu megin
það hátignarlegt er!

## 53.

Með sínu lagi.

UPP, skepna hver, og göfga glöð
vorn Guð með þakkar fórn;
af ástar verkum eilíf röð
:,: er öll hans voldug stjórn :,:

2. Ó, lofið mesta meistarann,

þér menn, á hverri tíð;
því mikla gjörir hluti hann
:,: um heiminn ár og síð :,:

3. Oss öllum líf og afl og brauð
hann óverðskuldað gaf;
í líkn á vora leit hann nauð
:,: og létti byrðum af :,:

4. Þótt vont vér höfumst einatt að,
hann auglit sýnir blítt;
í hegningar vér hljótum stað
:,: frá honum velgjörð títt :,:

5. Vor sól og skjöldur æ hann er,
vort athvarf, traust og hlíf,
vort ljós í dalnum dimma hér
:,: í dauðanum vort líf :,:

6. Hann lokar augum brostnum [blítt,
er burtu sofnum vér,
og vermir sál og hjúkrar hlýtt
:,: er hjartað kólna fer :,:

7. Hann opnar helgan himin sinn,
er heims er lokið vist,
og sínum þangað safnar inn
:,: í samfélag við Krist :,:

8. Ó lofum allir, lofum hann;
hann lofi rödd og mál;
hann lofi alt, er lofa kann,
:,: hann lofi hjarta' og mál. :,:

54.

Lag: Guð Jehóva, þig göfgum vér.

MINN Guð og herra' er hirðir minn,
mér hjálpararm hann réttir sinn.

Eg veit, hann æ mér vill hið bezta,
eg veit, hann ei mig lætur bresta
það neitt, er getur gagnað mér,
því góður hirðir Drottinn er.

2. Um blómum stráða, græna grund
mig Guðs míns leiðir föðurmund
að svalalindum silfurskærum
og svalar mér úr lækjum tærum;
hans líknarhöndin hressir mig
og hjálpar mér á réttan stig.

3. Og þótt eg gangi' um dauðans dal,
hans dimma mér ei ógna skal.
Ef geng eg trúr á Guðs míns vegi,
mér grandar sjálfur dauðinn eigi.
Þín hrísla' og stafur hugga mig,
minn hirðir, Guð, eg vona' á þig.

4. Þú dýrðlegt sælu-borð mér býr,
með blessuð náðargæðin dýr;
þitt líknarbalsam ljúfa' og bjarta
þú lætur drjúpa sært á hjarta;
þú mér þinn gleði-bikar ber,
sem bezta svölun hjartans er.

5. Minn Guð, eg finn þú fylgir mér,
eg finn, hve vel eg leiddur er
á öllum mínum ævivegum
af armi þínum guðdómlegum.
Eg eins er hér í dauðans dal
í dýrðar þinnar bjarta sal.

## 55.

Lag: Ó Guð, þér hrós og heiður ber.
eða: Mín sál, þinn söngur hljómi.

Ó herra Guð, þér heiður ber,
mitt hjarta lofgjörð flytur þér.
Þú annast minn æ hefir hag,
þín hönd mig geymdi nótt og dag.

2. Þá neyð mitt hreysi nálgaðist,
þitt náðareyra' ei daufheyrðist,
þín gæzka létti eymdum af,
og aftur heill og blessun gaf.

3. Í sótt og verkjum lágt eg lá,
"Ó, líkna, faðir," bað eg þá;
í líkn og náð þú leizt til mín,
mér lækning veitti höndin þín.

4. Þá réttum vegi veik eg frá
eg viltist lasta brautir á,
þín föðurgæzka guðdómleg
mér greiddi' að nýju réttan veg.

5. Þá huggun þráði hjarta mitt,
þú huldir stundum auglit þitt;
þó lézt þú aldrei einan mig
og aftur náð þín birti sig.

6. Eg alla blessun þakka þér,
sem þinnar líknar vottur er;
en einkum glaður þakka' eg það,
að þú sem barn mig tókst þér að.

7. Eins neyð og raunir þakka' eg [þér,
er þú af kærleik sendir mér;
þú breytir gráti' í gleðihag,
þín gæzka ný er sérhvern dag.

8. Þótt sé hjá oss að kvöldi kvein.
er kæti' að morgni' og unun hrein.
Og lífs er aftan liðinn er,
oss ljómar morgun dýr hjá þér.

## 56.

Með sínu lagi.

Á hendur fel þú honum,
sem himna stýrir borg,
það alt, er áttu' í vonum,
og alt, er veldur sorg.
Hann bylgjur getur bundið
og bugað storma her;
hann fótstig getur fundið,
sem fær sé handa þér.

2. Ef vel þú vilt þér líði,
þín von á Guð sé fest.
Hann styrkir þig í stríði
og stjórnar öllu bezt.
Að sýta sárt og kvíða
á sjálfan þig er hrís.
Nei, þú skalt biðja' og bíða,
þá blessun Guðs er vís.

3. Ó, þú, minn faðir, þekkir
og það í miskunn sér,
sem hagsæld minni hnekkir
og hvað mér gagnlegt er;
og ráð þitt hæsta hlýtur,
að hafa framgang sinn,
því alt þér einum lýtur
og eflir vilja þinn.

4. Þig vantar hvergi vegi,
þig vantar aldrei mátt,
þín bjargráð bregðast eigi
til bóta' á einhvern hátt.
Þitt starf ei nemur staðar,
þín stöðvar enginn spor,
af himni' er þú þér hraðar
með hjálp og líkn til vor.

5. Mín sál, því örugg sértu,
og set á Guð þitt traust.
Hann man þig, vís þess vertu,
og verndar efalaust.
Hann mun þig miskunn krýna,
þú mæðist litla hríð;
þér innan skamms mun skína
úr skýjum sólin blíð.

## 57.

Lag: Andinn Guðs lifanda.

DROTTINN, minn Guð, þú ert bjarg
mitt og borg,
brugðist þú getur mér eigi.
Þú ert mitt athvarf í sérhverri sorg,
sól mín á harmanna degi.
Frelsisins merki eg hef upp hátt,
hjálpin úr upphæðum kemur brátt.

2. Drottinn, minn Guð, þú minn
skjöldur og skjól,
skeytin ei bitur mér granda.
Flý eg til þín, eins og fuglinn í ból,
fel eg mig þér milli handa.

Þínum í höndum ei hætt er mér;
hrósandi sigri eg gleðst í þér.

3, Drottinn, minn Guð, þú ert vernd
mín og vörn,
voðans í ólgandi flóði.
Frelsa þú lýð þinn og blessa þín börn,
blessaði faðirinn góði.
Lifandi Drottinn, eg lofa þig,
ljósanna faðir, ó bænheyr mig.

## 58.

Lag: Mín huggun og von.

Ó, Drottinn minn dýr,
ó, herra minn hýr,
tak við málefni mínu.
Styrk mig að standa
stórum í vanda;
bjarga barninu þínu.

2. Þín miskunn er mest,
þín blessun er bezt.
Hví þá hjarta mitt kvíðir?
Styrk mig að stríða; —
stutt er að bíða;
gef mér sigur um síðir.

3. Mín helgasta hlíf,
mitt ljúfasta líf,
stytt þú stundlega kífið.
Bíður vor bezta
blessunin mesta:
gleðin, ljósið og lífið.

## 2. Endurlausn.

### 59.

Lag: Kom, skapari, heilagi andi.

EG gleðst af því eg Guðs son á;
hann gaf mér sig og alt um leið,
er bæta fátækt mína má
og minni létta sálarneyð..

2. Eg gleðst af því eg Guðs son á;
hvað gjört fær mér nú heimurinn?
Minn ástvin, Jesús, er mér hjá
með allan mátt og kærleik sinn.

3. Eg gleðst af því eg Guðs son á;
nú grandað fær ei dauðinn mér;
því brodd hans hefir brotið sá,
sem bróðir minn og vinur er.

4. Eg gleðst af því eg Guðs son á,
hann gefa vill mér himin sinn,
og þangað leiða þrautum frá
í þreyða friðinn anda minn.

5. Eg gleðst af því eg Guðs son á,
eg gleðst, ó Jesú minn, í þér,
og bið þig heitt um blessun þá,
að burt þú aldrei hrindir mér.

### 60.

Lag: Guð miskunni nú öllum oss.

ÞÚ, Guðs son, eilíf gæzkulind,
að guðdómsvaldi ríkur,
þig klæddir vorri moldarmynd
og mönnum gjörðist líkur;
þú hefir lítillækkað þig

til líknar kyni manna,
svo leiddir það á lífsins stig
til ljóss og dýrðar ranna
úr hlekkjum hörmunganna.

2. Því valdið aftur hlauztu hátt,
sem hverri tign er stærra,
og guðdómsnafnið eilíft átt
nú öllum mönnum hærra.
Hvert hné á jörð og himni sig
til heiðurs þér æ beygi;
hver tunga sífelt tigni þig,
í trú hver rómur segi
þér lof, sem linnir eigi.

## 61.

Með sínu lagi.

ENN í trausti elsku þinnar,
er með guðdóms ljóma skín
fyrir sjónum sálar minnar,
sonur Guðs, eg kem til þín.
Líkn eg þrái, líkn eg þrái,
líttu því í náð til mín.

2. Eg þig tilbið, eg þín leita,
ómaklegan þó mig finn;
æ, virzt þú mér aumum veita,
endurnæring, drottinn minn.
Til þín mæni' eg, til þín mæni' eg,
taktu mig í faðminn þinn.

3. Mitt af syndum særða hjarta
sundurkramið meðtak þú;
lát þinn ástarljómann bjarta
lífga það og styrkja nú;

lækna sárin, lát mín tárin
ljóma' af elsku' og sannri trú.

4. Við þitt, Jesú, helgast hjarta
hvíld eg finn, en sorgin dvín;
þar er ástarbirtan bjarta,
blessuð náðin þaðan skín;
hjartablóð þitt, hjartablóð þitt
hjartasárin græðir mín.

5. Allar nægtir æðstu gæða
eg, minn Jesú, fæ hjá þér;
himnesk orð þín hugga' og fræða,
himnesk náð þín líknar mér;
hold og blóð þitt, hold og blóð þitt
himnesk lífsins fæða er.

6. Særða' og nakta sálu mína
sjálfur helgiskarti bú;
láttu hennar skrúða skína
skært í þinni augsýn nú;
ástarþýðum augum blíðum,
ó minn Jesú til mín snú.

7. Þér eg fórna, þér nú gef eg,
þér eg vígi hjarta mitt,
í þinn faðminn inn mig vef eg;
æ, við blessað hjartað þitt
unn mér þreyja, unn mér deyja,
öll mín brot þá verða kvitt.

## 62.

Lag: Sælir eru, þeir sjálfum Guð.

ÞÚ, herra, komst úr himna dýrð
að hugga, gleðja' og svala,
og þig í klæddir þjónsins rýrð

til þrauta' og dauðans kvala,
og blessuð líknar boðin þín
þú birtir heims um álfur;
oss bauðstu lífsins bragðsætt vín,
hið beiska drakstu sjálfur.

2. Æ, hví er þá svo hrygt og snautt
mitt hjarta, Jesú góði?
Ei lát það vera lengur autt,
svo létti sorgarmóði!
Ó, kom, ó, kom, eg kalla' á þig;
af kærleiks náðarbrunni
þú, Drottinn, gleð og drykkja mig,
að deyja' í þér eg kunni.

## 63.

**Lag: Sjáðu, sjáðu, faðirinn fríði.**

HIRÐISRAUST þín, herra blíði,
hljómi skært í eyrum mér,
svo eg gjarnan heyri' og hlýði
hennar kalli' og fylgi þér,
þér, sem vegna þinna sauða
þitt gafst sjálfur líf í dauða;
þér, sem ert mín hjálp og hlíf,
huggun, von og eilíft líf.

2. Herra minn og hirðir góði,
hjarta mitt skal prísa þig;
því eg veit, að þú með blóði
þínu hefir frelsað mig.
Undir hirðis-hendi þinni
hólpið æ er sálu minni,
og þú glatar aldrei mér,
ef eg hlýðinn fylgi þér.

## 64.

Með sínu lagi

SJÁÐU, sjáðu, faðirinn fríði,
feikna pínu sonar þíns;
sjáðu, sjáðu, kvöl og kvíði
kremur hjarta Jesú míns.
Seku barni þyrmdu þínu,
þessa' er fyrir leið hann pínu.
Guð, þitt minstu' á orð og eið
árnan fyrir hans og deyð.

2. Sjáðu holdið blóðugt, bjarta,
bundið, neglt á krossins tré.
Ástin streymir hans frá hjarta,
hann á mót fær reiði' og spé.
Sjáðu' hans limi sundurþanda,
sjáðu benjar fóta' og handa;
sjáðu þann, sem þín er mynd,
þjáðan undir manna synd.

3. Sjáðu, fyr' hans sortnar augum,
særist líf og öndin hans;
sjáðu, tára litast laugum
ljúfust ásjón frelsarans;
sjáðu hjartað, — hvílík pína!
hvílík neyð fyr' glæpi mína!
Sjáðu' hann lífið lét á kross,
líkn hjá þér að veitist oss.

4. Þessi' er sá, sem þú hefir slegið
þinna barna fyrir sekt;
þessi' er, Guð, þitt eilíft eigið
offur gilt og þægilegt;
þessi' er læknir minna meina,

miskunn, hæli' og lífið eina,
líf né dauði' ei má því mig.
minn Guð, skilja nú við þig.

5. Minstu slíkrar miklu náðar,
minstu' á Jesúm, soninn þinn;
minstu' á skepnur þínar þjáðar
þína' á líking, Drottinn minn.
Halt við trúnni' í hjarta mínu,
hugga mig af Jesú pínu.
Líf og sálu, líknin mín,
legg eg nú í geymslu þín.

## 65.

Lag: Syrgjum ekki sáluga bræður.

HINN saklausi talinn er sekur,
að sekir við refsingu sleppi;
og frelsarinn fjötra á sig tekur,
að fjötraðir lausnina hreppi.

2. Hinn góði' er með glæpalýð talinn,
að glæpamenn sæmdarnafn hljóti;
hinn heilagi er hæddur og kvalinn,
að heiðurs og sælu þeir njóti.

3. Hinn réttláti Guðs son er grátinn,
að gleði-von heimsins börn eigi;
og konungur lífsins er látinn,
að lifa' hinir dauðlegu megi.

4. Hví dó hann? Svo spillingin deyði.
Hvað drýgði' hann? Hann friðþægja [vildi.
Hvað veldur? Guðs réttláta reiði.
Hvað ræður? Guðs eilífa mildi.

5. Ó, undur, gekk sólin þá undir

hins alvalda Guðs yfir reiði?
Hún falin var fáar um stundir,
en fljótt skein hún aftur í heiði.

6. Já, svo var þá sigurinn unninn
og sigraður myrkranna kraftur;
þá undir var reiði Guðs runnin,
en runnin upp líknarsól aftur.

7. Það boða Guðs almættisundur,
sjá, öll skelfur jörðin og nötrar;
þá hrökkva sem hörkveikur sundur
þeir hörðustu, sterkustu fjötrar.

8. Þeir hörðustu hamrarnir klofna
hins helgasta fortjöldin rifna;
og gamlar þá grafirnar rofna
og gengnir til moldar upp lifna.

9. Ó, klofni mér helbjarg af hjarta,
og himinsins fortjaldið rifni;
ó, rofni Guðs reiðiský svarta,
og rósir úr gröfunum lifni.

## 66.

Lag: Jesú, þín minning mjög sæt er.

Ó Jesú, líkn og lífið mitt,
þú lífið gafst í dauða þitt,
til þess að deyða dauða minn,
í deyð til lífs því geng eg inn.

2. Þú gráta hlauzt, svo gleddist eg,
þú gekst hinn þunga kvalaveg,
svo æfi minnar efsta leið,
mér yrði heimför sæl og greið.

3. Þú leiðst á jörðu last og háð,
svo lofi' og sæmdum fái' eg náð,
og fjötur þrengdi fast að þér,
svo frelsið eilíft veittist mér.

4. Með hverju get eg þakkað þér?
Við þig um alt í skuld eg er.
Þú gafst mér lífið góða þitt,
eg gef þér hjartað veika mitt.

## 67.

Lag: Sjáðu, sjáðu, faðirinn fríði.

JESÚ, lífs míns lífið sanna,
líf í dauða gafstu þitt;
þú af byrði þjáninganna
þreyttist, svo mér verði fritt.
Þinn, ó Jesú, dauði deyddi
dauða minn og skelfing eyddi.
Jesú, þér sé þakkargjörð
þúsundföld á himni' og jörð.

2. Saklaus varstu sekur dæmdur,
sýkn að talinn verði ég;
bundinn milli fjenda flæmdur
frjáls að minn eg gangi veg;
mér að verði sómi sýndur,
sárum varstu þyrnum krýndur.
Jesú, þér sé þakkargjörð
þúsundföld á himni' og jörð.

3. Synda minna byrði barstu,
brotin lágu mín á þér;
hátt á krosstré hafinn varstu,
himins til að lyftir mér,
faðminn út þú blóðgan breiddir,

blítt að Guðs í skaut mig leiddir.
Jesú, þér sé þakkargjörð
þúsundföld á himni' og jörð.

4. Sál þín auðmýkt sýndi blíða,
sonur Guðs og blessað lamb,
að eg þurfi eigi' að líða
ótta' og smán mitt fyrir dramb;
dauðastríð þú hlauzt að heyja,
hægt að veiti mér að deyja.
Jesú, þér sé þakkargjörð
þúsundföld á himni' og jörð.

5. Fyrir heitu hrygðartárin,
hjartakvöl og sálarneyð,
fyrir höggin, fyrir sárin,
fyrir krossins bitra deyð,
fyrir handa' og fóta meinin,
fyrir píslarþorsta kveinin,
Jesú, þér sé þakkargjörð
þúsundföld á himni' og jörð.

## 68.

Með sínu lagi.

HVAÐ hefir þú, minn hjartkær Jesú brotið?
Af hverju dóm svo þungan bíða hlotið?
Hvers vegna hlýtur hegning þú að líða
svo harða' og stríða?

2. Hver orsök til er allra kvala þinna?
Hinn ógurlegi grúi synda minna.
Þá hegning, er eg hefði átt að bíða,
þú hlauzt að líða.

3. Hve undarlegt! í staðinn sinna
sauða
er sjálfur leiddur hirðirinn til dauða,
og herrann réttvís þess með þjáning
er þrællinn veldur. [geldur,

4. Hinn góði deyr, sem aðhefst alt
hið bezta,
hinn illi lifir, glæp er framdi versta;
hinn seki maður sýkn í dómi er fundinn,
en son Guðs bundinn.

5. Ó, kærleiksgnótt, er þrýsti þér
að ganga
á þyrnaleið, ó, Jesú minn, svo stranga.
Að löstum mér eg lék um æfi mína,
þú lézt þig pína.

6. Ó, Drottinn hæsti, hirðir sálna kæri,
með hverju get eg lofað þig sem bæri?
Eg á ei neitt, er helgri hátign þinni
rétt hæfa kynni.

7. Þó eitt er það, sem víst þú mikils
metur,
ef mín við synd eg tek að gæta betur,
ef holdsins girnda hlekki þungu slít eg
og heims ok brýt eg.

8. En sökum þess, að þrótt eg veit
mig bresta,
hið þrjózka holdið mitt við kross að
festa,
þá bið eg þig, mér hjálparhönd að rétta,
svo hepnist þetta.

9. Ó, styrk þú mig, svo veg þinn vel
eg feti,
ei veröld neins og hennar gæði meti,
ei láti framar hold og heim mig villa
og hjarta spilla.

10. Þér trúan lát mig lífs til enda vera,
svo lífsins krónu' eg síðar megi bera
og lofa þig í himna dýrðar höllum
með hólpnum öllum.

## 69.

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

JESÚ, blóð og benjar þínar,
bitur písl og dauði þinn
allar bæti eymdir mínar,
einnig sjálfan dauða minn.
Hugsi eg um hrelling þá,
hjarta þitt sem lagðist á,
það mér elsku þína sannar,
það hvern synda leik mér bannar.

2. Þá er veröld vill mig ginna
veginn út á breiða þann,
þar sem hennar þjónar finna
það, er fýsnum skemta kann,
beiskan píslar þunga þinn
þá eg læt, ó, Jesú minn,
halda föstu hjarta mínu
hnossin við í ríki þínu.

3. Hvað sem vill mér hrelling búa,
hæli benjar þínar ljá;
því skal hjartað þjáða snúa
þangað, hvíld og styrk að fá.

Beiskur píslar bikar þinn
bætir hrygðar kaleik minn;
þá er kvölin sár þig særði,
sár þitt hvert mér heilsu færði.

4. Eg hinn aumi, syndum seldi,
set mitt traust á dauða þinn;
dauði sá minn dauða feldi,
dauðann gjörði lífsveg minn.
Huggun æðsta hefi' eg þá,
hlutdeild að í þér eg á.
Náð þín eymd í unað breytir,
eilíft sælulíf mér veitir.

5. Hafi eg í hjarta mínu,
helgur náðar brunnur, þig,
þá eg engri þjáist pínu,
þá ei dauðinn skelfir mig.
Enginn grandar óvin mér,
ef eg hæli fæ hjá þér.
Sigur unnið sérhver hefur,
sem í blóðfaðm þinn sig vefur.

## 70.

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

KRÝP eg nú að krossi þínum,
Kristur Jesú, Drottinn minn!
Hlaðinn ótal eymdum mínum
undir krossinn flý eg þinn,
þar að friða særða sál,
sárra harma slökkva bál,
brot mín Guði bljúgur játa,
bresti mína' og syndir gráta.

2. Drottinn Jesú, athvarf á eg

ekkert nema krossinn þinn;
undir honum einum má eg
andann hrelda friða minn.
Án hans myndi alt mitt ráð
eymd og glötun vera háð;
án hans væri' eg harmi hreldur,
hræðilegum píslum seldur.

3. Broddinn þeirrar beisku pínu
brauztu, herra, Jesú minn!
hels í stríði þegar þínu
þungann synda barstu minn;
bætti fyrir brotin mín
blessuð guðdóms náðin þín;
dýrstur krossinn kvala þinna
kvittun ávann synda minna.

4. Þennan fast eg faðma krossinn,
friðþægingar krossinn þinn,
þinn sem dýrstur dreyra fossinn
döggvað hefir, Jesú minn!
Himinstigi hann mér er,
himin Guðs hann opnar mér;
anda mínum beinir bjarta
braut að Guðs míns föðurhjarta.

## 71.

Með sínu lagi.

ÞÚ minn Drottinn þyrnum krýndi,
þann er heiður veröld sýndi,
krans eg vil um kross þinn flétta,
kenn þú mér að gjöra þetta,
Drottinn minn, til dýrðar þér.

2. Að þér tókstu týnda sauðinn,
traustari var ást en dauðinn.
Fremur gefur þú en þiggur,
þér á hjarta framast liggur
það, að deyja vegna vor.

3. Djúpt úr æðum, inst frá hjarta.
undin flæðir þín hin bjarta,
nógu sterk hvern klett að kljúfa,
klakaserkinn harða' að rjúfa,
hreinsa' og mýkja hjörtun spilt.

4. Þú, er sjálfan þig mér gefur,
þú, sem endurleyst mig hefur,
lát mig þig með sama sinni
sífelt hafa fast í minni,
elska þig af öllum hug.

5. Hærri þótt sé huga mínum,
held eg mig að krossi þínum.
Styð þú mig að stríða' og líða,
styrk þú mig í dauðans kvíða.
Leið þú mig í lífsins borg.

## 72.

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

MEÐAN, Jesú minn, eg lifi,
mig lát aldrei gleyma þér;
hönd þín mér á hjarta skrifi
hugsun þá, sem dýrust er.
Ég bið, þar þá játning set :
"Jesús minn frá Nazaret
er sú hjálp, sem æ mig styður,
er mín vegsemd, líf og friður."

### 3. Helgun.

### 73.

Lag: Kom, skapari, heilagi andi.

KOM, helgur andi, kom með náð,
í kristnum sálum stað þér bú;
af himni send þín heilnæm ráð
í hjörtun, sem að tilbjóst þú.

2. Þú huggun, ei sem hreldum brást,
hins hæsta gjöf; þú mannsins líf,
þú lífsins brunnur, eldur, ást
og andleg smurning, vernd og hlíf.

3. Þú óþrjótandi gjafa gnótt,
frá Guði' um allan heim sem fer;
á kristnum tungum flýgur fljótt
það föðurorð, sem þú oss ber.

4. Í hjörtun sannri hell þú ást,
í huga' og skilning ljós þitt kveik;
þitt afl, sem þeim, er bað, ei brást,
það bjargi holdsins óstyrkleik.

5. Lát freistarann ei fá oss veitt,
en friðinn efl í hverri grein;
ef þér vér fylgjum, fær ei neitt
hið fjandsamlega' oss unnið mein.

6. Þig, andi, syni' og föður frá,
í fullri trú vér lofum hér;
þér, heilög þrenning himnum á,
af hjarta lofgjörð færum vér.

## 74.

Lag: Kom, Guð helgi andi, hér.

KOM, Guð andi helgi, hér
himnum af og til vor ber
ljóssins geisla', er ljóma' af þér.
Kom, vér börn þig köllum á,
kom og gjafir þínar ljá;
kom í hjörtun himnum frá.

2. Huggarinn, sem hjálpar bezt,
heill fær sálin af þeim gest;
endurnæring ertu mest.
Öllu' í starfi ertu hvíld,
andarþorstans svölun mild,
og í harmi huggun gild.

3. Blessað ljós þig biðjum nú,
brjóstið innra' að fyllir þú
heitum kærleik, hreinni trú.
Nema þér sé fullting frá,
finst ei gott neitt mönnum hjá,
saklaust jörðu' er ekkert á.

4. Lauga það, sem óhreint er,
og það döggva', er visna fer;
lækna það, sem lemstur ber;
mýk alt stirnað mjög og spilt,
vermdu það, sem frosti' er fylt;
greið þess veg, er gengur vilt.

5. Veit þeim, trú sem vottar þér,
vonargleði' í brjóstum sér,
sem um eilífð ávöxt ber.
Gef oss dygða gleði'leg not,

gef oss hólpin æfilot,
unaðs hjá þér engin þrot.

## 75.

Lag: Ó, Guð, þér hrós og heiður ber.

Ó Guð, mér anda gefðu þinn.
er glæðir kærleik, von og trú,
og veit, hann helgi vilja minn,
svo vilji' eg það, sem elskar þú.

2. Æ, lát hann stjórna lífi' og sál,
að lifi' eg eins og kristnum ber,
og öll mín hugsun, athöfn, mál
til æfiloka helgist þér.

3. Þig, sem hið góða gefur alt,
ó. Guð, af hjarta bið eg nú;
við ótta þinn mér ætíð halt
og elsku þína' og sanna trú.

4. Minn greiði veg þín gæzkan blíð,
svo geti' eg trúr mitt runnið skeið;
en þegar lyktar lífsins stríð,
mér líkna þú í dauðans neyð.

5. Að eg sé blessað barnið þitt,
eg bið þinn andi vitni þá.
Æ, heyr þú hjartans málið mitt,
vor mildi faðir himnum á.

## 76.

Lag: Hve sælt hvert hús.

ÞINN andi, Guð, til Jesú Krists mig
og komi mér á hina réttu leið, [kalli

svo ætíð eg að brjósti hans mér halli
í hverri freisting, efa, sorg og neyð.

2. Þinn andi, Guð minn, upp mig sífelt lýsi ,
með orði þínu, ljósi sannleikans;
Í lifi' og dauða það mér veginn vísi
til vors hins þráða, fyrirheitna lands.

3. Þinn andi, Guð, mitt endurfæði
og í mér skapi hjarta nýtt og gott, [sinni
er aftur verði eftir líking þinni
og ávalt beri þinnar myndar vott.

4. Þinn andi, Guð, mitt helgi' og betri hjarta
og hreinsi það frá allri villu' og synd,
og höll þar inni byggi dýra' og bjarta,
er blíða sífelt geymi Jesú mynd.

## 77.

Lag: Nú biðjum vér heilagan anda.

GUÐ, helgur andi, heyr oss nú
ó, heyr, vér biðjum: veit oss rétta trú,
huggun hjörtum mæddum
heims í eymda kjörum,
svölun sálum hræddum,
síðast burt er förum.
Streym þú, líknarlind.

2. Þú, blessað ljós, ó, lýs þú oss
í líknarskjólið undir Jesú kross.
Veit oss hjálp að hlýða
hirði vorum góða,
lausnaranum lýða,

lífgjafanum þjóða.
Streym þú, líknarlind.

3. Þú, kærleiksandi, kveik í sál
þann kærleikseld, er helgi verk og mál,
að í ást og friði
æ vér lifað fáum,
unz að æðsta miði
allir loks vér náum.
Streym þú, líknarlind.

4. Þú huggun æðst í hverri neyð,
oss hjálpa þú og styð í lífi' og deyð.
Veit þú, að oss eigi
afl og djörfung þrjóti,
er hinn óttalegi
óvin ræðst oss móti.
Streym þú, líknarlind.

5. Guð helgur andi', á hinztu stund
oss hugga þú með von um Jesú fund.
Þá er þrautin unnin,
þá er sigur fenginn,
sælusól upp runnin,
sorg og þrenging engin.
Streym þú, líknarlind.

## 78.

Lag: Í fornöld á jörðu.

AF heilagleik meira, ó, herra, gef mér,
af hugrekki' og tápi gegn freistinga her,
af trú á þinn almátt og eilífa frið,
af unaði hjartans og grandvörum sið.

2. Af þakklæti meira, ó, Guð minn, mér gef,

af gleðinni meir, því að fundið þig hef,
af Guðs sonar vegsemd, af Guðs sonar
hrygð,
af Guðs sonar kærleik og sannleik og
dygð.
3. Af hreinskilni hjartans enn meira
gef mér,
svo mætti eg standast, ó, Guð, fyrir þér.
Eg vil, ó, eg vil að minn vilji sé þinn
og verða þér líkur, ó, frelsari minn.

---

# III.

# Kirkjuárið.

## 1. Aðventa.

### 79.

Með sínu lagi.

VAKNA, Síons verðir kalla,
ó, vakna, hljómar röddin snjalla,
þú Jerúsalem, borg Guðs, brátt.
Hyggin vert og hugsa eigi,
að hér til hvíldar bjóða megi
þótt yfir standi aldimm nátt.
Sjá, herrann kemur kær,
kom, brúður, honum nær.
Blys lát brenna
og gleðst í lund;

á Guðs þíns fund
hann leiðir þig við ljúfa mund.

2. Síon hljóminn helga nemur,
sig hún í skyndi býr og kemur
og ástvin breiðir arma mót.
Sjá, hann birtist, son Guðs friður·
í sannleiksvaldi, náðarblíður,
sú morgunstjarna' og meinabót.
Þú, herra', ens hæsta son,
vor huggun, gleði' og von,
hósíanna!
Með fögnuð vér
nú fylgjum þér
í himnadýrð, sem eilíf er.

3. Eilíft lof með einum rómi
þér inna skal, Guðs dýrðarljómi,
með englum sælum uppi þar,
þar sem lífsins geislar glitra
frá guðdómsstóli hins alvitra,
sem með sér ann oss eilífðar.
Hvað auga aldrei sá
og eyra mátti' ei ná,
vér nú sjáum.
Ó, herra, þér,
sem hjörtun sér,
um eilífð syngjum vegsemd vér.

## 80.

Lag: Ó, Guð, þér hrós og heiður ber.

GJÖR dyrnar breiðar hliðið hátt!
Þú, herrans kristni, fagna mátt;

því kongur dýrðar kemur hér
og kýs að eiga dvöl hjá þér.

2. Hann býður líknar blessað ár,
hann býður dýpst að græða sár,
hann býður þyngstu' að borga sekt,
hann býður aumra' að skýla nekt.

3. Sjá, mildi' er lögmál lausnarans,
sjá, líkn er veldissproti hans;
því kom þú, lýður kristinn, nú
og kongi dýrðar fagna þú.

4. Hve sælt það land, hve sælt það [hús,
er sælugjafinn líknarfús
sér trútt og hlýðið fundið fær,
þar friður, heill og blessun grær.

5. Hve sælt það hjartað ávalt er,
sem ást til Krists með lotning ber
og honum í sér bústað býr;
að bragði sorg öll þaðan flýr.

6. Gjör dyrnar breiðar, hliðið hátt,
þig, hjarta, prýð, sem bezt þú mátt,
og trúarlampann tendra þinn,
og til þín bjóð þú Jesú inn.

7. Eg opna hlið míns hjarta þér,
ó, herra Jesú, bú hjá mér,
að fái hjálparhönd þín sterk
þar heilagt unnið náðarverk.

8. Ó, kom, minn Jesú, kom sem fyrst,
ó, kom og mér í brjósti gist;
ó, kom þú, segir sála mín,
ó, seg við mig: "Eg kem til þín."

## 81.

Lag: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

SLÁ þú hjartans hörpustrengi,
hrær hvern streng, sem ómað fær.
Hljómi skært og hljómi lengi
hósíanna nær og fjær.
Hvert þitt insta æðarslag
ómi' af gleði þennan dag.
Konungurinn konunganna
kemur nú til sinna manna.

2. Ríki hans um allar álfur
ómælanda geimsins nær.
Hásætið er himinn sjálfur
hallarprýði sólin skær;
fótskör hans hin fagra jörð,
fylgdin hans er englahjörð.
Skrúða ljóssins skrýddur er hann,
skíra lífsins krónu ber hann.

3. Hann þótt æðst í hátign ljómi,
hógvær kemur alsstaðar.
Hjarta þitt að helgidómi
hann vill gjöra' og búa þar.
Opna glaður hjartans hús,
hýs hinn tigna gestinn fús.
Getur nokkuð glatt þig fremur:
Guð þinn sjálfur til þín kemur.

4. Líknarár hann enn þá gefur,
ár, sem háð ei breyting er,
ár, er sumar ávalt hefur,
ávöxt lífs að færa þér.
Vetur, sumar, vor og haust

votti þakkir endalaust
konunginum konunganna
krýndum vegsemd, hósíanna.

## 82.

Lag: Nú gjaldi Guði þökk.

UPP lyftið höfðum hátt,
því herrann nálgast tekur,
sá Guðs hinn góði son,
af gröf sem alla vekur.
Hin ljúfa lausnar-stund
nú lýsir yfir jörð
í trú og vissri von
svo vítt sem býr hans hjörð.

2. Sjá himinn, jörð og haf
nú herrans komu boða,
og sjálft Guðs sannleiks orð
hinn síðsta morgunroða,
sem boðar frelsi, frið
og fögnuð Drotni hjá
til handa hverjum þeim,
sem hér hann trúir á.

3. Nú tendra trúar ljós,
að taka móti Drotni,
og varast umfram alt,
að andans viðsmjör þrotni.
Gjör hjartað blítt og bjart,
sem barn með glaða lund,
og hugsa hreint og frjálst
um herrans komustund.

## 83.

Lag: Kirkja vors Guðs er gamalt hús.

HEFJUM upp augu' og hjörtu með,
hjálpræðisstund vor er nærri;
Jesúm vér fáum sjálfan séð,
sorg öll og kvíði' er þá fjarri;
senn kemur eilíf sumartíð,
sólunni fegri' er ljómar blíð
Drottins í dýrðinni skærri.

## 84.

Lag: Kær Jesú Kristi.

VELKOMIN vertu,
vetrar perlan fríð;
síblessuð sértu,
signuð jólatíð,
Guðs frá gæzku hendi
gulli dýrra hnoss;
þökk sé þeim, er sendi
þig, svo gleðjir oss.
Þú oss friðar-boðskap ber,
birtir grið og náð oss tér,
læknar sviða, sárt er sker,
súta léttir kross.

2. Velkominn vertu,
vor Immanúel;
ástgjöf sú ertu,
alt, sem bætir vel
böl, er hjörtu hrjáir,
haldin eymd og synd,
hvíld, er þreyta þjáir,
þyrstum svalalind.

Jesú góði, þökk sé þér,
þig að bróður fengum vér;
þitt oss blóðið lífgjöf lér,
ljóminn Guðs og mynd.

3. Velkominn vertu,
vorri' að létta neyð;
athvarf vort ertu
æðst í lífi' og deyð,
ástvin elskulegur,
aumra hirðir trúr,
hjálp og heillavegur,
hlíf og verndarmúr.
Þú vor græðir synda sár,
sorg er mæðir, þerrar brár,
sækir bæði síð og ár
sauði glötun úr.

4. Velkominn vertu
viltri manna hjörð;
síblessuð sértu,
sólin lífs, á jörð;
guðdóms geisla þína
götu mannkyns á
láttu skært oss skína,
skelfing bægðu frá.
Kuldann hrek úr hjörtunum,
hreina vek í sálunum
trú og þrek í þrautunum,
þig unz fáum sjá.

## 85.

Með sínu lagi.

UPP, gleðjist allir, gleðjist þér,
í Guði vorum fagna ber,
vort hjálpráð nú er nærri.
Ó, heyrið blíðan boðskap þann,
að borinn er í manndóm hann,
sem Guð er himnum hærri.

2. Burt, hrygð úr allra hjörtum nú,
kom, heilög gleði, svo í trú
vér Jesúm faðmað fáum,
og elskan heit af hjartans rót
þeim himingesti taki mót
með lofsöngs hljómi háum.

3. Ó, virztu, góði Guð, þann frið,
sem gleðin heims ei jafnast við,
í allra sálir senda;
og loks á himni lát oss fá
að lifa jólagleði þá,
sem tekur aldrei enda.

### 2. Jól.

## 86.

Með sínu lagi.

HEIMS um ból helg eru jól;
signuð mær son Guðs ól,
frelsun mannanna, frelsisins lind,
frumglæði ljóssins, en gjörvöll mann-
:,: meinvill í myrkrunum lá :,: [kind

2. Heimi í hátíð er ný;

himneskt ljós lýsir ský;
liggur í jötunni lávarður heims,
lifandi brunnur hins andlega seims,
:,: konungur lífs vors og ljóss :,:

3. Heyra má himnum í frá
englasöng: "Allelújá".
Friður á jörðu; því faðirinn er
fús þeim að líkna, sem tilreiðir sér
:,: samastað syninum hjá. :,:

## 87.

Með sínu lagi.

Í dag er glatt í döprum hjörtum,
því Drottins ljóma jól.
Í niðamyrkrum nætur svörtum
upp náðar rennur sól.
Er vetrar geysar stormur stríður,
þá stendur hjá oss friðarengill blíður,
og þegar ljósið dagsins dvín,
oss Drottins birta kringum skín.

2. Oss öllum mikinn fögnuð flytur
sá friðarengill skær:
Sá Guð, er hæst á himni situr,
er hér á jörð oss nær;
sá Guð, er ræður himni háum,
hann hvílir nú í dýrastalli lágum;
sá guð, er öll á himins hnoss,
varð hold á jörð og býr með oss.

3. Guðs lýður, vertu' ei lengur hrædd--
og lát af harmi' og sorg; [ur
í dag er Kristur Drottinn fæddur
í Davíðs helgri borg.

Hann fjötrum reifa fast er vafinn,
í frelsi barna Guðs svo þú sért hafinn:
hann þína tötra tók á sig,
að tign Guðs dýrðar skrýði þig.

4. Á himni næturljósin ljóma
svo ljúft og stilt og rótt,
og unaðsraddir engla hljóma
þar uppi' um helga nótt.
Ó, hvað mun dýrðin himins þýða?
Og hvað mun syngja englaraustin blíða?
Um dýrð Guðs föður, frið á jörð
og föðurást á barna hjörð.

5. Ó, dýrð sé þér í hæstum hæðum,
er hingað komst á jörð;
á meðan lifir líf í æðum,
þig lofar öll þín hjörð:
á meðan tungan má sig hræra,
á meðan hjartað nokkuð kann sig bæra,
hvert andartak, hvert æðarslag
Guðs engla syngi dýrðarlag.

## 88.

**Lag: Jesú, þínar opnu undir.**

DÝRÐ sé Guði' í hæstum hæðum!
Himinn syngur fögrum hljóm.
Mannkyn, hrært í instu æðum,
undir tak með lofsöngs róm!
Alt Guðs speki, miskunn, mátt
mikli, göfgi, prísi hátt.
Dýrð sé Guði' í hæstum hæðum!
Hrósi jörð hans ástargæðum.

2. Ef þú ekki undrast, maður,

ástar Drottins vermist yl
og í auðmýkt gerist glaður,
Guðs svo elsku finnir til,
hversu máttu' hans mildi þá
maklegt þakkar-offur tjá
og með engla lofsöng lýsa
líkn vors Drottins þakka' og prísa?

3. Dýrð, alsherjar Drottinn, þína,
djúpri' í lotning eg tilbið.
Þína elsku' og eymdir mínar
auðmjúkur eg kannast við.
Hvað var eg? þú miskunn mér,
minn Guð, gafst frá-horfnum þér;
eigi syni þyrmdir þínum;
þreif hann mig frá andar pínum.

4. Alt mitt dagfar yfir lýsi,
að eg sé þeim hrærður af
undrum náðar; alt þá prísi
ást, er son þinn heimi gaf!
Sú í hlýðni helgi mig,
hans svo feti' eg dygða stig.
Vegsemd, lof og þakkir þýðar
þér sé, Drottinn, fyr og síðar.

5. Dýrð sé Guði' í hæstum hæðum,
hann gaf soninn föllnum mér!
Mannkyn, hrært í instu æðum,
aldrei gleym því, veitti' hann þér:
almátt, speki' og elsku þá
alt mitt líf víðfrægja má,
unz eg Guði' á himna hæðum
hef upp lof með engla kvæðum.

## 89.

Með sínu lagi.

SYNG Guði dýrð, hans dýrkeypt hjörð,
þeim Drotni', er græddi meinið þitt.
gaf eigin son sinn aumri jörð
og opnaði' himnaríki sitt.

2. Guðs sonur,—orðið eilífð frá,—
sem ungbarn lítið fæddur er
og föðurdýrðar ljóminn lá
í lágri jötu niðri hér.

3. Ó, hvað hann skifti vel oss við,
hann vorri tók við eymd og rýrð,
en gaf oss sekum frelsi, frið,
síns föður náð og himnadýrð.

4. Hann verður þjónn, eg völdin fæ,
hann vinna má, eg hvíldar nýt,
hann sætir kvöl, eg sælu næ,
hann saklaus deyr, eg lífið hlýt.

5. Hann bar vor þungu glæpagjöld
og galt þá skuld, er á oss lá;
hann myrkra lagði' að velli völd
og valdi dauðans hreif oss frá.

6. Nú er því manna bölið bætt,
af birtu skærri sigruð nátt;
nú komist getur Adams ætt
við æðstan Guð í frið og sátt.

7. Nú lengur eigi lokuð er
oss ljóssins heilög paradís,
nú kerúb þeim ei veginn ver,
sem vist þar inni hljóta kýs.

8. Nú dauðinn sig má draga' í hlé,

við dauða næg er fengin bót,
því opin leið að lífsins tré
þeim, líf er girnist, blasir mót.

## 90.

Með sínu lagi.

HIN fegursta rósin er fundin
og fagnaðarsæl komin stundin,
er frelsarinn fæddist á jörðu,
hún fanst meðal þyrnanna hörðu.

2. Upp frá því oss saurgaði syndin
og svívirt var Guðs orðin myndin,
var heimur að hjálpræði snauður
og hver einn í ranglæti dauður.

3. Sem þistill til annars er eigi
en eld í að honum menn fleygi,
svo var og um vondan heim þenna,
hann var ei til neins,—nema' að brenna.

4. Þá skaparinn himinrós hreina
í heiminum spretta lét eina,
vorn gjörspiltan gróður að bæta
og gjöra hans beiskjuna sæta.

5. Nú kirkja Guðs beztum nær blóma
og borið fær ávöxt með sóma;
því frelsarinn henni veitt hefur
þá hjúkrun, er frjóleika gefur.

6. Nú ætti' eigi þakklæti' að þagna,
nú þér bæri, mannkyn, að fagna;
en lítinn þess víða ber vottinn,
í veröld að rósin er sprottin.

7. Þér dramblátra hugskotin hörðu,

þér hörðustu þyrnar á jörðu,
hví yður svo hátt upp þér hreykið,
og hreykin til glötunar reikið?

8. Æ, snúið af hrokaleið háu
og hallist að jötunni lágu;
þá veginn þér ratið hinn rétta,
því rósir í dölunum spretta.

9. Þú réttlætis-röðull hinn blíði,
ert rós mín og heiður og prýði;
þér sála mín sífelt skal þakka,
að sætleik þinn lézt hana smakka.

10. Þú, rós mín, ert ró mínu geði,
þú, rós mín, ert skart mitt og gleði;
þú harmanna beiskju mér bætir,
þú banvænar girndir upp rætir.

11. Þótt heimur mig hamingju sneiði,
þótt harðir mig þyrnarnir meiði,
þótt hjartanu' af hrellingu svíði,
eg held þér, mín rós, — og ei kvíði.

## 91.

Lag: Borinn er sveinn í Betlehem.

Í Betlehem er :,: barn oss fætt :,:;
því fagni gjörvöll Adams ætt.
:,: Hallelúja. :,:

2. Það barn oss fæddi :,: fátæk
mær; :,:
hann er þó dýrðar drottinn skær.
:,: Hallelúja. :,:

3. Hann var í jötu :,: lagður
lágt. :,:

en ríkir þó á himnum hátt.
:,: Hallelúja. :,:

4. Hann vegsömuðu :,: vitringar; :,:
hann tigna himins herskarar.
:,: Hallelúja. :,:

5. Þeir boða frelsi og :,: frið á jörð, :,:
og blessun Drottins barnahjörð.
:,: Hallelúja. :,:

6. Vér undir tökum :,: engla söng, :,:
og nú finst ei oss nóttin löng.
:,: Hallelúja. :,:

7. Vér fögnum komu :,: frelsarans, :,:
Vér erum systkin orðin hans.
:,: Hallelúja. :,:

8. Hvert fátækt hreysi :,: höll nú er, :,:
því Guð er sjálfur gestur hér.
:,: Hallelúja. :,:

9. Í myrkrum ljómar :,: lífsins sól. :,:
Þér, Guð, sé lof fyrir gleðileg jól.
:,: Hallelúja. :,:

92.

Lag: Ofan af himnum hér kom eg.

AF himnum ofan boðskap ber
oss, börnum jarðar, englaher;

vér fögnum þeirri fregn í trú;
af fögnuð hjartans syngjum nú.

2. Í dag er heimi frelsi fætt,
er fær vor mein og harma bætt;
það barnið þekkjum blessað vér,
vor bróðir, Jesús Kristur, er.

3. Og oss til merkis er það sagt:
Í aumum reifum finnum lagt
það barn í jötu', er hefir heim
í hendi sér og ljóssins geim.

4. Því gleðjumst allir, góðir menn,
og göngum þangað allir senn,
þá jólagjöf, Guðs son, að sjá,
er sauða hirðar gleðjast hjá.

5. Æ, velkominn oss vertu þá,
er vorar syndir tókst þig á.
Oss, Jesú, kenn að þakka þér,
að þínir bræður erum vér.

6. Ó, Guð, sem ráð á öllu átt,
hví ertu kominn hér svo lágt,
í tötrum lagður hart á hey,
sem hefðir dýrri bústað ei?

7. Þótt veröld öll sé víð og löng,
sú vaggan er þér samt of þröng
og þín ei verð, þótt væri' hún full
af vegsemd þeirri', er skín sem gull.

8. Svo hefir, Drottinn, þóknast þér
og þá vilt speki kenna mér,
að heimsins auð og alt hans glys
þú eigi virðir meira' en fis.

9. Því bú til vöggu' í brjósti mér,

minn bezti Jesú, handa þér.
Í hjarta mínu hafðu dvöl,
svo haldi' eg þér í gleði' og kvöl.

10. Af hjarta' og tungu heilög dýrð
sé herrans Jesú föður skýrð;
heyr barna þinna bæn og þökk
og brjóstin, Guð, sjá glöð og klökk.

## 93.

Lag: Gæzkuríkasti græðari minn.

SJÁ, morgunstjarnan blikar blíð,
sem boðar náð og frelsi lýð
og sannleiks birtu breiðir.—
Þú blessun heims og harmabót,
þú heilög grein af Jesse rót,
mig huggar, lífgar, leiðir.
Jesú, Jesú,
Líknin manna, lífið sanna,
ljósið bjarta,
þér eg fagna, hnoss míns hjarta.

2. Þú dásöm perla, dýr og skær,
þú djásnið mannkyns, Jesú kær,
þú eilíf alheims gleði,
þú himinlilja' í heiminum,
þitt heilagt evangelíum
er svölun særðu geði.
Herra, herra,
himneskt manna, hósíanna!
hátign þinni
vegsemd, dýrð og lof ei linni

3. Lát helgan kærleikshita þinn
í hjartað mitt sér þrengja inn,

þú kærleikssólin, Kristur.
Þú líknareik og lífsins tré,
það lán mér veit, á þér að sé
eg frjór og fagur kvistur.
Lát mig, lát mig
vermast hjá þér, veit eg á þér
vaxa megi;
limur þinn ei leyf að deyi.

4. Mér gleðiljós frá Guði skín,
ef guðleg náðaraugu þín
í miskunn mig á líta;
þitt heilagt orð, þín árnan góð,
þíns anda gjöf, þitt hold og blóð
mér hrygð úr hjarta slíta.
Tak mig, tak mig
þína' í varma ástararma,
að eg hljóti
hjúkrun þar og hvíldar njóti.

5. Ó, Jesú góði, ég er þinn,
ó, Jesú góði, þú ert minn;
því glaður bölið ber eg;
hjá þér, ó Jesú, vist er vís
og vegsemd mér í paradís;
út þrautum þangað fer eg.
Amen, amen.
Brátt mín vitja virztu' og flytja
veika brúði
þína heim í helgu skrúði.

## 94.

Lag: In dulce júbiló.

SJÁ, himins opnast hlið,

heilagt engla-lið,
fylking sú hin fríða
úr fagnaðarins sal,
fer með boðun blíða
og blessun lýsa skal
:,: yfir eymdadal. :,:

2. Í heimi' er dimt og hljótt;
hjarðmenn sjá um nótt
ljós í lofti glæðast,
það ljós Guðs dýrðar er;
hjörtu þeirra hræðast,
en herrans engill tér:
:,: "Óttist ekki þér." :,:

3. "Með fegins fregn eg kem:
Fæðst í Betlehem
blessað barn það hefur,
er birtir Guð á jörð,
frið og frelsi gefur
og fallna reisir hjörð.
:,: Þökk sé Guði gjörð." :,:

4. Já, þakka, sál mín, þú,
þakka' og lofsyng nú
fæddum friðargjafa,
því frelsari' er hann þinn;
seg þú: "Hann skal hafa
æ hjá mér bústað sinn,
:,: vinur velkominn." :,:

5. Ó, Guðs hinn sanni son,
sigur, líf og von
rís með þér og rætist,
þú réttlætisins sól;

alt mitt angur bætist,
þú ert mitt ljós og skjól.
:,: Ég held glaður jól. :,:

6. Á hæstri hátíð nú
hjartafólgin trú
honum fagni' og hneigi,
af himni' er kominn er;
sál og tunga segi
með sælum englaher:
:,: Dýrð sé, Drottinn, þér." :,:

95.

Lag: Lofið vorn Drottin.

SIGNUD skín réttlætissólin frá Ísraels fjöllum,
sólstafir kærleikans ljóma frá Betlehems völlum.
Blessuð um jól
börnunum Guðs þessi sól
flytur ljós frelsisins öllum.

2. Hví er þá dapurt og dimt í þér, mannlega hjarta?
Dimman og hrygðin í guðsríkis birtunni' ei skarta.
Ei má þín synd,
ei má þín fávizka blind
byrgja þér ljósið Guðs bjarta.

3. Kærleikans ímyndin fegursta, frelsarinn blíður,
faðminn Guðs miskunnar enn sem fyr hjörtunum býður;
hvíld finnur hér

hver sá, er þjakaður er,
huggun sá, hrelling er líður.

4. Kom því, ó maður, og fagnaðu
frelsinu lýða,
flýttu þér öruggur Drottins í armana
blíða.
Heit honum trú,
hjarta þitt gef honum nú,
lát hann ei lengur þín bíða

5. Sver honum hollustu, svík ei
þann ástvin í trygðum,
safna þér fjársjóði, geymdum í himn-
anna bygðum;
lát hjá þér sjást
lifandi trú, von og ást;
gakk fram í Guðs barna dygðum.

## 96.

Með sínu lagi.

GLEÐINNAR hátíð vér höldum í dag,
hér þótt sé dapurlegt víða;
höfum þá gleðinnar hátíðabrag,
hrindum burt sorgum og kvíða.
Gleðin af hæðum oss gefin er,
gleðinnar höfundi fögnum vér.

2. Friðarins hátíð vér höldum í dag,
hér þótt sé margt við að stríða;
stillum í hjörtunum stormanna slag,
styttist til sumarsins blíða.
Friður á jörðu nú fluttur er,
friðarins höfðingja tignum vér.

3. Frelsisins hátíð vér höldum í dag,

hér þótt vér fjötrana berum.
Guðs sonur færir það gjörvalt í lag,
glaðir í trúnni því verum.
Frelsari heimsins oss fæddur er,
frelsisins konungi lútum vér.

4. Ljósanna hátíð vér höldum í dag,
hér þótt sé myrkur vor dagur;
hátíðin boðar oss blíðari hag,
birtir hann aftur svo fagur,
ljósið af hæðum oss ljóma ber,
ljósanna gjafara þökkum vér.

5. Barnanna hátíð vér höldum í dag,
hér þótt vér eldumst og mæðumst.
Annað sinn verðum því ungir í dag,
aftur af nýju vér fæðumst.
Barnanna réttur oss boðinn er,
barnið Guðs himneska prísum vér.

## 97.

Með sínu lagi.

JESÚ, þú ert vort jólaljós.
Um jólin ljómar þín stjarna.
Þér englarnir kveða himneskt hrós,
það hljómar og raust Guðs barna.
Skammdegis myrkrið skyggir svart,
ei skugga sjáum þó tóma.
Þú, ljósið af hæðum, blítt og bjart,
þú ber oss svo fagran ljóma.

2. Jesú, þú ert vort jólatré,
á jörðu plantaður varstu;
þú ljómandi ávöxt lézt í té
og lifandi greinar barstu.

Vetrarins frost þó hér sé hart
og hneppi lífið í dróma,
þú kemur með vorsins skrúð og skart
og skrýðir alt nýjum blóma.

## 98.

Lag: Á meðan sólin skæra skín.

VÉR, ungu börnin aum og smá,
nú óskum, Jesú kær, að fá
í hjartans ást að heilsa þér,
ó, hjálpa' oss að þig finnum vér.

2. Með söng vér komum klökk þér mót,
og kyssum duftið þér við fót.
Ó, blessuð nótt er blessað hnoss
til blessunar var gefið oss.

3. Kom blessað heims í harmadal,
þú himinbarn úr dýrðarsal.
Ó, hversu þungt að þín hér beið
hin þrönga jata, kross og deyð.

4. Gegn spilling heims þú vörn oss veit,
að vér ei brjótum skírnarheit;
til þín, til þín oss langa lát,
og lát oss hafa á sannleik gát.

5. Um æfibraut oss leið og lýs,
að loks í þinni paradís
á unaðsmáli engla vér
um eilífð lofgjörð syngjum þér.

## 3. Nýár. (Nafn Jesú.)

### 99.

Lag: Jesús kallar: Komið til mín.

ÞITT nafn er, Jesú, unun öll,
það aumra stöðvar táraföll,
það auðgar andann snauða,
það gefur sekum von og vægð,
það veitir mæddum frið og hægð,
það lér oss líf í dauða.

2. Þitt nafn er, Jesú, heilagt hnoss,
að himni lykill fyrir oss
og ljós, sem lýsir öllum;
ef trúin hrein það horfir á,
vér höldum rétta stefnu þá
á leið að lífsins höllum.

3. Ó herra, nafnið helga þitt
á hjartað rita virztu mitt;
þar "Jesús" jafnan standi;
en heitið mitt í hjarta þér
af hjartans miskunn þinni ber
um eilífð ævarandi.

### 100.

Lag: Á þig, ó herra, Jesú Krist.

Í Jesú nafni byrja ber
með bæn af hjartans grunni
það alt, er stofna viljum vér,
svo vel það blessast kunni;
því sé ei nafnsins góða gætt,
er göngu vorri' og störfum hætt,
en ef þess gætt er, eflaust þá

mun alt oss hjá
til dýrðar Guði framgang fá.
2. Í Jesú nafni sæld og sorg
oss sífelt ber að mæta;
því Jesú nafn er blessuð borg,
er bölið vill oss græta,
og heims í láni styrkust stoð
að stundað getum Drottins boð.
Það heilagt nafn á hverri tíð
oss hvöt er blíð,
að heyja gott í heimi stríð.
3. Í Jesú nafni dauðans dyr
vér djarfir nálgast megum;
í lambsins blóði laugaðir
til lífs vér heimvon eigum
og munum sælu nægtum ná,
ef nafnið Krists vér trúum á.
Það blessað nafn er bót við neyð
og bitrum deyð,
og oss til himins lýsir leið.

### 4. Þrettándi.

## 101.

Með sínu lagi.

Ó hve dýrðleg er að sjá
alstirnd himinfesting blá,
þar sem ljósin gullnu glitra,
glöðu leika brosi' og titra
:,: og oss benda upp til sín. :,:
2. Nóttin helga hálfnuð var,
huldust nærfelt stjörnurnar;

þá frá himinboga' að bragði
birti' af stjörnu'; um jörðu lagði
:,: ljómann hennar sem af sól. :,:

3. Þegar stjarna' á himni hátt
hauður lýsir miðja' um nátt,
sögðu fornar sagnir víða,
sá mun fæðast meðal lýða,
:,: konunga sem æðstur er. :,:

4. Vitringar úr austurátt
ei því dvöldu', en fóru brátt
þess hins komna kongs að leita,
kongi lotning þeim að veita,
:,: mestur sem að alinn er. :,:

5. Stjarnan skær þeim lýsti leið;
leiðin þangað varð þeim greið,
unz þeir sveininn fundu fríða;
fátæk móðir vafði' hinn blíða
:,: helgri í sælu' að hjarta sér. :,:

6. Stjarna veitt oss einnig er
og ef henni fylgjum vér,
hennar leiðarljósið bjarta
leiða um jarðar húmið svarta
:,: oss mun loks til lausnarans. :,:

7. Villustig sú aldrei á
undrastjarnan leiðir há;
orðið Guðs hún er hið skæra,
oss er Drottinn virtist færa,
:,: svo hún væri' oss leiðarljós. :,:

## 102.

Lag: Upp, skepna hver, og göfga glöð.

HVE fagurt ljómar ljósa her

á loftsins bláa geim!
Hve milt og blítt þau benda mér
:,: í bústað Drottins heim. :,:

2. Hve björt og fögur sú var sól,
er sást um austurgeim
og fegurst skein hin fyrstu jól
:,: við fæðing Guðs í heim. :,:

3. Hve fagurt leiðarljós var það,
sem lýsti vitringum.
Ó, ljóssins faðir, leyf þú að
:,: það lýsi smælingjum. :,:

4. Ó, lát þá stjörnu lýsa mér
um lífsins eyðisand,
og sýna mér, nær fjörið fer,
:,: hið fyrirheitna land. :,:

5. Ó, lát þá stjörnu lýsa mér
um lífsins myrka dal,
og leiða mig, nær lífið þver,
:,: í ljóssins bjarta sal. :,:

6. Eg hefi' ei gull né gersemar,
minn Guð, að færa þér;
en til er dapurt trúar skar,
:,: ó, tak það gilt af mér. :,:

7. Eg get ei meira gefið þér,
ó, Guð minn, fyrirgef;
en aftur gef því meira mér,
:,: því minna sem eg hef. :,:

8. Ó, gef mér lífsins gull í mund,
svo glaðst eg fái hér,
og leið þú mig á lausnarstund
:,: í ljóssins dýrð hjá þér. :,:

## 5. Fastan.

### 103.

Lag: Sólin ljóma sínum skrýdd.

GAKK þú með í grasgarðinn,
gæt að Jesú ströngu þrautum;
leiðarvísir það sé þinn
þröngum lífs á harmabrautum.
Bið í auðmýkt eins og hann,
allra meina græðarann.

2. Gakk þú með til Gabbata,
Guðs son dóm þar varð að líða.
Auðmýkt Jesú íhuga,
er þér heimsins dómar svíða.
Umber hógvær, eins og hann,
aðkast heimsins, spott og bann.

3. Gakk þú með til Golgata,
Guðs son lít þar sjálfan deyja.
Andlát hans þér afmála,
er þú dauðans stríð skalt heyja.
Lær að andast eins og hann,
er í dauða sigur vann.

4. Gakk þú með til grafar hans,
gleymd er nótt, er rennur dagur.
Yfir legstað lausnarans
ljómar morgunroði fagur.
Guð vill aftur, eins og hann,
upp þig vekja dýrðlegan.

### 104.

Með sínu lagi.
("Hversu mig leiyast langar.")

Ó, höfuð dreyra drifið,

er drúpir smáð og pínt,
af höndum þræla þrifið,
og þyrnum sárum krýnt,
ó, heilagt höfuð fríða,
er himnesk lotning ber,
en háðung hlauzt að líða,
mitt hjarta lýtur þér.

2. Þú auglit allra skærast,
í upphæð vegsamað,
þú yndið engla kærast,
hví ertu hrakt og spjað?
Hví ertu þannig þjakað,
að þekkjast mátt ei nú?
Hví svo af böðlum blakað,
að blikna hlýtur þú?

3. Af blygð og harmi hreldur
eg, herra, játa má:
Mín synda sekt því veldur,
hún sárt þig lagðist á.
Sjá, hér eg er, sem hefi,
þig hrakið, pínt og smáð;
þín miskunn mér þó gefi,
að megi' eg öðlast náð.

4. Æ, virztu við mig kannast,
svo vondur sem eg er,
og sauð þinn auman annast,
sem einatt villur fer;
mér virztu særðum svala
í sálar þungri neyð;
æ, virztu við mig tala,
og vísa' á rétta leið.

5. Eg vil þar vera hjá þér,
er veit eg píndan þig,
og eigi fara frá þér;
æ, fyrirlít ei mig;
er dauðans svefn fær sigið
á signað auga þitt,
eg vil þitt höfuð hnigið
við hjartað leggja mitt.

6. Af hjarta þér eg þakka,
að þyngstan kvaladeyð
þú ljúft þér lézt að smakka,
svo leystir mig úr neyð.
Lát, Kristur kærleiksríkur,
ei kulna trú hjá mér,
en loks, er æfi lýkur,
mig lát þú deyja' í þér.

## 105.

Lag: Til þín eg, Drottinn, huga hef.

MÍN sála, hverf frá heimi' og synd,
þinn herra Jesúm sjá;
þá helgu skoða hrygðarmynd,
er hangir krossi á.
Hver mun nú framar mannleg girnd
þig mega tældan fá?
Þín vegna streymir lífsins lind;
æ, lífið höndla þá!

2. Lít, hve hans undir sullu' og sár,
er sekt alls heims hann bar!
Sjá Drottins Jesú dýru tár,
hans dreyra' og benjarnar!
Sjá alt það synda ógnafár,

er ástríkt hjartað skar!
Unz lífsins herra lagðist nár,
svo leið hann píslirnar.

3. Hann húmið grafar helga vann
og hverja' oss bætti þraut.
Því fagna, lífsins frumgróðann
ei felur jarðarskaut.
Þú, eilíft líf og upprisan,
þér einnig dauðinn laut;
af jörðu heim í himnarann
þú hefir greitt mér braut.

4. Því hverf, mín sál, frá heimi' og [synd,
á himnum Jesúm sjá.
Þar máttu líta' hans ljúfu mynd,
er leysti' oss böli frá.
Við hann um eilífð ástir bind,
þú alt með þeim munt fá;
hann er hinn sanna lífsins lind,
sem líf þér veita má.

## 106.

Lag: Heiðrum vér Guð af hug og sál.

AF hjartans rót eg þakka þér
hið þunga stríð til frelsis mér
og dapran krossins dauða þinn;
þú dýrsti' og bezti vinur minn.
Þín heilög elska höndli mig
og haldi mér svo fast við sig,
að eigi ég um eilífð þig.

## 6. Páskar.

### 107.

Lag: Í Jesú nafni upp stá.

SIGURHÁTÍÐ sæl og blíð
ljómar nú og gleði gefur;
Guðs son dauðann sigrað hefur;
nú er blessuð náðartíð.
Nú er fagur dýrðardagur,
Drottins hljómar sigurhrós;
nú vor blómgast náðarhagur,
nú sér trúin eilíft ljós.

2. Ljósið eilíft lýsir nú
dauðans nótt og dimmar grafir.
Drottins miklu náðargjafir,
sál mín, auðmjúk þakka þú;
fagna, Guð þér frelsi gefur
fyrir Drottin Jesúm Krist,
og af náð þér heitið hefur
himnaríkis dýrðarvist.

3. Drottinn Jesú, líf og ljós
oss þín blessuð elska veitir;
öllu stríði loks þú breytir
sæluríkt í sigurhrós.
Mæðu' og neyð þín miskunn sefi,
með oss stríði kraftur þinn.
Sigur þinn oss sigur gefi,
sigurhetjan, Jesú minn!

### 108.

Lag: Sá krossfesti Kristur lifir.

DAUÐINN dó, en lífið lifir,

lífs og friðar sólin skær
ljómar dauðadölum yfir,
dauðinn oss ei grandað fær;
lífið sanna sálum manna
sigurskjöld mót dauða ljær.

2. Kongur lífs á krossi deyddur
krónu lífs mér bjó hjá sér;
dapur nú er dauði neyddur
dýrðarlíf að færa mér;
þótt hann æði, þótt hann hræði,
það ei framar skaðvænt er.

3. Hann, sem reis með dýrð frá [dauða,
duft upp lætur rísa mitt,
leyst úr fornum fjötrum nauða,
fyrir blóðið helga sitt;
hold og andi lífs á landi
lífgjafara sinn fá hitt.

4. Jesú minn, sem dauðann deyddir,
deyja gef mér eins og þú.
Og við þig, í ljós er leiddir
lífið, æ að halda trú;
lát mig þreyja þér og deyja,
þrá mín heit og bæn er sú.

## 109.

Lag: Gæzkuríkasti græðari minn.

Í austri rís upp ársól skær,
í austri sólin, Jesús kær,
úr steinþró djúpri stígur;
sú páskasólin björt og blíð,
er birtist öllum kristnum lýð,
og aldrei aftur hnígur.

Jesú, Jesú,
sigur er unninn, sól upp runnin
sannrar gleði
vina þinna grátnu geði.

2. Það ógnarbjarg er oltið frá,
er yfir gröf vors Drottins lá,
og gröfin opnuð aftur,
Ó, hver tók líka burt það bjarg,
á brjósti mér er lá sem farg?
Það gjörði, Guð, þin kraftur.
Jesú, Jesú,
bjargið trausta, hetjan hrausta,
hjartakæra,
bjarg, sem enginn burt skal færa.

3. Í Drottins gröf var blítt og bjart,
þar birtust englar ljóss með skart
og ásýnd undurfríða.
Í hverri gröf, sem grafin er,
í gegnum myrkrið trúin sér
Guðs engla birtast blíða.
Jesú, Jesú,
virzt þeim láta', er liðna gráta
legstað yfir,
engla boða', að látinn lifir.

4. Þig boða englar upprisinn,
það endurtekur heimurinn,
það ótal tungur tala,
það ómar glaðvær uppheimshjörð,
það undir tekur þögul jörð,
er rís úr dauðans dvala.
Jesú, Jesú,
þú, minn Drottinn, þá barst vottinn

þess, eg megi
rísa upp á efsta degi.

5. Sem upp rís sól um árdags stund
og upp rís blóm á þíðri grund
úr köldum klakahjúpi,
svo upp rís síðar eilíft ljós
og óvisnanleg himinrós
úr dauðans myrkradjúpi.
Jesú, Jesú,
þótt eg deyi', eg óttast eigi,
æðri kraftur
leiðir mig til lífsins aftur.

## 110.

Lag: Kom, skapari', heilagi andi.

SJÁ, gröfin hefir látið laust
til lífsins aftur herfang sitt,
og grátur snýst í gleðiraust.
Ó, Guð, eg prísa nafnið þitt.

2. Nú yfir lífs og liðnum mér
skal ljóma sæl og eilíf von.
Þú vekur mig, þess vís eg er,
fyrst vaktir upp af gröf þinn son.

3. Á hann í trúnni horfi eg,
og himneskt ljós í myrkri skín;
með honum geng eg grafar veg
sem götu lífsins heim til þín.

## 111.

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

HERRANN lifir, höldum páska
hrósum sigri lausnarans.

Synd og dauða, sorg og háska
sigrum vér í mætti hans.
Höldum lífsins hátíð nú,
höndlum nýja von og trú;
upp með Jesú önd vor rísi
endurfædd og náð hans lýsi.

## 112.

Lag: Lofið vorn Drottin.

LÁTIÐ nú, Adams börn, hátíðleg
sigurljóð hljóma,
hefjið með fögnuði þakkar og lof-
gjörðar róma;
herrann vor hár,
hann, sem bar mein vor og sár,
heljar sleit harðsnúinn dróma.

2. Látið ei hugfallast, dauðinn
er fallinn og deyddur,
dauðlegum vegur til heimkynna
lífsins er greiddur;
lýsir nú lýð
lífssólin inndæl og blíð;
hræðist ei: háskinn er eyddur.

3. Hvað er nú gröfin? Hún
hvílurúm orðin er værast
herbergi þreyttum og ofsóktum
griðaskjól kærast,
svefnhýsi sætt,
sem fær lífs andvökur bætt
þeim, er af sorgunum særast.

4. Hvað er nú dauðinn? Hann
grandað ei Krists vinum getur;

Guðs börnum vorboði kær eftir
hörmunga vetur
orðinn hann er;
öllum, sem veröldin lér,
huggunum huggar hann betur.

5. Hver fær nú efað, að hann,
sem á krossi leið dauða,
hirðir er trúfastur aumstaddra, frá-
viltra sauða,
og að hann er
ástvin, sem leiðir og ver
lýð sinn á landinu nauða?

6. Hver fær nú efað, að heilaga
fórnin á krossi
hafi því valdið, að slöktur er reið-
innar blossi,
og að oss er,
öllum, ef trú höldum vér,
braut greidd að blessunar hnossi?

7. Hver fær nú efað, að holdið,
sem moldarskaut vefur,
hverfur til fulls ei, en að eins um
tíma þar sefur,
og að sú ást
eilíf, sem lýðum ei brást,
lífið nýtt líka því gefur?

8. Upprisuljós þitt lát, upprisni
Drottinn, oss lýsa,
eilífs til samfundar með þér oss
leiðina vísa.
Deyð sálna deyð,

deyð vora spillingar-neyð;
upp lát oss andlega rísa.

## 113.

Með sínu lagi.

SJÁ, ljós er þar yfir, sem lagður var
nár!
Hann lifir, hann lifir, nú ræzt hafa spár.
Hann rís upp í ljóma, nú lífið er veitt
og lausn úr þeim dróma, sem mannkyn
bar þreytt.
Hvert innsigli' er brotið og bjargi velt
frá,
á burt eru verðir; því hræðsla greip þá.
Og heljar hlið skjálfa. Hallelúja.

2. Ei myrkrið vann ljósið, þótt langt
væri stríð;
nei, ljóssins varð hrósið um eilífa tíð.
Burt hrelling er flúin, því himneska von
oss hefir veitt trúin á Guðs einkason.
"Hví leitið þér, konur, svo harmþrungn-
ar hér?
Ei hann, sem nú lifir, hjá framliðn-
um er;
upp herrann er risinn." Hallelúja.

3. Til himneskrar gleði nú gröfin
er hlið,
ei grafar á beði er seinasta mið.
Þér höfuð, sem niður af hrygð voruð
sveigð,
upp hefjið nú yður og verið ei beygð.

Kom, hjörð, til þíns hirðis og leiða þig
lát,
hann lifir, hann lifir og enn hefir gát
frá himnum á sínum. Hallelúja.

4. Ei haggast hans kirkja, þótt hret
geysi stríð,
hans heilög orð styrkja gegn óvinum lýð.
Enn víða' eru' á ferðum hans vottar um
heim,
þótt viðjum og sverðum sé otað mót
þeim,
og vitna' um hinn heilaga', er hreif oss
úr neyð,
um hann, sem á krossinum deyddi
vorn deyð,
um hertoga lífsins. Hallelúja.

5. Þér kristnir, hví grátið og kvíðið
þér enn?
Af kveinstöfum látið, þér friðkeyptu
menn.
Það jörðin brátt tekur, af jörðu sem er;
en Jesús það vekur til dýrðar hjá sér.
Hann vitjar síns akurs á uppskeru tíð
og illgresið skilur frá hveitinu' um síð.
Hann hveiti sitt þekkir. Hallelúja.

## 114.

Með sínu lagi.

PLANTA á leiðið lilju bjarta,
lífsins mark á dauðans ból.
Gegnum myrkrið grafar svarta
glóa blómin hýr mót sól.

Hvert eitt blað, á gröf er grær,
Guðs er engils vængur skær.
Dauðaklukkur dimt ei hringja,
dýrðarljóð Guðs englar syngja.

2. Sólin huldist svörtum mökkva,
sonar Guðs er blóð út rann.
Gröfin ljómar, dimman dökkva
dreifist burt, er upprís hann.
Syngi Drotni sérhver þjóð
sigur-páska morgunljóð.
Jesús uppreis, Jesús lifir,
Jesús ríkir himnum yfir.

3. Sjálfur Drottinn lífsins lifir,
losnuð eru dauðans bönd;
grafir hafinn er hann yfir,
oss hans blessi líknarhönd.
Vöknum nú af værðarblund
vors um fagra morgunstund;
og með sigursálmi glöðum
svífi' upp önd á vængjum hröðum.

### 7. Hvítasunna.

#### 115.

Lag: Vakna, Síons verðir kalla.

SKÍN á himni skír og fagur
hinn skæri hvítasunnudagur,
er dregur nafn af Drottins sól,
dagurinn, er Drottins andi
af dýrðarinnar björtu landi
hér steig á hels og harma ból.
Því syngjum sigurlag

og signum þennan dag.
Drottins andi,
oss heill veit þá, að himnum á
vér hátíð slíka megum sjá.

2. Fyrstu vinir sjálfs Guðs sonar
þeir sátu milli ótta' og vonar
á þessum Drottins degi fyr;
allir þó með einum huga,
sem engin þrenging kunni buga,
og andans biðu öruggir.
Með einum huga enn
svo allir séu menn,
einn sé andi
og ein sé lund
um alla stund
og ein sé von um gleðifund.

3. Skyndilega heyrðist hvinur,
sem hvast er veður yfir dynur,
og fylti húsið fljótt hjá þeim.
Drottins anda kærleiks kraftur
svo kemur mörgum sinnum aftur,
hann fyllir enn upp allan heim.
Ef þungt hann andar á,
þá ekkert standast má;
en hann andar
þó aftur blítt
og hægt og hlýtt,
og hjartað gjörir milt og þýtt.

4. Liðu tákn í lofti skæru,
sem leiftur-tungur bjartar væru,
og settust yfir sérhvern þar.
Tungur enn með leiftri ljóma

og lofstír Drottins þöglar róma,
hans veldi' og dýrð til vegsemdar.
Hvert lauf í lágum dal,
hvert ljós í himinsal
eru tungur,
er tala hátt,
þótt hafi lágt,
um herrans speki, gæzku' og mátt.

5. Allir fyltust anda hreinum.
Guðs andi kendi lærisveinum
að tala ókunn tungumál.
Fyll þú brjóst vor, friðarandi,
og fjötrum svift og sterku bandi
af vorri tungu, vorri sál.
Ó, lát þinn lausnarkraft
vort leysa tunguhaft.
Allar tungur
með allan mátt
á allan hátt
þér alla vegsemd rómi hátt.

## 116.

Lag: Sjáðu, sjáðu, faðirinn fríði.

KOM þú, himins ástgjöf æðsta,
andinn helgi, til vor nú;
kom þú, sálna huggun hæsta,
hjörtun sjálfur uppfyll þú;
kom, og eldinn kærleiks sanna
köldum glæð í brjóstum manna;
kom, og allan kristinn lýð
krýn þú blessun ár og síð.

## 8. Trínitatis.

### 117.

Lag: Kom, skapari', heilagi andi.

ÞIG, Guð, vor Drottinn, göfgum vér,
ó Guð, vér þakkir segjum þér;
þig, faðir æðstur, herra hár,
öll heimsbygð lofar síð og ár.

2. Þín englasveit og helgra her
á himni lofgjörð syngur þér;
þinn kærleik tigna kerúbar·
þinn kraft og vísdóm serafar.

3. Þú heilagur ert, herra Guð,
þú heilagur ert, mikli Guð,
þú heilagur ert, góði Guð,
þú, Guð alsherjar, Drottinn Guð,

4. Um jörð og himin hátign þín
í hæstri dýrð um aldir skín.
Við hástól lambsins himnum á
þér helgir spámenn lofgjörð tjá.

5. Þar prísa þig og postular,
þig píslarvottar göfga þar;
en heilög kristnin hér á jörð
þér hljóma lætur þakkargjörð.

6. Þig, faðir hár á himnastól,
og hirðinn góða, Krist, vort skjól,
og andann helga, huggarann,
þitt heiðrar fólk, sem bezt það kann.

7. Þig, góði Jesú, göfgum vér,
þér Guðs son, Kristur, dýrðin ber;

þú vorri klæddist veikri mynd,
að vora kvittað fengir synd.

8. Þú hefir, Jesú, dauðann deytt,
þíns dýrðarhimins erfð oss veitt;
þú situr Guðs við hægri hlið
og heldur ríki sannleiks við.

9. Þú kemur, Drottinn dýr, um síð
og dæmir fallinn Adams lýð.
Ó, herra, veit, að héðan vér
í himna dýrð þá fylgjum þér.

10. Ó Drottinn, þjóna þína styð,
er þú með blóði keyptir grið;
veit umsjá þínum eignarlýð,
og arf þinn blessa fyr og síð.

11. Úr synda snörum sérhvern hríf,
í sálum glæð þú trúarlíf;
í myrkrum heims oss lýs og leið
og líkn oss veit í allri neyð.

12. Þú mikli Guð, oss miskunn sýn,
vér mænum, Guð, í von til þín;
ó, þyrm oss, Guð, og glötun ver,
ó Guð, vort traust er alt á þér.

## 118.

Lag: Heiður sé Guði himnum á.

GUD faðir, lof og þökk sé þér,
er þín vilt börn oss kalla,
og veikum styrk og vörn oss lér
og viðreisn þeim, er falla.
Þín vizka, náð og vald er hátt;
þú vægir oss, þótt hrópleg þrátt
oss hendi hrösun alla.

2. Ó Jesú, Guðs hinn góði son,
er gjörðist bróðir manna,
svo eilífs lífs oss veittist von,
þú virtist dauðann kanna.
Ó, dýrð sé þér, vort ljós og líf,
ó, lof sé þér, vor stoð og hlíf,
þú líknarlindin sanna.

3. Guð helgur andi, huggun trú,
þín hjálp við oss ei linni;
þér stað í vorum brjóstum bú,
og blessun krýn oss þinni;
vor hjörtu ljós og frið lát fá,
og freisting þegar ræðst oss á,
gef sérhver sigur vinni.

## 119.

Lag: Hve gott og fagurt og inndælt er.

Ó, lofa skaparann, lífsins hjörð,
ó, lofið, prísið hann alla vega,
þér allir lýðir á allri jörð,
því alt hann gjörir svo dásamlega.
Já, lofið Drottin,
já, lofið Drottin,
:,: já, lofið Drottin, :,:
ó, lofið Guð!

2. Ó, lofa frelsarann, lífsins her;
hann líf og sigur og frelsi gefur;
hans náð og miskunnin eilíf er,
og aldrei trygðin hans brugðist hefur.
Já, lofið Drottin,
já, lofið Drottin,

:,: já, lofið Drottin, :,:
ó, lofið Guð !

3. Ó, lofa huggarann, lífsins fjöld;
hann lífið styrkir og dauðann þíðir;
hann leiðir kynslóðir öld af öld,
og alla leiðir í dýrð um síðir.
Já, lofið Drottin,
já, lofið Drottin,
:,: já, lofið Drottin, :,:
ó, lofið Guð !

## 9. Aðrir helgidagar.

### 120.

Lag: Vakna, Síons verðir kalla.

VAKNIÐ, raust af himni hljómar,
sem hátíðlega' og kröftugt ómar
um grafir degi dómsins á.
Rísið upp úr gleymdum gröfum,
og gangið út úr djúpum höfum;
nú dynja lúðurhljóðin há:
Ó, vakna, dáin drótt,
nú dimm er liðin nótt;
lítið daginn,
hinn efsta dag,
hinn æðsta dag,
er gjörir út um yðar hag.

2. Jörð og haf og himnar skjálfa,
er heyra Drottins engla sjálfa
um heiminn kalla hvellum róm.
Djúpið opnast, fjöllin falla
og felmtur mikill grípur alla,

er safnast fyrir Drottins dóm.
Nú byrjar guðdóms gjörð,
hann greinir sína hjörð
eins og hirðir.
Þeir góðu þá
sitt frelsi fá,
en hinum verður vísað frá.

3. Jesú, mig þín koma kætir,
þú kross og raunir mínar bætir,
hjá þér eg frið og frelsi hlýt.
Þyrnum breytir þú í pálma
og þungum ekka' í gleðisálma;
því glaður mína gröf eg lít.
Og þá eg þreyttur er,
eg þangað halla mér;
bráðum aftur
mig vekur þú;
í von og trú
eg því vil glaður þreyja nú.

## 121.

Lag: Óvinnanleg borg er vor Guð.

Ó, nær mun linna harmahríð
og hvenær birta tekur?
Nær kemur afturelding fríð.
er oss af svefni vekur?
Þá vonzka' og viðurstygð
með vélar, fals og lygð
á helgum stendur stað,
þá stundin líður að,
er heljar myrkrin hrekur.

## 122.

Lag: Einn herra eg bezt ætti.

Ó, hversu gott að ganga
í Guðs vors húsið er
og lífs í stríði stranga
þar styrks að leita sér!
Í herrans helgidómi
er hverjum svölun veitt,
er blíðum barnarómi
þar biður Guð sinn heitt.

2. En—æ, hve oft og tíðum
hins æðsta húsið nú
er lítils virt hjá lýðum
og lítið hirt um trú!
Hve margir stunda minna,
að mæta Jesú þar,
en syndar iðn að sinna
í solli veraldar.

3. Þótt komið hafi Kristur
og kirkjur gnæfi hátt,
hann einatt er sem mistur
og eigi fundinn þrátt.
Ó, syndug sál, þín gættu
og sannleik mundu þann:
Þú ert í ógnar hættu,
ef ei þú finnur hann.

4. Æ, flýt þér hann að finna,
sem fyrst hans leita ber;
og lát ei bænum linna,
svo leitin hepnist þér.
Í Drottins húsið haltu,
en hug frá veröld snú;

þá fljótt hann finna skaltu,
ef fund hans girnist þú.

5. Ó, Kristur, kom og sýndu
með kærleiks ásýnd þig
þeim öllum, er þér týndu,
svo aftur betri sig;
og veit þeim styrk að vera
í verki Guðs með þér,
og okið blessað bera,
sem bezt og hollast er.

## 123.

Lag: Þann signaða dag vér sjáum enn.

VÉR týnum oft Jesú í heimi hér
í hávaða lífs og glaumi;
vér leitum hans þar, sem ei hann er,
og oftlega' í leiðslu' og draumi.
Vér hyggjum hann fjær, þá hann er nær,
og hrekjumst af tímans straumi.

2. Vér leitum að Jesú, en hann er hér
í húsi síns föður kæra.
Í helgidóm bent oss hingað er
með hljóminum klukkna skæra.
Hér lýsir hans orð, hans blessað borð
hér blessun oss hefir að færa.

3. Guðs musteri' er öll veröld víð,
þar víst er hann meðal sinna.
Á hverjum helzt stað og hverri tíð
má herrann vorn Jesúm finna.
Í því, honum ber, hann enn þá er
oss elsku síns föður að vinna.

4. Vort hjarta sé musteri heilagt það,

er herrann í bústað eigi;
og hvenær, sem leitum honum að,
þar hann ætíð finna megi,
svo vizkan og náð þar verði sáð,
er vaxi með hverjum degi.

5. Eg síðar til Jerúsalem kem
á sólbjörtu gleðilandi;
í musteri dýrðar Drottins nem
hans dásemdir óteljandi.
Hve gleðst þá mín lund við Guðs míns [fund;
sú gleðin er ævarandi.

## 124.

Lag: Sælir eru þeim sjálfur Guð.

Ó, þú, sem breyttir vatni' í vín
í veizlusalnum forðum,
ó, góði Jesú, minstu mín,
og mæl þú líknarorðum.
Breyt synd í dygð, breyt táli' í trygð,
gjör trú úr vantrú minni;
breyt reiði' í líkn, breyt sekt í sýkn;
gjör sælu' úr refsing þinni.

2. Þinn tími kominn enn ei er
mér unað fullan veita;
en þangað til eg þreyi hér,
að þú vilt kjörum breyta.
Hið góða vín vill gæzkan þín
oft geyma seinni dögum.
Þá sólin skín, er skúrin dvín;
svo skiftir vorum högum.

3. Og þótt vér göngum þrautaspor,
vilt þú oss gleðjast láta.

í mæðunni þú mintist vor,
það megum vér æ játa.
Já, góðan hag og glaðan dag
oss gafstu mörgu sinni,
og kættir lund við kæran fund
með kærri návist þinni.

4. Ef vér þig höfum, Guð, sem gest,
þá ganga vel oss hlýtur;
þú getur sérhvern bætt vorn brest,
og bætt upp hvað sem þrýtur.
Ó, gist hjá mér í heimi hér,
í hrygð og gleði minni.
Kom hingað fyrst, svo geti' eg gist
í gleði síðar þinni.

5. Já, fyrst í þessum þrautadal
oss þvílík gleði veitist,
hve mun þá Guðs í gleðisal,
til góðs er sérhvað breytist?
Fyrst miskunn þín lét vatn í vín
á vorri jörðu breytast,
ó, hvort mun þá ei himnum á
úr hörmung gleði veitast?

## 125

Lag: Hvar mundi vera hjartað mitt.

ÞÁ mæðubára minsta rís,
ó, maður, hvert eitt sinn,
þér sýnist bráður bani vís
sem bátur sökkvi þinn;
þú kveinar hreldur: "Hvar ert þú,
sem hafsins öldur bazt?

Þú, Drottinn, ert mér dulinn nú,
þú, Drottinn, sefur fast."

2. Nei, þótt hann sýnist sofa fast
og sinna þér ei hót,
lát ei að heldur hugfallast,
en hraustur statt á mót.
Ei sefur hann, þótt sofum vér,
hann sigrast ei af blund.
Ó, gætum vér í veröld hér
svo vakað eina stund.

3. Sjá, Drottinn vakir, vakir æ,
og veit hvað bjarga má;
hann stillir vind og stöðvar sæ
og stýrir skerjum frá.
Ó, vak þú sjálfur stutta stund,
hvort stríð er eða greið,
því stórt er pund, en stirð er mund,
og stutt er æfiskeið.

4. Ó, lát þér ant að vaka vel,
en vert ei hræddur þó,
er hörð að dynja háska-él
á heimsins ólgusjó.
Þótt völt sé skeið og vant um ráð
og veik þín lífsins bönd,
er stýrið gott, því stór er náð
og sterk er Drottins hönd.

5. Þótt boðar skelli' á bátinn þinn,
ei byljótt hræðstu él,
því stendur sá við stjórnvölinn,
er stýrir öllu vel;
og yfir kalda dauðans dröfn
frá djúpi hörmungar

hann leiðir þig í lífsins höfn
á landi sælunnar.

## 126.

Lag: Hver, sem að reisir hæga bygð.

ÞÓTT æði stormar heims um haf,
ei háski granda má oss;
þeir bát vorn fært ei fá í kaf,
því frelsarinn er hjá oss;
ei öldur skaða' oss hót, því hann,
er haf og vinda stöðva kann,
þeim bægir burtu frá oss.

2. Þótt vantrú sjái' af hættum her
og hugsi: "Drottinn sefur",
og hræðslan kveini: "Hjálpin þver,
oss herrann yfirgefur" —
eg þreyja vil í traustri trú
og treysta, Jesú minn, að þú
mig örmum verndar vefur.

3. Mitt hjarta, Jesú, vantrú ver,
þótt volki heims ei linni;
en þá mig hels að boða ber,
þú bjarga sálu minni;
þá virztu hasta' á vind og sjó,
og veittu mér í sælli ró
að lenda' í lífshöfn þinni.

## 127.

Lag: Sólin upprunnin er.

ÞÓTT holdið liggi lágt
og læst í dróma,
fær andinn hafist hátt

í himinljóma;
hann fylgir Drotni fjalls á tindinn
þar fögur útsjón er, [bjarta;
Guðs undra djúp þar sér
hið hreina hjarta.

2. Hér niðri' á láði' er lágt
og ljósi fjærri;
í trúarhæð er hátt
og himni nærrri;
þar er svo hátt, að hverfur alt hið
hið lága færist fjær, [smáa;
en færist aftur nær
hið helga' og háa.

3. Hér niðri' í djúpum dal
er dimman svarta,
þar uppi' í svölum sal
skín sólin bjarta.
Þar er svo bjart, að birtast huldir
í gegnum grafar húm, [vegir;
í gegnum tíma' og rúm
þá augað eygir.

4. Ó, hér er hark og stríð
og hávær glaumur;
en þar er þögn svo blíð
sem þögull draumur.
Þar er svo hljótt, að hverfur tímans
Guðs hjarta heyrist slá, [niður;
í hjarta mínu þá
býr fró og friður.

5. Þar tignartindi á
eg tjald vil gera;

þar góðum Guði hjá
er gott að vera,
og ummyndast og búast björtum
og öðlast eilíft skart [klæðum,
með andlit sólarbjart
á helgum hæðum.

6. Eg bjart lít blika ský
á banadegi;
raust heyri eg þar í:
"Minn elskulegi!"
Þá skyggir dauðans ský á lífsins
mig enginn ótti slær. [blóma,
mér einn er Jesús nær
í ljóssins ljóma.

## 128.

Lag: Guð miskunni nú öllum oss.

ÞÚ, heimsins ljós, fékst myrkva af
er mína læging barstu; [mér,
en fagra birtu' eg fékk af þér,
er forklárаður varstu.
Hve undur dýrðlegt andlit þitt
í ummyndun var þinni;
þess bjarmi skíni' í brjóstið mitt
og breyti mínu sinni;
þar ljómi ljós þitt inni.

## 129.

Lag: Hver, sem ljúfan Guð lætur ráða.

UM sólarupprás æfi þinnar
þig árla kallar Drottinn þinn.
Í árdögg skærri skírnarinnar

hann skírir þig sem verkmann sinn
og vígir þig til víngarðsmanns,
að vinna fyrir ríkið hans.

2. Um þriðju stundu þig hann
er þinnar æsku sólin skín; [kveður,
þá fegurð lífs og glys þig gleður.
ei gleym, að Drottinn sér til þín;
í víngarð sinn hann vísar þér,
að vinna meðan dagur er.

3. Um sjöttu stund til starfs hann
kveður,
er starf hans ríkis gengur tregt;
þú hefir mikið höndum meður,
en heyr þú, eitt er nauðsynlegt:
Að höndla dýrðar hnossið það,
sem hefir Guð þér ákvarðað.

4. Um hinztu stundu hann þig
er hnigin senn er æfisól; [kallar,
þá degi lífs að húmi hallar,
er hálfgjört enn það, Guð þér fól.
Þar til hin hinzta dagsbrún deyr,
í Drottins nafni vinn þú meir.

5. Og þegar síðast kvöldið kemur,
hann kallar sérhvern verkmann heim;
hann geldur engum öðrum fremur,
en öllum saman gefur þeim.
Ó, met sem gjöf, en gjald ei það,
sem Guðs son hefir verðskuldað.

## 130.

**Lag: Einn herra eg bezt ætti.**

Ó, Guð, þín kenning góða,

þitt guðlegt orða-sáð,
um heim til hjálpar þjóða
í hjartna jarðveg stráð,
þeim kjörum sífelt sætir,
er sorgleg telja má;
það hindrun margri mætir,
svo má ei vexti ná.

2. Á götu' og grýtta jörðu
hið góða fellur sáð,
og þrátt hjá þyrnum hörðu,
svo þroska fær ei náð;
en sjaldnast fundið fær það
þá frjóu jörð, sem er
þess eðlis að þar grær það
og ávöxt mikinn ber.

3. Þú, herrann hæsti, þekkir
hver hjartans jörð mín er,
og veizt hvað henni hnekkir,
svo hún ei ávöxt ber.
Ó, hættu' ei, Guð, að hirða
um harðan akur minn;
en þess hann virztu virða,
að verða reitur þinn.

4. Frá þyrna þröng og steinum
virst þú að hreinsa mig,
og girð mig náðar greinum
frá guðleysingja stig.
Minn hjartans akur yrktu,
gef andans dögg og sól;
til gróðurs góðs hann styrktu,
ó, Guð, hans vertu skjól.

## 131.

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

MINN Jesú, kunnugt það er þér,
hve þrátt sá óvin ræðst að mér,
er vill í glötun svíkja sál,
frá sannleiks orðum beygja mál,
frá verki réttu hefta hönd
og hneppa líf í synda bönd.

2. Eg veikur eigi verjast kann,
í voða brátt mig leiðir hann,
ef þú ei, herra hár, mig ver
og honum skipar burt frá mér;
af hljúgum hug því bið eg nú,
að burt frá mér hann rekir þú.

3. Lát hann ei geta hindrað mig,
ó herra, frá að lofa þig;
lát aldrei því fá hamlað hann,
að heyrt eg geti sannleikann;
lát hann ei blekkja sálar sjón
og svik hans önd ei búa tjón.

4. Ef fellir hann mig, fljótt mig reis;
ef fjötrar hann mig, brátt mig leys;
ef villir hann mig, blitt mér bend;
ef blindar hann mig, ljós mér send;
ef skelfir hann mig, legg mér lið;
ef lokkar hann mig, þú mig styð.

5. Ó, lækna, Jesú, líf mitt alt,
ó, lát það vermast, sem er kalt,
það vökva fá, sem visna fer,
það verða hreint, sem flekkað er,

það auðgast, sem er aumt og snautt,
það endurlifna, sem er dautt.

## 132.

Lag: Kross á negldur meðal manna.

HVERT það ríki þver og þrotnar,
þar sem stríð og sundrung drotnar,
mótstríðandi sjálfu sér.
Minsta ríki' er mannsins hjarta,
mjög þó skift í ótal parta
það af vondum öndum er.

2. Virztu illa anda' að reka,
eigingirni' og vantrú freka,
Jesú, burt úr brjósti mér.
Illum girndum burtu bægðu,
brotum eyð, en sekum vægðu,
lát mig ætíð þjóna þér.

3. Hreinsa þú svo, herra góði,
hjarta mitt með þínu blóði;
herra, gjör það hreint og prýtt,
svo eg láti' ei illa anda
illra girnda', er sálu granda,
aftur fá þar athvarf nýtt.

4. Bú þar aftur bústað handa
blíðum föður náðaranda,
hreinum anda helgunar.
Mér í brjóst sá andi andi
ódáins af fögru landi
lífsins blæ og blessunar.

5. Andi trúar, andi vonar,
andi Jesú Krists, Guðs sonar,
andi dýrrar elsku hans.

Lát þú sannleiks ljósið bjarta
lýsa skært í mínu hjarta,
fyll það krafti kærleikans.

### 133.

Lag: Heimili vort og húsin með.

Á eyðimörk hér erum vér,
svo oft er mannhjálp fjarri,
en þó ei neitt að óttast er,
ef oss er Drottinn nærrri.
Þótt lítil séu föng að fá
og fólkið margt og brauðin smá,
hann getur gjört þau stærri.

2. Á eyðimörku mettaði' hann
á "manna" lýðinn forðum;
á eyðimörku mannfjöldann,
er minna var á borðum;
á eyðimörku einnig hann
á enn þá minna seðja kann
með að eins nokkrum orðum.

3. Úr litlu mikið gjört þú gazt,
ó, Guð, með veldi háu;
lát mína blessun margfaldast
og mikið gjör úr smáu.
Það lítið gott, sem í mér er,
gjör einnig stórt og bú í mér
þér höll úr hreysi lágu.

4. En fyrst þinn guðdómsmáttur [má
í mikið litlu breyta,
hvort munt þú eigi mikið þá
af miklu kunna' að veita?
Af miklum sjóði miskunnar

gef miklar gjafir blessunar;
um líkn ei nokkrum neita.

## 134.

Lag: Lofið Guð í hans helgidóm.

NÚ gleðifregn oss flutt er ný
úr fögrum himinsölum:
Sá Guð, er hæst býr hæðum í,
vill hér í jarðar dölum
oss búa hjá; um blessun þá
og birta leyndardóma
Guðs engla raddir róma

2. Ein kyrlát mær þá kveðju fær,
sem kætir bæði' og hræðir:
Að hennar sonur hjartakær,
er hún á síðar fæðir,
það veldi fær, er voldugt nær
um víðar heimsins álfur
og hærra' en himinn sjálfur.

3. Við mey þá engill mæla réð:
"Þú munt af himnum þiggja
Guðs anda gjöf; þig mun þar með
Guðs máttur yfirskyggja.
Og lífs þíns von, þinn ljúfa son,
þú lausnara skalt kalla:
hann endurleysir alla."

4. Lát kraft þinn, Jesú, Jesú minn,
mig jafnan yfirskyggja,
og lát þitt orð og anda þinn
mér æ í hjarta byggja,
svo ég sé þinn og þú sért minn

og þinn æ minn sé vilji
og okkur ekkert skilji.

5. Þitt himnaríki' í hjarta mér
þinn helgur andi búi,
svo hafni' eg því, sem holdlegt er,
en hjarta til þín snúi,
unz englum jafn þitt Jesú-nafn
fæ ég með þeim að róma
hjá þér í lífsins ljóma.

### 135.

Lag: Á hendur fel þú honum.

SJÁ, vinur vor hinn blíði
hinn vonda nálgast stað,
þótt háðung hans þar bíði
og högg og dreyra-bað;
hann þangað fer, þótt fái
þar fyrir séða neyð,
og búinn sér þar sjái
hinn sára krossins deyð.

2. Í skraut er hann ei skrýddur,
en skæra ber þó mynd;
því hann er hógværð prýddur
og hreinn af allri synd.
Í hendur féndum fer hann
og fús sig lætur þjá;
þó veit hann, að sá er hann,
sem alla sigra má.

3. Hér sá er, sem vill reisa
þá sál, er beygir kross;
hér sá er, sem vill leysa
úr synda fjötrum oss;

hér sá, er sig vill gefa
til sálarheilla þjóð;
hér sá, er neyð vill sefa
og sitt ei spara blóð.

4. Ó, Jesú, gef eg geti
það gjört til heiðurs þér,
að með þeim flokk eg feti,
sem fagurt lof þér tér.
Á vegum vina þinna
æ vera lát þú mig,
en forðast hópinn hinna,
sem hæða' og svíkja þig.

5. Mig vantar vegleg klæði,
á veg að breiða þinn;
því vil eg kærleikskvæði
þér kvaka, Jesú minn.
Eg hefi' ei, herra, pálma,
en heiður vil þér tjá,
því syng eg mína sálma;
ó, son Guðs, heyrðu þá.

6. Til lofs þér, lífið sanna,
er líf oss gefur þitt,
mitt hjarta "hósíanna"
nú hljóma lætur sitt.
Kom, blessað lamb Guðs blíða,
er býðst að hjálpa mér
og fyrir lýð þinn líða;
ó, lof og dýrð sé þér.

## 136.

Lag: Minst þú, ó maður, á minn deyð.

Ó, kom í hátign, herra minn!

Þér heilsar allur lýðurinn
og klæðum lagða braut þér býr,
með blessun þér á móti snýr.

2. Ó, kom í hátign, herra minn!
því harla nærri' er dauði þinn:
þín sigurför mót satan hér,
mót synd og dauða hafin er.

3. Ó, kom í hátign, herra minn!
Af hæðum fórnargjörning þinn
með undrun skoðar englaher;
sjá, augun himnesk fylgja þér.

4. Ó, kom í hátign, herra minn!
Til hörmunganna ríð nú inn.
Þinn faðir hæst á himnum er,
hans hjarta bíður eftir þér.

5. Ó, kom í hátign, herra minn!
Með hátign gakk í dauða þinn.
Á krossi mildu höfði hneig,
á himni' og jörð svo ríkið eig.

## 137.

Lag: Jesú, þín minning mjög sæt er.

ÞÁ kvöldmálstími kominn var,
með Kristi' að borði settust þar
hans sveinar tólf. Hann talar þá,
en tregi' og sorg á hjarta lá:

2. "Af hjarta þráði' eg þessa tíð,
að þetta eti' eg fyr en líð,
með yður lamb, því ekki má
þess oftar neyta jörðu á."

3. Hann kaleik tók og talar þá:

"Hann takið, börn, og dreypið á,
því vínberslög í heimi hér
ei héðan frá að munni' eg ber.

4. Og ekki fyr en föður hjá
eg fæ hann nýjan himnum á."
Þá tók hann brauð og braut í verð,
og blessar það með þakkargerð.

5. Og segir: "Takið hold mitt hér,
sem heiminn fyrir gefið er,
og etið það í minning mín,
um mannsins sonar fórn og pín."

6. Og kvöldverð eftir endaðan
þeim aftur kaleik réttir hann
og mælir: "Bræður, bergið þér,
mitt blóð hér yður gefið er.

7. Til syndalausnar yður er
það öllum gefið, svo að þér
svo minnist oft á Drottins deyð,
sem drekkið það um lífsins skeið."

8. Þitt hold og blóðið, herra minn,
mig hefir lífgað, þrælinn þinn.
Gef, Jesú, líf mitt þroskist því,
að þín ég verði skepna ný.

## 138.

Lag: Hver veit, hvað fjarri er æfi endi.

VER hjá oss, Drottinn, degi hallar,"
— svo daprir báðu vinir tveir. —
Það mínar sefar sorgir allar,
að sviftir hörmum urðu þeir.
Oss, bezti Jesú, bænheyr þú.
Vér biðjum þig hins sama nú.

2. Ver hjá oss æ með anda þínum,
svo aftan sérhvern biðji hver,
á beði fyr en sofnar sínum,
í sannri trú og von á þér
um kvittan synda, líkn og lið
og ljós og styrk með hjartans frið.

3. Ver hjá oss, brjóstin hrygg að kæta,
ver hjá oss, vorn að létta kross,
og þá, er sárt oss þrautir græta,
í þolinmæði styrk þú oss.
Á beiskra písla þungann þinn
og þína hógværð oss þú minn.

4. Ver hjá oss, þá er hallar degi
og húma lífs af kvöldi fer;
ver hjá oss, að vér hræðumst eigi,
er heiminn við oss skilja ber;
með skærum trúar skildi þá
mót seklfing dauðans vörn oss ljá.

5. Ver hjá oss þá og hrelda gleð oss,
að hinzta verði stríðið létt;
með brauði' af lífsins borði seð oss
og bikar náðar að oss rétt;
er sýn oss þrýtur, sýn oss inn
í sælan dýrðarhimin þinn.

## 139.

Lag: Hásæti fyrir herrans er.

Ó, Jesús Kristur, kom til mín
með kraft og frið og gleði,
og lífsins orðin lát mig þín
með ljúfu heyra geði.
Þau lífsins orð um lífsins hnoss

og lífsins sigur bjarta.
Með þinni gröf er opnað oss
Guðs eilíft föðurhjarta.

2. Ó, fylg þú, Jesú mildi, mér
á mínum æfivegi,
á rétta leið svo rati' eg hér,
en ranga villist eigi,
og hugga mína hreldu lund
með helgri ræðu þinni,
og gef mér loks þinn gleðifund,
þá göngu' er lokið minni.

3. Ó, Drottinn Jesú, dvel hjá mér
um daga lífsins alla,
en einkum þegar aftna fer
og æfi tekur halla;
og þegar svífur svefn á brá
og sjónum loka' eg mínum,
þær aftur lát þú opnast þá
í unaðssölum þínum.

## 140.

Lag: Þann signaða dag vér sjáum enn.

AÐ luktum dyrum kom lausnarinn,
til lærisveinanna forðum,
og bar þeim miskunnar-boðskap sinn
með blessuðum friðarorðum.
Um læstar dyr kemst lausnarinn enn,
Guðs lög þótt standi' í skorðum.

2. Í Eden forðum var lokuð leið
að lífsins blómguðum viði;
kerúb með sveipanda sverð þar beið
með sínu himneska liði.

Um læstar dyr kom þar lausnarinn
og lauk upp því gullna hliði.

3. Og enn er þó harðlæst hjarta [manns,
og harðlega móti stríðir,
og guðdómsraust eigi gegnir hans,
er gjörvöll náttúran hlýðir.
Um læstar dyr kemur lausnarinn
og líkur þó upp um síðir.

4. Og eitt sinn grafar hið dimma djúp
yfir dauðum oss lykjast tekur.
Þar blundum vér allir í bleikum hjúp,
unz básúnan löndin skekur.
Um læstar dyr kemur lausnarinn
og lúður hans alla vekur.

5. Og lífsins bók er þó lokuð enn
og leiðinni' að dýrðarhöllum.
Þar stöndum vér daprir, dæmdir menn,
og Drottins miskunn áköllum.
Ó, lausnari vor, kom um læstar dyr
og ljúk upp fyrir oss öllum.

## 141.

Með sínu lagi.

SVO blítt er hirðis hjartað æ,
míns herra Jesú kæra,
að hirðisnafn ef heyrt eg fæ,
mig hættir böl að særa.
Hvað, sál mín, skorta þig mun þá,
hvað þér að hættu verða má,
er hann þú átt að hirði,
er heims bar synda byrði?

2. Í náðar hagann helga sinn

minn hirðir trúr mig kallar;
þar blessuð líknar blóm eg finn,
er bæta þarfir allar;
og verði mér af hörmum heitt,
svo hjartað gjörast taki þreytt,
þar lífs mun lindin tæra
mér ljúfa svölun færa.

3. Ef vegum hans eg villist frá
á veginn syndar breiða,
af hjarta ant er honum þá,
úr háska mig að leiða.
Ó, fallna sál, það hugfast haf;
þinn hirðir góði miskunn af
að þér sig blíður beygir,
svo barn Guðs verða megir.

4. Þótt reiki' eg hér um dauðans
á dimmum þrauta vegi, [dal
mig engin hætta skelfa skal,
minn skjöldur bregzt mér eigi.
Mig veikan styður stafur þinn,
þinn sterki sproti, Jesú minn,
hinn vonda varginn hræðir,
mig ver og frelsi gæðir.

5. Þú náðargæða býr mér borð,
þótt byrstir féndur æði,
og lætur blessað lífsins orð
mér lýsa' og svala bæði;
þú líknar balsam lætur þitt
á lemstrað höfuð drjúpa mitt;
mér gleðibikar ber þú,
mér blíða huggun lér þú.

6. Þótt einatt mörg í heimi hér

mér hrygðar ógni bylgja,
þín gæzkan æ og miskunn mér
um mína daga fylgja.
Á himni síðan ætluð er
mér eilíf sæluvist hjá þér;
þar sést þinn sauður týndur
með sigurdjásni krýndur.

## 142.

Lag: Heiður sé Guði himnum á

ÞIG, hirðinn sálna himnum á,
þig, höfund trúarinnar,
vér biðjum: ver oss breyskum hjá
með blessun náðar þinnar.
svo rækja lát oss rétta trú,
í ríki þínu' að krýnir þú
oss djásni dýrðarinnar.

2. Ver, Jesú kær, vort leiðarljós
á lífsins vegi sanna;
ver unaðsemd vor æ og hrós,
þú einkahjálpin manna;
lát hjörtu vor þér halda fast
og héðan sífelt upplyftast
til helgra himinranna.

3. Gef trú vor æ sé bygð sem ber
á blíðum orðum þínum;
gef ávöxt hennar allir vér
til æfiloka sýnum;
en þá vér rösum rétt oss hönd,
og reis upp hverja fallna önd,
svo arfleifð ei vér týnum.

4. Hinn brákaða' eigi brjót þú reyr,

en blysið trúar nærðu;
hvert andvarp þess, er iðrast, heyr,
ver unun hjarta særðu
Lát enga sál þér falla frá,
en freisting nær sem ræðst oss á,
oss styrk að standast færðu.

5. Þú, hirðir trúr, sem tendrað
oss trúarneistann hefur, [hjá,
svo glæð þú hann, að glaðir þá,
er grafar húm oss vefur,
vér kveðjum harma heims og kíf,
en hreppum eilíft dýrðar líf,
er guðleg náð þín gefur.

## 143.

Lag: Lofið vorn Drottin.

HVÍ ertu, sál mín, í jarðneskar hugs-
anir hnigin?
Horf eftir Jesú, sem nú er til dýrðar
up stiginn.
Upp, upp, mín önd,
upp í Guðs himnesku lönd,
heims bak við skuggaleg skýin.

2. Horfum ei niður á hégóma ver-
aldarinnar,
hjörtun ei festum í tálsnörum spill-
ingarinnar.
Upp, upp, mín önd,
upp í Guðs dýrðlegu lönd,
heimkynni hátignarinnar.

3. Horfum ei niður til hverfulla
jarðneskra gæða,

hvarvetna ríkir þar ánauð og þreng-
ing og mæða.
Upp, upp, mín önd,
upp í Guðs fagnaðarlönd,
unaðinn himnanna hæða.

4. Horfum ei niður í harmanna
þröngbýlu dali,
hér þess ei leitum, er þorstanum anda
vors svali.
Upp, upp, mín önd,
upp í Guðs friðsælu lönd,
ljóssins og sælunnar sali.

5. Horfum ei niður í helmyrkrið
grafar hið svarta,
huggun þar finnur ei dapurt og ang-
urvært hjarta.
Upp, upp, mín önd,
upp í Guðs sólfögru lönd,
lifenda ljósheiminn bjarta.

## 144.

Með sínu lagi.

MÍN huggun og von
ert hafinn, Guðs son,
föður hægri til handar.
Frelsið er unnið,
fórnarblóð runnið.
Lofi alt þig, hvað andar.

2. Á himni' er mín von,
þú hæsti Guðs son,,
föður blessunar biður
börnunum hræddum;

bræðrunum mæddum
svölun sendir þú niður.

3. Mín huggun og von,
Guðs himneski son,
vér þín væntum í skýjum.
Löng er oss biðin,
leið oss í friðinn,
upp ljúk, á vér nú knýjum.

## 145.

Lag: Einn herra eg bezt ætti.

ÞÁ dimmar hríðir dynja
og dauðlegt titrar hold,
og hvarma skúrir hrynja
svo hratt og títt á mold,
þá andar lífs af landi
svo létt um votar brár
Guðs unaðsblíður andi,
svo aumra þerri tár.

2. Þá hér er dimt í heimi
og hvergi' er ljós að sjá,
og alt er auðn í geimi
og enga líkn að fá,
þá ljóss í geisla líður
frá ljóssins dýrðarstól
Guðs andi', er ber svo blíður
oss birtu' af náðarsól.

3. Og þegar dags í drunga
oss dug og krafta þver,
og hans af hita' og þunga
er hnígum þreyttir vér,
í léttum blæ þá líður

svo ljúfur, hreinn og skær
Guðs andi unaðsblíður
og endurnæring ljær.

4. Þótt líf vér mættum láta
í líking frelsarans,
ef vér hann viljum játa
og vitna' um sannleik hans,
vér öðlumst lífið aftur,
nær úti' er stundarraun,
Guðs anda elsku kraftur,
oss eilíf gefur laun.

5. Ein hátíð herrans blíða
nú hringd er bráðum inn;
nú þarf ei kvarta' og kvíða,
því kemur huggarinn.
Mig hugga, helgur andi,
ó, hjálpa', að mér sé vís
ný hátíð lífs á landi
í ljóssins paradís.

## 146.

Lag: Heims um ból.

VERÐI ljós, verði hér ljós!
heim er skóp, herrann kvað;
brauzt þá úr myrkranna geigvænum geim
gullfagra ljósið, sem skín yfir heim.
:,: Aftur þó dimmaði að. :,:

2. Verði ljós, verði hér ljós!
aftur bauð einnig hann.
Elskaði' hann heiminn í áþján er svaf,
eingetinn son sinn því mönnunum gaf.
:,: Ljómandi ljós þá upp rann. :,:

3. Verði ljós, verði hér ljós!
heyrðist hjá hverri þjóð.
Mennirnir elskuðu myrkrið heims svart
meir þó en ljósið Guðs skínandi bjart.
:,: Verk þeirra voru' eigi góð. :,:

4. Verði ljós, vizkunnar ljós
breiðist um alla jörð;
eyði það villunnar ánauð og lygð,
efli það vísdóm og sannleik og trygð;
:,: lýsi það lausnarans hjörð. :,:

5. Verði ljós, vermandi ljós
breiðist um alla bygð;
þíði það kuldann og klakann úr sál,
kveiki þar elskunnar logandi bál,
:,: efli það drengskap og dygð. :,:

6. Verði ljós, vermandi ljós
hjarta í hvers eins manns.
Eyði það kvíða, en efli þar frið,
unun og gleði minn lausnara við.
:,: lýsi mér lífsorðið hans. :,:

## 147.

Lag: Guði lof skal önd mín inna.

NÚ ljómar dýrðardagur,
hin dimma nótt er liðin hjá,
og friðarbogi fagur
Guðs föðurhimni blikar á.
Um dauðans dimmar álfur
nú dýrðleg birta skín;
Guðs sonur, Jesús sjálfur,
er sól og unun mín.
Nú leynist enginn lengur

á lausnara síns fund,
en frjáls og glaður gengur
til Guðs á helgri stund.

2. Til Jesú Krists míns kæra
eg kem um nótt og bjartan dag;
hans orð er ljúft að læra,
mig langar hans í samfélag.
Eg feginn enn vil fræðast,
minn frelsari' ástargjarn,
hve eg má endurfæðast
og aftur verða barn:
Sem barn með bljúgu sinni,
sem barn í hreinni trú,
sem barn, er blessun finni,
er börnum heitir þú.

3. Það líður vindblær léttur
um loft og haf og dal og sveit;
en hvaðan hann upp sprettur
og hvert hann fer, það enginn veit
Svo er Guðs andi hulinn,
er í býr hjarta manns;
hans vegur víst er dulinn,
þó verkar kraftur hans.
Sá guðdómsandinn glæði
minn guðdóms myndar vott,
og í mér endurfæði
alt inndælt, satt og gott.

## 148.

**Lag: Þú, Guð, ert mikill.**

HVAÐ stoðar þig alt heimsins góz og
gæði,

og gull og silfur, skart og dýrðleg klæði,
er ber þú utan á þitt dauðlegt hold?
Hvar liggur það, þá líkaminn er dauður
og langt frá öllu prjáli hvílir snauður
í myrkri mold?

2. Hvað sakar þig, þótt sértu tötrum klæddur,
og sért þú af þeim smáu molum fæddur,
er hrjóta' af borði' hins ríka' og mikla manns?
Þú ert þó Guðs barn alt eins og hinn ríki,
og eins þú lifa kant svo Guði líki,
og hnoss fá hans.

3. Veizt þú þá ei, að endurgjaldið kemur,
og eigi sleppur þá hinn ríki fremur,
ef Guðs að boðum gjörði háð og spott?
Veizt þú þá ei, að umbun hinir finna,
og iðgjöld hlýtur sérhver verka sinna,
er gjörði gott?

4. Veizt þú þá ei, að dómsins lúður dynur,
þá djásnið fölnar, veldisstóllinn hrynur
og gullkálfurinn hjaðnar eins og hjóm?
Veizt þú þá ei, að ekkert gildi hefur
öll auðlegð heims og neina bót ei gefur
við Drottins dóm?

5. Ver hugrór því, þótt ei þú safnir auði,
er óhapp svift þig getur, slys og dauði,
og einhvern tíma víst þú missa mátt.

Því safna heldur, sem þér endist betur,
og sem ei nokkur frá þér tekið getur,
en æ þú átt.

6. Vor auðlegð sé, að eiga himnaríki,
vor upphefð breytni sú, er Guði líki,
vort yndi' að feta' í fótspor lausnarans,
vor dýrðarskrúði dreyrinn Jesú mæti,
vor dýrðlegasti fögnuður og kæti
sé himinn hans.

## 149.

Lag: Af instu rót mín önd og sál sig gleður.

FYRST boðar Guð sitt blessað náðar-
orðið,
svo býður hann sitt ríka kærleiksborðið
og sendir einkason sinn til að kalla
til sinnar kvöldmáltíðar alla — alla.

2. En fyrsti' og annar afsökunar
biðja,
og eins fer líka boðsmanninum þriðja;
og það er kunngjört herra hefðarríkum,
að heimsins börn ei sinni boðskap slíkum.

3. Þá spyr hann að, hvort veikir
ekki vilji,
hvort volaðir og blindir ekki skilji;
þá býður hann þeim bjargarlausu' og
snauðu,
þeim breysku, særðu, föllnu, týndu' og
dauðu.

4. Hvert orð er sterkast? Orðið
hans, er kallar;
sjá, einnig dauðir ganga lífs til hallar;

þeir koma' í hópum heimurinn sem
smáir,
en herrann segir: "Þeir eru' enn of
fáir."

5. Hann býður enn þá: "Farið,
laðið, leiðið,
og leitið, kallið, biðjið, þrýstið, neyðið,
mitt kærleiks djúp á himins víðar hallir,
í húsi mínu rúmast allir, — allir."

6. Fyrst kallar Guð, og bregðist þú
því boði,
þá biður Guð, og þó að hvorugt stoði,
þá þrýstir Guð, og það er síðsta orðið,
ef því er neitað, hræðstu sálar-morðið!

7. Ó, Drottinn, þú, sem býður, biður,
neyðir,
eg blindur er, en sonur þinn mig leiðir
frá synd og hættum gegnum dauðans
dalinn,
í dýrðar þinnar fagra gleðisalinn.

## 150.

Lag: Í dag eitt blessað barnið er.

ÞÓTT týnist einn úr herrans hjörð,
það heimur lítils metur;
en hirðir sá, er heldur vörð,
þó hans eins saknað getur;
hann eigi vill sig vanti neinn,
en vísan hafa hvern og einn
í tölu sauða sinna.
Hinn góða hirði Guðs á jörð

er gleymir engu' af sinni hjörð,
hið týnda fýsir finna.

2. Hann leitar mín í dauðans dal
og dauðann yfirvinnur;
þar sorg og neyð og synd mig fal,
um síðir hann mig finnur.
Hann hefur mig á herðar sér
og heim í flokkinn sauða ber
með ljúfu' og glöðu geði.
"Ó, samgleðjist mér," segir hann,
"minn sauðinn týnda' eg aftur fann";
þá hljómar himnesk gleði.

3. Sá peningur eg einnig er,
sem er í sorpi falinn;
þó konungs mynd og merki' eg ber,
og með hans sjóði' er talinn.
En fyrst í sorpi ligg eg lágt
og líka gildi hér svo smátt,
mér lítið lýðir sinna.
En Guðs son eigi gleymir mér,
er Guðs, hans föður, ímynd ber;
hann vill mig feginn finna.

4. Hann kveikir ljós og leitar mín
með lífsins orði björtu;
og loks á mig þess ljómi skín
í lágu fylgsni' og svörtu.
Hve feginn þá hann finnur mig,
hann fagnar þá og gleður sig
með Drottins englum öllum.
Þeir sínum Drotni samfagna,
er séð eg fæ minn lausnara
í Drottins dýrðar höllum.

## 151.

Lag: Hver sem að reisir hæga bygð.

Ó, Jesú, blessuð líknarlind,
er leiðst á krossi dauða,
að bættir aumra bræðra synd
og bölið viltra sauða,
gef þú mér ástaranda þinn,
að aumki' eg sérhvern bróður minn,
er þjáist þyngslum nauða.

2. Ó, gef í hjartað miskunn mér,
að miskunnar eg njóti,
og illum dómum varir ver,
að vægan dóm eg hljóti,
Ó, lát mig forðast hefnd og háð
og heift og flærð, að þína náð
eg af mér eigi brjóti.

3. Ó, veit mér styrk þeim hjálpar-
er hjálpar þarf, að rétta, [hönd,
og mýkja þreyttum þrauta bönd
og þjáðum kross að létta.
Þú, Jesú, eilíf ást, mér kenn,
að elska' af hjarta Guð og menn.
Æ, gef mér, Guðs son, þetta.

## 152.

Lag: Til hæða lyft þér, hugur minn.

HVE dýrt var tákn það, Drottinn minn,
á djúp er lagði sveinninn þinn
og mergð svo mikla veiddi;
en dýrastur var dráttur sá,
er djúpi sjálfan þreif hann frá,

og hann á land þar leiddi,
er lífið faðminn breiddi.

2. Hve margar sálir safnast þar,
er sorgar öldur geigvænar
á dauðans djúpi rísa;
til þín, ó Guð, þær hrópa hátt,
í hættu staddar dag og nátt
og biðja veg sér vísa;
þær vita þinn sjá lýsa.

3. Þú býður þjóni þínum enn,
að þreytast ei að veiða menn
og þá til lands að leiða.
Hann sjálfur hlaðinn syndum er,
en samt, til þess að hlýðnast þér,
hann net sitt nú vill greiða,
í nafni Krists að veiða.

4. Með hendi þinni hafið snert,
gjör himneskt vald þitt opinbert,
svo mikinn feng vér fáum.
Úr eymdadjúpi oss þú hríf,
við ógnadjúpi þú oss hlíf,
gef lífs vér landi náum
og líknardjúp þitt sjáum.

## 153.

Lag: Þú, Guð, ert mikill.

LEGG þú á djúpið, eftir Drottins orði
og æðrastu' ei, því nægja mun þinn forði,
þótt ómaksför þú farir marga stund;
ef trú og dáð og dugur þig ei svíkur,
er Drottinn lífs þíns enn þá nógu ríkur
og mild hans mund.

2. Legg þú á djúpið, þegar Kristur
kallar,
og kveð án tafar holdsins girndir allar,
og feta beint í fótspor lausnarans,
og lát ei kross né kvalir ykkur skilja,
en kepstu við að stunda Guðs þíns vilja
með hlýðni hans.

3. Legg þú á djúpið, þú, sem enn ert
ungur,
og æðrast ei, þótt straumur lífs sé
þungur,
en set þér snemma háleitt mark og mið;
haf Guðs orð fyrir leiðarstein í stafni
og stýrðu síðan beint í Jesú nafni
á himins hlið.

4. Legg þú á djúpið, þú, sem þreytt-
ur lendir
úr þunga róðri heimsins,—Jesús bendir,
ó, haf nú Drottin hjá þér innan borðs;
þú fer þá góða för í síðsta sinni,
því sálarforða skaltu byrgja inni
Guðs eilífs orðs.

5. Legg þú á djúpið, ó, þú sál mín
auma,
en eftir skildu hégómlega drauma,
þeir sviku þig, og sjá, þinn afli brást.
Á djúpið út, það kvöldar, Jesús kallar,
því kvitta vill nú syndir þínar allar
Guðs eilíf ást.

## 154.

Lag: Ó, minn Guð, eg illa breytti.

GÓÐAN ávöxt Guði berum;
gróðursettir hans af náð
þessa heims í akri erum,
æðra lífs þó til var sáð.
Góðan jarðveg gaf oss Drottinn,
góð svo jurt hér yrði sprottin.

2. Lífdögg hann oss sendi sína:
Sinnar skírnar vatnið tært;
ljósið sitt hann lét oss skína;
lífsins orða blysið skært;
náðargeisla himins hlýja
hann oss jafnan sendi nýja.

3. Samt vér engan ávöxt berum,
er til dýrðar Guði sé;
vor og haust vér ávalt erum
ófrjósöm og visin tré,
hæfileg í eldinn einan;
annað virðist brátt um seinan.

4. Lítum eftir lífsins kvisti,
lífs er dýrstan ávöxt bar,
jólatrénu Jesú Kristi,
jafnan er í blómgun var;
alla vega hann var hrjáður,
hann bar ávöxt þó sem áður.

5. Góðan ávöxt Guði berum,
góðan ávöxt sjálfum oss;
eigi lengur visnir verum,
vöxum upp við Jesú kross.
Lát oss þar við lífstréð rétta,
lífsins faðir, ávalt spretta.

## 155.

Með sínu lagi.

JESÚS grætur, heimur hlær,
hismið auma síkátt lifir;
syndaþrællinn séð ei fær
sverð, er höfði vofir yfir;
sál hans viðjum vefjast lætur;
veröld hlær, en Jesús grætur.

2. Jesús grætur; hjartað hans
hrellir mankyns bölið sára;
sálarglötun syndugs manns
séð fær gæzkan ei án tára.
Vitnið, dagar, vottið, nætur,
veröld sekri: Jesús grætur.

3. Jesús grætur, orð hans er:
"Ánauð þig, minn lýður, reyrir;
ó, að vissuð aumir þér,
yðar hvað til friðar heyrir!"
Munið synir manna' og dætur:
Meini' af yðar Jesús grætur.

4. Jesús grætur; grátið þér,
Guð er þrátt með brotum styggið;
glötun búin yður er,
ef í synd þér fallnir liggið.
Heimur, á þér hafðu gætur,
heimur, sjáðu: Jesús grætur.

## 156.

Lag: Guðs son kallar: Komið til mín.

AF helgum augum hrynja tár,
í helgri sál er tregi sár

og hrygð í helgu geði.
Hví grætur sá, er gefur fró?
Hví grætur mannkyns líf og ró?
Hví grætur himna gleði?

2. Hvort grætur Drottinn af því
hann eygir höfuðskeljastað [að
og sér þann kaleik kvala,
sem honum byrlar heiftug þjóð,
er hatri láta vill hans blóð
og öfund sinni svala?

3. Nei, tár af því ei hrundu hans,
því hugrökk sál var frelsarans
og föður fús að hlýða;
hann beiskju dauðans bitra fann,
en bikar tæma vildi þann
í botn til lausnar lýða.

4. En af því grét hann, að hann sá,
að ávalt deyð hans margir smá
og sína synd ei játa.
Það særði blessað hjartað hans,
hve hryggileg er blindni manns,
er vill ei læknast láta.

5. Æ, gæt þín, maður, grát í dag
þitt grátlegt ásigkomulag
og djúpu synda sárin.
Ef heitt þú iðrast, seka sál,
þér sýna sloknað reiðibál
þíns Drottins dýru tárin.

6. Æ, grát nú, blinduð sál, um síð,
í syndum alt of langa tíð
þú lágst og lékst í næði.

Æ, lát þú tárin lausnarans,
og lát þú blíða grátraust hans
þitt sefa syndugt æði.

7. Æ, lít hans tár; þau lýsa því,
að lendi hver sá glötun í,
er ei af löstum lætur.
Æ, lít hans tár; þar ljómar náð
og líkn á mót þér, sála þjáð,
ef sárt af synd þú grætur.

8 Ó, lof sé þér, vor herra hár,
er hrynja lézt þín blessuð tár,
að bæta bölið þunga;
sú heilög dögg er hjörtum fró
og hreldum sálum veitir ró,
og engin tjáð fær tunga.

## 157.

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

Í Guðs hús forðum gengu tveir;
sinn Guð að biðja fóru þeir.
Um laun bað annar, sagðist sýkn,
hinn sekur kvaðst, og bað um líkn.
Í herrans geng eg hús sem þeir,
en hvorum þeirra' eg líkist meir?

2 Sem Faríseí' eg einatt er,
og oft eg sjálfur hrósa mér,
og þó ei neitt eg hrósvert hef;
ó, herra Guð minn, fyrirgef,
og gef mér hreinna hugarfar,
sem hins, er stóð þar álengdar.

3. Eg þori varla' að horfa hátt
til himins upp, en þú sér lágt.

Í skæru ljósi' ei skynja' eg þig,
í skugganum þó sér þú mig.
Eg veit, þú telur tárin mín,
þótt telja' ei kunni' eg ástverk þín.

4. Þá hryggur eg á brjóst mér ber,
eg ber á náðardyr hjá þér;
eg bið, að opnist brjóstið mitt;
eg bið, að opnist ríki þitt;
eg bið, mín synd sé burtu máð,
en brjóst mitt fyllist þinni náð.

## 158.

Lag: Af djúpri hrygð.

Ó, Jesú, brunnur blessunar,
þú blessuð alheims gleði,
af hverju sært þitt hjarta var
og hrygð í þínu geði?
Hver var sú eymd, er andvarp heitt
fekk upp frá brjósti þínu leitt?
Þú sálir sást í veði.

2. Þú sást, að Guðs mynd gjör- [spilt er
af grimmu valdi synda
hjá öllum oss í heimi hér
og hugskot myrkur blinda;
þú sást, að treg er tungan manns,
að tigna dásemd skaparans,
og hana hlekkir binda.

3. En jafnan vitjar þú um þá,
er þjást og mæðast hljóta,
að líknar þinnar lindum frá
þeim lækning megi fljóta;
hvert andvarp heitt frá hjarta þér

að hjarta Guðs æ þrengir sér;
þess hjörtun hreldu njóta.

4. Ó, herra, seg þitt "hefata"
við hjarta, munn og eyra,
að vér þig megum vegsama;
og viljum orð þín heyra.
Þitt bróðurhjartað öllum oss
lát opið, þá er mæðir kross
og böndin böls oss reyra.

5. Þá tungan síðast missir mátt
og megn í andláts pínu,
lát andvörp hljúg til himins hátt
frá hjarta stíga mínu,
og ber þau fyrir föður þinn,
en faðma sjálfur anda minn
að helgu hjarta þínu.

## 159.

Lag: Upp hef eg augun mín.

LÁT opnast augu mín,
minn ástvin himnum á,
svo ástarundur þín
mér auðnist skýrt að sjá:
Hið fríða foldarskaut,
hinn fagra stjarnaher
á loftsins ljómabraut
og ljóssins dýrð hjá þér.

2. Lát opnast eyru mín,
minn ástarfaðir kær,
svo eilíf orðin þín
eg ávalt heyri skær;
þíns lögmáls hvellan hljóm,

þín heilög boð, ei ströng,
þíns guðspjalls ástaróm
og engla helgan söng.

3. Lát opnast munninn minn,
svo mál hans, Drottinn kær,
þitt vald og vísdóm þinn
æ votti, nær og fjær.
Veit mér að mikla þig,
á meðan æðar slá;
já, lengur lát þú mig
þig lofa himnum á.

4. Lát opnat harðlæst hús
míns hjarta, Drottinn minn,
svo hýsi' eg hjartans fús
þar helgan anda þinn.
Lát friðmál frelsarans,
þar föstum bústað ná,
og orð og anda hans
mér ætíð búa hjá.

5. Lát opnast himins hlið
þá héðan burt eg fer;
mitt andlát vertu við
og veit mér frið hjá þér.
Þá augun ekkert sjá
og eyrun heyra' ei meir
og tungan mæla' ei má,
þá mitt þú andvarp heyr.

## 160.

Lag: Jesú Krist, þig kalla' eg á.

HVAR lífs um veg þú farinn fer,
þú finnur ávalt marga,

er eigi megna sjálfum sér
úr sinni neyð að bjarga.
Þótt fram hjá gangi fjöldi manns,
þú fram hjá skalt ei ganga;
lát þig langa,
að mýkja meinin hans,
er mæðu líður stranga.

2. Hvar sem þú einhvern auman sér,
hann aðstoð máttu' ei svifta.
Hvort sem hann vin eða óvin er,
það engu lát þig skifta.
Þið eruð báðir börnin hans,
er báða skapað hefur
vernd og vefur,
og limir lausnarans,
er líf hann báðum gefur.

3. Þú getur sífelt alveg eins
í ólán ratað líka;
þér getur orðið margt til meins,
að miskunn þurfir slíka.
Vilt þú þá ei, að aðrir menn
því úr að bæta reyni
mæðu meini?
Þeir fara fram hjá enn, —
þó flýr ei burt sá eini.

4. Sá eini', er hvergi fram hjá fer,
er frelsarinn vor blíði;
hvert mein hann veit, hvert sár hann
er svellur lífs í stríði. [sér,
Hann sjálfur bindur sárin öll
og særðum heimför greiðir,
eymdum eyðir,

og loks í himnahöll
til herbergis oss leiðir.

### 161.

Lag: Minst þú, ó maður, á minn deyð.

Á meðan engin mætir neyð,
á meðan slétt er æfileið,
vér göngum þrátt með létta lund
og leitum ei á Jesú fund.

2. En þegar kemur hregg og hríð,
og hrelling þjakar, neyð og stríð,
í dauðans angist daprir þá
vér Drottin Jesúm köllum á.

3. Hann harmakvein vor heyrir vel
og hastar á hið dimma él
og sveipar skýjum sólu frá;
öll sorg og kvíði dvínar þá.

4. En gjafarinn oss gleymist þrátt,
þótt gæzku reynum hans og mátt;
af gjöfum Drottins gleðjumst vér,
en gleymum, að oss þakka ber.

5. Vér hrífumst út í heimsins glaum
af hörðum freistinganna straum;
og fyr en vér því vitum af
þá við oss tekur dauðans haf.

6. Sjá, æfin hefir enga bið;
þó enn er tími' að snúa við,
að flytja þakkir þeim, sem gaf,
ei það má gleymast héðan af.

7. Því jafnvel skynlaus skepnan sér,

hve skaparanum þakka ber;
um himingeiminn, lög og láð
hún lofar Drottins miklu náð.

8. Ó, stöndum eigi eftir þá,
en aftur snúum þökk að tjá,
og látum hljóma lífs með hjörð
hans lof og dýrð með þakkargjörð.

## 162.

Með sínu lagi.

GUÐS son mælti: "Grát þú eigi",
gæzkuríkur, er hann sá
ekkju, sem hans varð á vegi,
vafin sorgum Nain hjá.
Þegar hrygðin hjartað sker,
huggun orð þau veita mér.

2. Ef eg stríð við örbirgð heyi,
eða skortur hrellir mig,
Guðs son mælir: "Grát þú eigi,
Guði víst er ant um þig;
hann, sem fæðir fugla smá,
fyrir þér mun einnig sjá.

3. Ef eg sjúkleik þjáður þreyi,
þungt ef styn eg dag og nátt,
Guðs son mælir: "Grát þú eigi,
græða vil eg sár þín brátt.
Gegnum neyð þér ætlað er
inn að ganga' í dýrð hjá mér."

4. Ef mér þrátt á æfidegi
óvild sýnir heimurinn,
Guðs son mælir: "Grát þú eigi,
gæt þess, eg er vinur þinn;

heims eg líka hatur bar,
hugrór þó og glaður var."

5. Ef á mínum æfidegi
ástvinum eg sviftur er,
Guðs son mælir: "Grát þú eigi,"
geymdir eru þeir hjá mér;
aftur gefa þér skal þá,
þar sem hel ei granda má."

6. Ef á hinztum æfidegi
ógnir dauðans hrella mig,
Guðs son mælir: "Grát þú eigi,
glötun frá eg leysti þig;
Guðs barn, lát þig gleðja það,
Guði hjá eg bjó þér stað.

### 163.

Lag: Sjáðu, sjáðu, faðirinn fríði.

JESÚ, blessuð líknarlindin,
lífsuppspretta, stoð og hlíf,
oss, er banvæn særði syndin,
sendur til að veita líf!
Ó, hve margir enn þig styggja,
ei þitt himnaríki þiggja,
Mammons yndi meta sitt
meira' en dýrðarbrúðkaup þitt!

2. Ó, hjá þínu brúðkaupsborði
blessuð vist og dýrðleg er;
þar er lífs og friðar forði,
fögnuð alt þar beztan lér;
þar er engin þraut, sem grætir,
þar er alt, sem meinin bætir;

lofgjörð er þar allra mál,
í þér gleðst þar líf og sál.

3. Þetta eilíft eftirlæti
einnig, Drottinn, bauðst þú mér;
þú mér hefir sælusæti
sekum veitt og geymt hjá þér.
Veit, að þinni vild eg hlýði,
veit, að mína sálu prýði
brúðkaups skrúðinn sanni sá,
sem þú vilt mér finnist hjá.

4. Tignið Krist, þér tungur allar,
tigni hann vor sál og geð,
er í sælusal oss kallar
sífelt náðarorði með.
Tignum hann, er himinskrúði
helgu skrýðir sína brúði
og til lífsins leiðir inn
loks í dýrðarbústað sinn.

## 164.

Lag: Hvað hefir þú, minn hjartkær Jesú, brotið?

ÞINN sonur lifir", sagði Jesús forðum,
og sveininn græddi', er trúað var þeim orðum.
Hin sömu orðin sár míns hjarta græða,
er svíða' og blæða.

2. Ó, hve eg gleðst, minn Guð og faðir blíði,
að gafstu mér þá trú í lífsins stríði,
að dauðanum vann son þinn sigur yfir;
þinn sonur lifir.

3. Ó, gef þú, að á mér það rætast
megi,
að megi' eg vera þinn á nótt og degi,
og lífs og dauðum sé það sagt mér yfir:
Þinn sonur lifir.

4. Og þegar berast burt af tímans
straumi
vor börn oss fjær í heimsins mikla
glaumi,
þá seg við oss það, sem vér gleðjumst
Þinn sonur lifir. [yfir:

5. Og þegar blessuð börnin frá oss
deyja,
í bæn og trú þá kenn þú oss að þreyja,
og seg við hvern, er sorgin þirmir yfir:
Þinn sonur lifir.

6. Já, þegar sjálfir vér til heljar
hnígum,
og hinzta fetið lífsins þreyttir stígum,
í sjálfum dauða sagt það verði oss yfir:
Þinn sonur lifir.

7. Og þegar hold vort hylur moldin
rauða,
og hyggja vorir náungar oss dauða,
þá hljómi gröfum sigursöngur yfir:
Þinn sonur lifir.

8. Eg vona fast hjá þér að lyktum
lenda
í lífi því, sem neinn ei hefir enda.

Þá dauða, synd og sorgir hafinn
yfir
þinn sonur lifir.

9. Mitt heimafólk, mitt hús og allir
lýðir
þá heim til þín, min faðir, koma' um
síðir,
og syngja glaðir sigri lífsins yfir:
Þinn sonur lifir.

## 165.

Lag: Einn herra eg bezt ætti.

SÚ trú, sem fjöllin flytur,
oss fári þyngstu ver;
ei skaða skeyti bitur,
þann skjöld ef berum vér;
í stormum lífs hún styður
og styrkir hjörtu þreytt:
í henni' er fólginn friður,
sem fær ei heimur veitt.

2. Minn Jesú, lát ei linna
í lífi trú mér hjá,
svo faldi fata þinna
ég fái þreifað á,
og kraftinn megi kanna,
sem kemur æ frá þér
til græðslu meinum manna
og mesta blessun lér.

3. Í trú mig styrk að stríða
og standast eins og ber;
í trú mig láttu líða
svo líki, Drottinn, þér;

er dauðans broddur bitur
mér beiskri veldur þrá,
þá trú, er fjöllin flytur,
mig friða láttu þá.

## 166.

Lag: Ó, faðir minn, eg þrællinn þinn.

Ó, faðir minn, heyr þjóninn þinn,
er þökk af hjarta færir,
þér líknin há, er ljósin smá
af ljósi þínu nærir.
Þitt hulda ráð þú hefir skráð
í hjörtu barna þinna,
er veraldar ei vitringar
með vizku kunna finna.

2. Eg trúi' á þig, en tel ei mig
í tölu spekinganna;
og nóg er mér, ef mitt eg er
á meðal smælingjanna,
er Jesúm Krist sinn finna fyrst
og friðarboð hans þiggja
og alt sitt traustið efalaust
á orði Drottins byggja.

3. "Eg kem til þín, ó kom til mín,"
svo kallar hann til sinna.
"Hver þreyttur er og byrði ber,
skal bót við þrautum finna;
þeim hvíld eg ljæ, þeim frið eg fæ,
sem fús vill ok mitt taka,
og læra' af mér, sem ljúfur er;
þann lítt mun byrðin saka."

4. "Eg kem til þín, ó kom til mín,"

eg kalla aftu'r á móti;
"ó kom með frið, með líkn og lið,
og leyf eg hvíldar njóti
Við krossins rót er bezta bót
og beztu hvíld að finna;
þitt okið sætt fær bölið bætt
og byrði synda minna.."

5. Eg kem til þín og þú til mín,
ó, því er sælt að taka;
eg dvel hjá þér og þú hjá mér
og þá mun ekki saka;
eg ok ber þitt og þú ber mitt
í þessum harmadölum,
og eg er þinn og þú ert minn
í þínum gleðisölum.

6. Sú kemur stund, þá feginsfund
vér fáum allir síðan;
við lambsins stól, hjá lífsins sól
vér lítum dag svo blíðan.
Þar skín Guðs ást, þar ský ei sjást,
er skyggi' á Drottins ljóma;
vér fáum þá til fulls að sjá
vors frelsis leyndardóma.

## 167.

Með sínu lagi.

EG heyrði Jesú himneskt orð:
"Kom, hvíld eg veiti þér.
Þitt hjarta' er mætt og höfuð þreytt:
því halla' að brjósti mér."

2. Eg kom til Jesú sár af synd,
af sorg, af þreytu' og kvöl,

og nú er þreytta hjartað hvílt
og horfið alt mitt böl.

3. Eg heyrði Jesú ástarorð:
"Kom, eg mun gefa þér
að drekka þyrstum lífs af lind;
þitt líf í veði er."

4. Eg kom til Jesú. Örþyrst önd
þar alla svölun fann;
hjá honum drakk eg lífs af lind;
mitt líf er sjálfur hann.

5. Eg heyrði Jesú himneskt orð:
"Sjá, heimsins ljós eg er.
Lít þú til mín, og dimman dvín
og dagur ljómar þér."

6. Eg leit til Jesú, ljós mér skein;
það ljós er nú mín sól,
er lýsir mér um dauðans dal
að Drottins náðarstól.

### 168.

Lag: Sæti Jesú, sjá oss hér.

LOF og dýrð og þökk sé þér,
þjóða Drottinn, faðir hæsti;
paradís þín aftur er
opin nú, er syndin læsti;
logasverði' úr leið er hrundið,
lífsins tréð að nýju fundið

2. Friðar veg og frelsunar
framar engar byrgja varnir;
það er hulið vitrum var,
vitað fá nú smælingjarnir;

okið það, er engan þreytir,
ánauð heims í frelsi breytir.
3. Létt er byrði lögð á oss,
lífsorð Jesú hjörtum svala;
til vor gröf og kvalakross
Krists um líf og sælu tala;
Drottins gröf mót dauða' er vígi,
Drottins kross vor himnastigi.
4. Gröfin nú er himna hlið
herrann Kristur svo því breytti;
krossinn boðar fenginn frið;
friðinn þann, er Guðs son veitti.
Lofið vísdómsvegu háu
vitringar og börnin smáu.

## 169.

Lag: Einn herra eg bezt ætti.

MINN friður er á flótta,
mér finst svo tómt og kalt:
eg geng með innri ótta,
og alt mitt ráð er valt.
Eg veit ei hvað mig huggi,
og hvergi sé eg skjól;
mér ógnar einhver skuggi,
þótt eg sé beint við sól.
2. Eg spyr mig: hvert skal halda?
En hvergi flýja má;
eg hrópa: hvað skal gjalda?
því hvergi neitt eg á.
Því stenzt minn styrkur eigi,
sem stormi lostin björk
mitt höfuð þreytt eg hneigi
á hrygðar eyðimörk.

3. Þó lýsir líknar vonin,
eg lyfti trúar staf.
Eg er í ætt við soninn,
sem eta girntist draf.
Eg sé mitt frelsi, faðir,
eg fylgi sveini þeim;
eg þekki ráðið. það er:
til þín að hverfa heim.

4. Þú breiðir arma bjarta
og barnið faðmar þitt,
eg finn þitt heita hjarta,
og hjartað fagnar mitt.
Eg vil ei við þig skilja,
eg vel þitt náðarskjól;
mitt veika líf er lilja,
þín líkn er hennar sól.

## 170.

Með sínu lagi

Ó, hversu sæll er hópur sá,
sem herrann kannast við;
ef frelsara sinn æ hann á,
hann æ á nógan frið.
Í ást, í von, í trú og trygð
hann trausta sér hér reisir bygð;
og trú og von þótt vari skamt,
þá varir ástin samt.

2. En er eg, Drottinn, einn af
þeim?
má eg þá kallast þinn?
Munt þú, er kemur, herra, heim,
mig hitta viðbúinn?

Ó, lát mig hvíld ei fyrri fá,
en fengið hefi' eg vissu þá,
og fyr en svara sér þú mig:
þú sér, eg elska þig.
3. Og þótt, er gef eg þetta svar,
mér þrengi harmur sár,
þá minstu þinnar miskunnar
og mín af þerra tár.
Ef að eins þú, er sérhvað sér,
æ sanna finnur ást hjá mér,
og þekkir mig í þinni hjörð,
eg þá hef nóg á jörð.

## 171.

Lag: Enn í trausti elsku þinnar.

"ELSKAR þú mig? elskar þú mig?"
einatt, Jesú minn, spyr þú mig,
lífs þegar dagur ljómar svo fagur,
ljóst er og glatt er um æfistig.
Þú, sem alt veizt, þú, sem alt veizt,
þú veizt líka eg elska þig
2. "Elskar þú mig? elskar þú mig?"
einnig, Jesú minn, spyr þú mig,
loft þegar skyggir, hríð þegar hryggir,
húmar og kólnar um æfistig.
Þú, sem alt veizt, þú, sem alt veizt,
þú veizt líka eg elska þig.
3. "Elskar þú mig? elskar þú mig?"
ætíð, Jesú minn, spyr þú mig,
heill þegar kætir, hrygð þegar grætir,
hvað sem oss mætir um lífsins stig.
Þú, sem alt veizt, þú, sem alt veizt,
þú veizt, Drottinn, eg elska þig

# IV.
# Kirkjan.

## 1. Almenn kirkja.

### 172.

Lag: Óvinnanleg borg er vor Guð.

VOR Guð er borg á bjargi traust,
hið bezta sverð og verja;
hans armi studdir óttalaust
vér árás þolum hverja.
Nú geyst—því gramur er, —
hinn gamli óvin fer;
hans vald er vonzku nægð,
hans vopn er grimd og slægð;
á oss hann hygst að herja.

2. Með eigin kröftum enginn verst:
þó eitt má frelsun valda:
hinn rétti maður með oss berst,
er mannkyns skuld réð gjalda.
Sá heitið háleitt ber;
það heiti "Jesús" er;
hann Guðs er eðlis einn,
ei annar slíkur neinn;
hann víst mun velli halda.

3. Þótt djöflum fyllist veröld við,
þeim vinst ei oss að hrella;
því Jesús vor oss, veikum lýð,
er vörn og hjálparhella.
þótt mannkyns morðinginn
nú magni fjandskap sinn,

hann engu orka kann,
því áður dóm fékk hann;
eitt orð má fljótt hann fella.

4. Hver óvin Guðs skal óþökk fá.
Hvert orð vors Guðs skal standa;
því oss er sjálfur herrann hjá
með helgri gjöf síns anda.
Þótt taki fjendur féð,
já, frelsi' og líf vort með,
það happ þeim ekkert er,
en arfi höldum vér;
þeir ríki Guðs ei granda.

## 173.

Lag: Upp, gleðjist allir, gleðjist þér.

ÞÚ, flokkur smár, ei hræðst þú hót,
þótt hamist fjendur þér á mót,
og hátt þeir heyrist gjalla
Þeir fagna hreyknir þinni þröng,
en þeirra kæti mun ei löng;
lát því ei þrekið falla.

2. Þú góðum treysta málstað mátt,
því málstað þú með Guði átt,
þeir ei, sem á oss herja.
Ei glatast orð vors Guðs og hjörð,
hans Gídeon er enn á jörð,
er lýð hans vel mun verja.

3. Í Jesú nafni vitum vær,
að valdið oss ei tjóni fær
nein geysan guðleysingja;
með oss er Guð, með Guði vér,

með Guðs hjálp stenzt hinn veiki hér,
og mun um sigur syngja.

## 174.

**Með sínu lagi. = Lifandi Guð, eg leita þín.**

KIRKJA vors Guðs er gamalt hús,
Guðs mun þó bygging ei hrynja;
Guð er til hjálpar henni fús,
hvernig sem stormarnir dynja:
mannvirki ramgjörst féllu fljótt,
finnur enn skjólið kristin drótt
herrans í húsinu forna.

2. Herrann ei býr í húsum þeim,
hagleg er manna verk þykja;
musteri gjörvöll hér um heim
himnanna Drottin ei lykja;
þó hefir bústað bygðan sér
blessaður Guð í veröld hér,
dýran af duftinu reistan.

3. Inni Guðs veglegt erum vér
upp bygt af lifandi steinum,
skírn vora tállaus trú ef er
tengd við í kærleika hreinum;
jörðunni þó að allri á
að eins vér lifðum tveir, oss hjá
byggi vor blessaði drottinn.

4. Hvar sem í náðar-nafni Krists
nokkrir í sameining biðja,
andans er friður æ þeim viss,
orðin Guðs heilög þá styðja.
Guð sjálfur er, sem orð hans blíð,

alsstaðar nærri' á hverri tíð,
náðþyrstum sálum að svala.
5. Hús þau, er kirkjur köllum vér,
kær skulu' oss öllum þó vera;
frelsarinn börn svo faðmi' að sér,
foreldrar þangað þau bera;
Guðs hús er þar og himna hlið,
hefir þar sáttmál gjört oss við
hann, sem oss himinerfð gæddi.
6. Skírnarker minnir skýrt oss á
skírnina', er náðinni heitir;
altarið máltíð eins á þá,
andans er næringu veitir,
fögnuði með þar finnum vér,
frelsari vor að hjá oss er,
miskunn hans sífelt hin sama.
7. Náðugi Guð, af náð veit þú,
nær sem að klukkurnar kalla,
söfnuðir Krists í sannri trú
safnist um veröldu alla;
lát þá í anda son þinn sjá,
sonar þíns kveðju heyrða fá:
"Friður sé öllum með yður!"

## 175.

Lag: Ár og síð eg er í voða.

KIRKJAN er oss kristnum móðir,
kristinn sérhver er vor bróðir;
Guðs og Krists vér erum ætt
allir, sem hún hefir fætt.
2. Móðir sú til frelsis fæðir,
frjálsa þegna rétti gæðir;

móðurþel til barna ber,
blítt þau tekur öll að sér.

3. Svo hún gjört oss frjálsa fái,
frjáls og hlýðin börn oss sjái;
frelsislærdóm frelsarans
flytur hún í nafni hans.

4. Hún vill að eins laða' og leiða
lýð, en ei með valdi neyða,
býður frelsi, boðar náð,
birtir himneskt líknarráð.

5. Börn sín vill hún Kristi klæða,
Krists með náðarbrauði fæða,
að hún loksins fái fært
föðurnum hvert barn sitt kært.

6. Það, er vinna vill þín kirkja,
virztu, Guð, af náð að styrkja,
að það beri ávöxt þann,
er þá móður gleðja kann.

7. Hennar móðurhjarta kættu,
hennar móðursorgir bættu;
vorri móður vernd þú sýn,
vora móður sigri krýn.

## 176.

Lag: Þann heilaga kross vor herra bar.

ÞÁ syndugra manna sekt þú barst
og saklaus á krossi píndur varst
til bræðranna frelsis, Guðs son góður,
þú gleymdir ei þinni hreldu móður.

2. Vér komum, ó, Jesú kæri, nú,
og kveinum til þín, að hjálpir þú;

því vér eigum líka móður mædda,
af margfaldri neyð og stríði hrædda.

3. Sú móðir vor kirkja kristin er,
sem kvíðandi berst í veröld hér.
Æ, líkna þú henni, Guðs son góður,
sem grátinni forðum þinni móður.

4. Æ, bæt hennar þungbært mæðu-
mein
og margan þinn slíkan lærisvein
sem Jóhannes, — hennar sorg að sefa,
— í sonar stað henni virstu gefa.

## 177.

Lag: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

SEM fuglinn hreiðri hlúir að
og hjúkrun ungum veitir,
eins Guð vor sjálfur sínum stað,
er Síon nýja heitir.

2. Hvar er sú borg? Um heiminn
á hverjum stað þar er hún. [hér,
sem orðið krossins kunngjört er,
og krossins merki ber hún.

3. Hún stöðug jafnan standa kann,
þótt stormur æði byrstur;
því hún er bygð á hornstein þann,
er heitir—Jesús Kristur.

4. Þótt grimmir fjendur flykkist að
og falli Guðs borg hóti,
Guðs engla vörður á þeim stað
er æ til varnar móti.

5. Og staðinn helga straumur ver,
er stöðvar árás fjenda;

sá straumur blessað blóðið er
vors bróður himinsenda.

6. Í örvænting þótt hamist hel
og heift ei vilji gleyma,
í Guðs borg líður lýðum vel,
því lífið á þar heima.

7. Það unað borgarbúum lér
og býr hvern dag þeim glaðan.
á friðarhöfn að útsjón er
hin inndælasta þaðan.

## 178.

Lag: "Old Hundred."

VOR Guð, oss lýsa lát þitt orð,
en linna þeirra brögð og morð,
er fela vilja friðarsól
og fella Jesú veldisstól.

2. Þú, Kristur, drotna drottinn ert,
þitt dýrðlegt vald gjör öllum bert,
og kristni þína voða ver,
að vegsemd æ hún gjaldi þér.

3. Þú, andinn helgur, alla tíð,
í eining trúar styrk þinn lýð;
hjá oss þú dvel í andláts neyð
og oss til lífs úr dauða leið.

### 2. Trúboð.

## 179.

Með sínu lagi.

FRÁ Grænlands ís-gnúp yztum,
frá Indlands kóral-strönd,

frá landi sunnan sólar
við silfurlinda-bönd,
frá fljótum frumskóganna
og fríðri pálma-hlíð
berst hróp til vor að hrífa
úr hlekkjum viltan lýð.

2. Mun oss, er orðsins njótum
og allrar náðar, tjá
þeim synja lampa lífsins,
er langvinn myrkur þjá?
Ó, boðum Jesúm, boðum
hans blessað hjálparráð,
unz fólki fjærstu landa
er frelsis-orð hans tjáð.

3. Þér, vindar, blítt það berið
og bárur sævargeims,
unz alt skín í þess ljóma
til endimarka heims,
unz lambið lausnar kemur,
er leið og dó á kross,
í veldi vegs og dýrðar
til verndar frelstum oss.

## 180.

Með sínu lagi.

Í fornöld á jörðu var frækorni sáð,
það fæstum var kunnugt, en sumstaðar
smáð:
það frækorn var Guðsríki', í fyrstunni
smátt,
en frjóvgaðist óðum og þroskaðist
brátt.

2. Þá dundu' yfir stormar og hret-
viðrin hörð
og haglél og eldingar geysuðu' um jörð.
Það nístist af frosti, það funaði' af
glóð,
en frjóvgaður vísir þó óskemdur stóð.

3. Og frækornið smáa varð feiknar-
stórt tré,
þar fá mátti lífsins í stormunum hlé;
það breiddi sitt lim yfir lönd, yfir höf,
á lifenda bústað, á dáinna gröf.

4. Í skjóli þess þjóðirnar þreyta sitt
skeið
og þreyttur fær hressing á erfiðri leið;
í skjóli þess hrakinn og vesall fær vörn,
þar velja sér athvarf hin saklausu börn.

5. Það vantar ei enn þá hin isköldu él
og orma, sem vilja þess rót naga' í hel:
en hvernig sem fella það farið er að,
þeir fá því ei grandað né eyðilagt það.

6. Það blómgast og vex og æ blóm-
legra rís,
í beiskjandi hita, í nístandi ís;
af lausnarans blóði það frjóvgaðist
fyrst,
þann frjóvgunarkraft eigi getur það
mist.

7. Frá heimskauti einu til annars það
nær,
þótt önnur tré falli, þá sífelt það grær;
þess greinar ná víðar og víðar um heim,

unz veröldin öll fær sitt skjól undir
þeim.

8. Og sú kemur tíðin, að heiðingja
hjörð
þar hælis sér leitar af gjörvallri jörð;
sú tíðin, að illgresið upp verður rætt
og afhögna limið við stofninn sinn
grætt.

9. Hve gleðileg verður sú Guðsríkis
öld!
Um gjörvallan heim ná þess laufskála-
tjöld.
Úr hvelfingu myndast þar musteri frítt,
þar mannkynið alt Guði lof syngur blítt.

## 181.

Lag: Guð miskunni nú öllum oss.

Í miskunn, Guð, vor minstu nú,
veit milda blessun þína;
þitt auglit blítt og orð lát þú
til eilífs lífs oss skína.
Þinn helgan veg og hjálparráð
gef heimur allur sjái,
og herrans Jesú heilög náð
til hverrar þjóðar nái
og alla frelsað fái.

2. Þig lofi, Guð, þín himnesk hjörð,
þér heiður mannkyn rómi.
Því fagni sérhvert fólk á jörð
með fögrum söngva hljómi,
að réttinn hönd þín voldug ver
og valdi syndar eyðir,

en líf og kraftur orð þitt er,
sem öllum veginn greiðir
á réttar lífsins leiðir.

.3. Ó, Guð, hver lýður þakki þér
og þínum syni kæra,
að jörðin æ sinn ávöxt ber,
en orð þín sálir næra.
Guð einn og þrennur ár og síð,
ver aumra miskunnari.
Þig allur tigni alla tíð
þinn engla' og manna skari.
Því allir "amen" svari.

## 182.

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

LÁT þitt ríki, ljóssins herra,
ljóma skært um jörð og sjá;
láttu meinin þjóða þverra,
þerðu tár af hverri brá;
sannleiksorðið sigurbjart
sigri villumyrkrið svart
Synda fár og fjötrar víki
fyrir þínu náðarríki.

2. Tendra þjóðum eld í anda,
efldu Jesú Kristí hjörð;
láttu hana styrka standa,
stríð þótt herji víða jörð;
orðsins þjónum auk þú hlíf,
afl og fjör og heilagt líf
anda Krists og elsku heita,
ótal sálum hjálp að veita.

## 3. Prestsvígsla.

### 183.

Með sínu lagi.

ANDINN Guðs lifanda', af himnanna hæð,
heimi' er til blessunar kemur,
ljósið er hatað og lygin er skæð,
lymskan sín myrkraverk fremur.
Æ, vertu því hjá oss nú í náð,
nóttin er voðaleg, hættan bráð.

2. Eldlegar tungur og ástheita sál
öllum þeim gef, er þú sendir,
hjálpræðis bitrast og mildast þó mál,
munni sem postula kendir.
Heimskauta meðal á hverjum stað
himnesku' af afli þeir boði það.

3. Fögnuð og ljós þeir æ flytji sér með,
frjóvgist hvert spor, er þeir ganga.
Hugprýði' og þrek styrki hugfallið geð;
huggun lát grátendur fanga.
Föðurorð mildiríkt, leynt sem ljóst
líknarhug gagntaki sérhvert brjóst.

4. Skín þú sem árgeisli' um ilmandi grund
ómandi' í vormorgunroða.
Orðið þitt lífgandi lýð veki' af blund,
líkn Guðs með þakklæti' að skoða.
Unaðar-raddanna undurdjúp
áorki', að steinhjörtu verði gljúp.

5. Heilagrar skírnar veit háleitast
hnoss,
hvarvetna nýir menn fæðist.
Frelsarans blessaða kenning um kross
kröftugleg blómgist og glæðist.
Lífstréð frá krosstrésins láttu rót
limar, sem faðm, breiða Drotni mót.

6. Sælunnar unaðsemd alla lát fá
ást fyrir lausnarans þjóða;
föðurráð eilíft og andans verk þá
eitt verði' í syninum góða.
Enginn svo glatist í herrans hjörð,
hættan þótt mörg sé og dimt á jörð.

## 184.

Lag: Hver, sem ljúfan Guð lætur ráða.

SEND liðsemd, Drottinn, þjónum þín-
er þína geyma skulu hjörð; [um,
af eigin mætti enginn sínum
því orkar maður þess á jörð.
Styrk þá að bera byrði þá,
er baztu þeirra herðar á.

2. Gef þeim, er öðrum veginn vísa,
að veginn sjálfir þræði rétt
og séu fögur ljós, er lýsa
og ljóma skært í sinni stétt;
gjör verkin þeirra vegsamlig,
svo vegsamlegan gjöri þig.

3. Ó, lífsins Guð, á lífsins vegi
þeim leiða kenn þú börnin þín.
Svo hirðar bæði' og hjörðin megi,
nær hérvist fallvölt eitt sinn dvín,

þér, yfirhirðir æðsti, hjá
í unað himna safnast fá.

## 4. Kirkjuvígsla.

### 185.

Með sínu lagi.

INNDÆLAN, blíðan, blessaðan,
bústaðinn þinn, [fríðan
Drottinn minn, þrái' eg, þar kýs að fái
þrátt komið inn [eg
Lifandi Guð, í þíns helgidóms hús
hugurinn stefnir til lofgjörðar fús.

2. Alheimi kunnur algæzku brunnur
ertu, Guð hreinn;
fuglum þú skýli fær, svo þeir hvíli
fullrótt hver einn;
húsið þú opnar mér heilaga þitt,
hjartað svo friðarins njóti þar mitt.

3. Hingað að snúa, hér inni' að búa
hagsæld er mest;
tungunni' er kæti, Guð ef hér gæti
göfgað sem bezt.
Sæll er sá maður, sem fögnuð þinn fær
fundið, þú guðsbarna lofsöngur skær.

4. Þúsundir daga, holdið er haga
hyggur bezt sér,
geta líkst eigi Guðs einum degi,
glaðir þá vér
lyftum í hæðir með heilögum söng
hjörtum úr veraldar umsvifa þröng.

5. Heimsdrotna' að vitja heimboðs og
háborð við miðt, [sitja

einkis það met eg mót því, ef get eg musteri þitt
fengið að sækja; þótt sæti' eg þar neðst,
sit eg þér nærri, minn Drottinn, og gleðst.

## 186.

Lag: Til þín eg, Drottinn, huga hef.

Ó, maður, hvar er hlífðarskjól
á heimsins köldu strönd?
Hvar leiftrar Drottins dýrðarsól
á dauðans skuggalönd?
Hvar stöðvast tímans hála hjól,
en hnýtast eilíf bönd?
Og hvar er sæl und sólar stól
vor sjúk og dauðþreytt önd?

2. Vort hlífðarskjólið heimi í
er húsið, Guð minn, þitt;
ei hret né stormar hreyfa því
né hræða brjóstið mitt;
þar gefur náðin herrans hlý
mér himinljósið sitt;
í hjartans unun hér eg bý,
því hér er sekum fritt.

3. Og hræðslu' og sektar húmið svart
úr hjarta mínu fer;
því svo er lífsins ljósið bjart,
sem leiftrar til mín hér.
En blygðast þín, ó, hjarta hart,
því herrann til þín sér,
og ber þú ætíð brúðkaupsskart
að borði Drottins hér.

4. Ó, mikla hnoss, að hitta þig
og helga svölun fá,
minn Guð, þá syndin særir mig
og sorgin dynur á.
Mitt duft er fast við dauðans stig,
en dýrð þín, Guð, svo há,
og samt mitt hjarta hefja sig
til himnaríkis má.

5. Guð helgur andi, hingað snú
og helga þennan sal;
Guð helgur andi, hjá oss bú
og helga munns vors tal;
Guð helgur andi hjartans trú
þá hljóma til þín skal,
unz oss að lokum leysir þú
til lífs úr táradal.

## 187.

Lag: Hér straumur tímans fram hjá fer.

Í þennan helga herrans sal
vort hjarta leita griða skal,
því úti herjar heift og stríð,
en hér er eilíf blíðutíð.

2. Svo kom þú hingað, kristin sál,
ó, kom með heilög lofsöngsmál;
kom hingað klökk og hjartans fús,
í heimi finst ei betra hús

3. Og þetta húsið helgum vér,
ó, himna Drottinn, einum þér;
í Jesú trú með Jesú frið,
í Jesú nafni halt því við.

## 5. Kirkjufundur.

### 188.

Lag: Þann signaða dag vér sjáum enn.

VÉR komum saman á kirkjufund,
vér komum í Jesú nafni.
Nú vakni sérhver af værðarblund
og veraldar lysting hafni.
Ó, biðjum Guð að blessa vort ráð,
svo blómgist hans kirkja' og dafni.

2. Vér komum saman á kristinn fund
og Kristur sé með oss öllum;
hann rétti' oss nú sína mildu mund,
er miskunn hans vér áköllum;
hann styðji með krafti kristinn lýð
og kristnina verji föllum.

3. Vér komum saman á kærleiksfund,
í kærleika saman iðjum.
Þótt mörg sé skoðun og margbreytt
vér móður samhuga styðjum; [lund,
því ein er vor trú og ein vor von
og einn vér föðurinn biðjum.

4. Vér komum síðar á Kristí fund,
er kallar hann oss að dómi;
af hverjum sitt þá heimtar hann pund
með hvellum og snjöllum rómi.
Ó, notum þau, áður vekjumst vér
af voldugum lúðurhljómi.

### 189.

Lag: Óvinnanleg borg er vor Guð.

VORT kirkjufélag framleið þú.

vor faðir elskulegi,
í sönnum kærleik, sannri trú,
á sáluhjálpar vegi.
Halt krossins kenning við;
gef kristni þinni frið;
þitt ríki' í heimi hér
með heilagt líf í þér
gef hvern mann helga megi.

**190.**

Lag: Þín miskunn, ó, Guð, er sem himininn há.

Ó, leið þú oss, Guð vor, á ljósanna
braut,
er liggur til hásala þinna.
Vort félag vér leggjum í lausnarans
skaut,
þar lát þú oss sæluna finna.

---

# V.

# Náðarmeðulin.

## 1. Guðs orð.

**191.**

Lag: Gjörvöll kristnin skal gleðjast nú.

HVE sælir allir yrðum vér,
ef orði lífsins blíða,
sem Guðs af náð oss gefið er,
vér gættum rétt að hlýða!
Það blessað orð er hjörtum hnoss,
það heims í myrkrum lýsir oss,
það veitir styrk að stríða.

2. Um sannleik þann, sem æðstur er,
oss orðið Drottins fræðir;
í hverju, sem að höndum ber,
það huggun beztri gæðir.
Það veikri sálu veitir þrótt;
að verði hjarta mæddu rótt,
það heimvon helga glæðir.

3. Ef vegi Guðs vér víkjum frá
á villustiginn breiða,
þess heilög rödd oss hvetur þá
hjá háska þeim að sneiða.
Það áminnir oss alla þrátt,
að oss til sáluhjálpar brátt
vér Guðs náð látum leiða.

4. Veit oss, ó Guð, að orð þitt dýrt
oss alla vakið fái
og þannig hjarta hverju stýrt,
að hæstu gæðin þrái.
Það hverja deyfi harma skál,
það hverja styrki veika sál
að sælum sigri nái.

5. Lát orð þitt, Guð, um alla jörð
svo öllum þjóðum lýsa,
að allir verði að einni hjörð,
sem eigi sælu vísa.
Lát alla blessun orðsins fá
og alla síðar himnum á
þitt náðarnafn æ prísa.

## 192.

Lag: Óvinnanleg borg er vor Guð.

ÞITT orð er, Guð, vort erfðafé,

þann arf vér beztan fengum.
Oss liðnum veit til lofs það sé,
að ljós við þess vér gengum.
Það hreystir hug í neyð;
það huggar sál í deyð.
Lát börn vor eftir oss
það erfa blessað hnoss.
Ó, gef það glatist engum.

## 193.

Lag: Kom, skapari, heilagi andi.

HÚN er mér kær, sú blessuð bók,
sem boðar mér það líknarráð,
að sjálfur Guð að sér oss tók,
hin seku börn, með föðurnáð.

2. Eg heyri þaðan hljóma blítt
af himni rödd, er segir mér:
Guð vill, að sérhvað verði nýtt,
sem veikt af syndaspilling er.

3. Eg horfi þar á helga mynd
míns hjartakæra lausnarans,
er leysti mig frá sekt og synd
og sælu bjó mér himna ranns.

4. Eg sé þar dýrsta sigurgjöf,
eg sé þar friðarmerki reist,
eg sé þar bjargi svift af gröf,
eg sé þar heljar böndin leyst.

5. Sér ljóss og ráða leitar þar
í lífsins vanda sál mín hrædd
og sér þar aflar svölunar,
er sárt hún stynur, þyrst og mædd.

6. Þú, heilög ritning, huggar mig,
mér heilög orðin lýsa þín;
sé Guði lof, sem gaf mér þig,
þú gersemin hin dýrsta mín.

## 194.

Lag: Á meðan sólin skæra skín,
eða: "Old Hundred."

Ó, herra Jesú, hjá oss ver,
því heims á vegum dimma fer;
þitt orðaljósið lát oss hjá
með ljóma hreinum skinið fá.

2. Þótt ill sé tíð og öldin spilt,
lát oss, þinn lýð, ei fara vilt,
en hjá oss æ þitt haldast orð
og helga skírn og náðarborð.

3. Ó, Kristur, þína kirkju styð,
þótt kuldi' og svefn oss loði við,
og kenning þinni götu greið;
um gjörvöll löndin hana breið.

4. Það náði, Guð, þín miskunn mild,
hvað margir kenna' að eigin vild
og hærra meta hugboð sitt
en heilagt sannleiksorðið þitt.

5. Ó, læg þú hvern þann lærdóms vind,
er leiðir vilt, og brátt þeim hrind,
er treysta fremst á fróðleik sinn,
en falsa hreinan lærdóm þinn.

6. Ei oss ber heiður, heldur þér,
en heiður þinn, ó Jesú, er,

að sigri haldi hjörðin sú,
er heiðrar þig með réttri trú.
7. Þitt orð er sálar æðsta hnoss,
þitt orð er sverð og skjöldur oss;
þótt annað veltist veröld í,
oss veit til enda' að halda því.
8. Þitt heilagt orðið heims í nauð
sé, herra kær, vort daglegt brauð,
oss leiðsögn holl um harmadal
og himins inn í gleðisal.

## 195.

Lag: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

GUD, lát orð þitt ætíð standa
óumbreytt á meðal vor;
lát oss rekja' í réttum anda
rétttrúaðra feðra spor.
Dögum hallar, hjá oss ver,
höndum á oss veika ber;
himinleið oss leið þú rétta,
lífsins brauði sálir metta.

## 2. Skírn—Ferming.

## 196.

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

EG er skírður, huggun hæsta
hjarta mínu veitir það;
þótt mín sekt sé þungbær næsta,
þekki' og á eg griðastað;
barn míns Guðs eg orðinn er,
allrar gleði fær það mér;
ekkert heims um gnóttir gef eg,
gæðin æðri nógleg hef eg.

2. Eg er skírður, skal mig ekki
skelfa synd né myrkra völd;
hjálparráð eg hef og þekki,
hann, sem bar mín syndagjöld;
fyrir skírnar blessað bað
benja Drottins nýt eg að;
laugast hef eg lífsins flóði,
lausnarans Jesú dýru blóði.

## 197.

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

FADIR, sonur og friðar andi,
fót minn leið þú hrösun frá;
skírnarheit að vel eg vandi,
virztu náð og styrk mér ljá.
Lát mig jafnan lifa þér,
líf á meðan veitist mér,
unz á himnum fæ eg finna
fögnuð meðal barna þinna.

## 198.

Lag: Guðs vors nú gæzku prísum.

VOR Jesús börnin blíður
að brjósti leggur sér,
og þeim hið bezta býður,
það borgarréttur er
með himins helgri þjóð;
hann erfð þeim æðsta veitir
og allri sælu heitir
sitt fyrir blessað blóð.

2. Til Krists því koma látið,
þér kristnir, börnin smá,
og hæsta heill það játið,

að hans þau fundi ná;
ó, berið börn til hans;
hann virðist við þeim taka,
þau voði má ei saka
í faðmi frelsarans.

## 199.

Lag: Ofan af himnum hér kom eg.

Ó, blíði Jesú, blessa þú
það barn, er þér vér færum nú;
tak það í faðm og blítt það ber
með börnum Guðs á örmum þér.

2. Ef á því hér að auðnast líf,
því undir þínum vængjum hlíf,
og engla þinna láttu lið
það leiða' og gæta slysum við.

3. Ó, gef það vaxi' í vizku' og náð
og verði þitt í lengd og bráð
og lifi svo í heimi hér,
að himna fái dýrð með þér.

## 200.

Lag: Þín miskunn, ó, Guð, er sem himininn há.

GUÐ faðir sé vörður og verndari þinn,
svo veröld ei megi þér granda;
hvert fet þig hann leiði við föðurarm
og feli þig sér milli handa. [sinn

2. Guðs sonur sé fræðari' og frelsari
ei frá þér hans skírnarnáð víki; [þinn,
hann opni þér blessaðan ástarfaðm sinn
og innleiði þig í sitt ríki.

3. Guðs andi sé hjálpari' og huggari
þinn,

í heimi þín vegferðar-stjarna;
hann hjálpi þér síðan í himininn inn
að hljótir þú frelsi Guðs barna.

---

## 201.

Lag: Óvinnanleg borg er vor Guð.

LÁT þennan dag, vor Drottinn nú
oss dýran ávöxt færa.
Ó, bezti faðir, blessa þú
vorn barnahópinn kæra.
Nú frammi fyrir þér,
vor faðir, stöndum vér,
þín eldri' og yngri börn,
þín elska líknargjörn
vor hjörtu virðist hræra.

2. Þeim ungu legg þitt orð í munn,
þess afl í sálum brenni,
svo hreina trú af hjartans grunn
þau hreinlynd viðurkenni;
þau voru færð þér fyr,
þú faðm þeim opnaðir;
þú blesuð börnin smá
lézt blessun skírnar fá;
ó, gef þau glati' ei henni.

## 202.

Lag: Sérhvert ljós um lífsins nótt.

BLESSUN yfir barnahjörð,
ljúfi faðir, legg nú þína,
lát þeim æfinlega skína
þinnar líknar ljós á jörð.
Ástgjöf hreinnar elsku' og trygðar

ætíð hjá þeim varðveit þú;
bú þau skarti dýrrar dygðar,
dauðans til þau gjör þér trú

## 203.

Lag: Gæzkuríkasti græðari minn.

ÞÚ lambið Guðs, er leiðst hér pín,
um lömbin veiku sjáðu þín
á heimsins hættuvegi;
í þína hjörð þau, herra, tak
og heillum yfir þeirra vak
frá æsku' að dauðadegi;
styrk þau, styð þau;
og er hríðar æfi stríðar
allar dvína,
virztu lífs þau krónu krýna.

## 204.

Með sínu lagi.

KONUNGUR lífsins kemur hér til sala,
kveður til fylgdar börnin jarðardala,
undan þeim fer hann, friðarmerkið ber
frelsari er hann. [hann,

2. Hertýgi ljóssins lífsins konung
skrýða,
lýsir af bitru orðsins sverði víða,
konungs á höfði kostuleg mun skarta
kórónan bjarta.

3. Alvæpni Guðs hann æskumönnum
gefur,
eðalstein lífsins hann á skjöldinn grefur,
skeyti þá engan skaða mega vinna,
skjól er hann sinna.

4. Fermingarbarn, til fylgdar þig hann
krefur,
fegurstu kosti eilífs lífs hann gefur,
sakleysið verndar, sorg í gleði breytir,
sigurinn veitir.
5. Styrki þig Guð, að velja veginn
rétta,
vizkan og náðin sveig úr rósum flétta,
undan þér fer hann, friðarmerkið ber
frelsari er hann! [hann.

## 3. Kvöldmáltíðin.

### 205.

Með sínu lagi.

TUNGA mín af hjarta hljóði
helgan leyndardóm um þann,
líkam Krists og blessað blóðið,
bót sem öllum heimi vann,
konungs þjóða þá hins góða
það á krossi' úr æðum rann.

2. Síðstu nótt, þá sat að borði
sjálfur Kristur bræðrum með
lögmáls gjörla eftir orði,
— engin máltíð dýrri er séð, —
höndum hreinum sínum sveinum
sig til fæðu gefa réð.

3. Hold í brauði, blóð í víni
bauð sitt væri, Drottinn kær;
miskunn slík þótt manna' ei skíni
myrkum skilning, trúum vær;
trúin eina hjarta hreina
huggun, gleði' og styrkleik fær.

4. Helgidóm svo háan allir
heiðra skulum alla tíð.
Gamlar lögmáls fórnir falli
fyrir Drottins nýjum sið.
Trúin mæta bezt má bæta
brestinn skilnings kristnum lýð.

## 206.

Lag: Kross á negldur meðal manna.

LÁT ei, Síon, lofgjörð bresta,
leiðtogann og hirðinn bezta,
Jesúm, lýða lausnarann,
heiðra þú með hljómi snjöllum,
hugfest þó, að langt er öllum
manna lofstír meiri hann.

2. Þitt í dag sé þakkarefni
þjóðum náðarpantur gefni,
blessað lífsins brauðið það,
er hann, knúður kærleik hreinum,
klökkur býtti lærisveinum,
síðst er borði sat hann að.

3. Ástar hreinu skrúði skarta
skyldugt væri hverju hjarta
þessum degi dýrum á,
og með hásöng helgra ljóða
höfundinum, Kristi góða,
náðarmáltíð þakka þá.

4. Kristur veitist allur öllum
æfinlega, þá vér föllum
fram við blessað borðið hans;
Kristur eyðist ei né þrýtur,

alla blessun hver einn hlýtur,
þó að neyti þúsund manns.

5. Þessi dýr og guðleg gæði
góðir fá og vondir bæði;
þó er munur mikill á:
Góðir æðstar heillir hljóta,
hinir miskunn af sér brjóta,
þar eð herrans hold þeir smá.

6. Allir, sem til Guðs borðs ganga,
gæti' að halda rannsókn stranga
högum sálar sinnar á;
Krists með trú og tárum leiti,
til þess sér til lífs þeir neyti
og hans friður faðmi þá.

## 207.

Lag: Guð miskunni nú öllum oss.

HÉr kem eg, seki syndarinn,
af sálar þorsta neyddur,
og flý í líknarfaðminn þinn,
sem fyrir mig varst deyddur.
Ó, Jesú, tak á móti mér
að máltíð helgri þinni,
og hvíld mér bú við hjarta þér,
að hjarta-sorg mín linni
og hjartans frið eg finni.

## 208.

Með sínu lagi.

Ó, Guðs lamb synda sýkna,
er særði kross-pínan megna,
þér svo var ljúft að líkna,
að léztu sjálfum þér hegna.

Þú einn barst allra syndir;
vér án þín værum týndir.
Oss veikum væg þú, ó Jesú

## 209.

Lag: Jesú, þín minning mjög sæt er.

ÞÍN minning, Jesú, mjög sæt er,
sú minning hjörtum fögnuð lér;
en að þú sjálfur ert oss hjá
er unun hæst, er veitast má.

2. Ei heyrist fegra' í heimi mál,
ei hugsað æðra getur sál
og engan söng að eyra ber,
sem unaðslegri' en nafn þitt er.

3. Þú einka-von ert angráðum,
þú athvarf traust ert biðjendum,
þú líkn og hjálp ert leitendum,
þú lífið sjálft ert finnendum.

4. Þú, Jesú, lífsins lindin bezt,
þú ljós og yndi sálna mest,
þú betra hverri býður þrá,
já, betra' en alt, sem hugsast má.

5. Ei orð finst það, er því fær lýst,
um það fær tunga borið sízt,
hvað, Jesú, þig að elska er,
það einn veit sá, er lifir þér.

6. Þú ætíð, Jesú, ert hans þrá
í einverunni' og mönnum hjá;
í verki' og hvíld, í vöku' og blund
hans von til þín er alla stund.

7. Ó, Drottinn Jesú, Drottinn minn,
er dýrstan vanst oss sigurinn,

þú sætleikur ert sálunum
og svölun bezta hjörtunum.
8. Ó, ver þú oss, vor herra, hjá,
að hverfi myrkrið sálum frá.
Í hjörtun lýsi ljós þitt inn, —
þú ljósið heims,—með unað sinn.
9. Er sækir þú vor hjörtu heim,
skín himnesk sannleiks birta þeim,
og glysi heims þau hafna skjótt
og helgri vermast kærleiks gnótt.
10. Þú líknardjúp, Guðs ljúfi son,
vort líf, vort traust og sælu von,
minn anda hrífi elskan þín:
Þú, æðstur herra, vitjar mín.
11. Hve sætur ertu, einn veit sá,
þín ást er fengið hefir á,
hve sæll er hver, er seður þú,
hans sál með nægtum gleður þú
12. Þú engla prýðin æðst og bezt
ert eyrum söngrödd blíðumest,
í munni hunang himinlegt,
í hjarta balsam guðdómlegt.
13. Þú hrygðar-andvörp heyrir mín,
í hæð er leita upp til þín;
þú öll mín sér og telur tár,
er til þín mæni' eg, Drottinn hár.
14. Á hverri stund og hvar eg fer
mitt hjarta þyrstir eftir þér.
Mín æðst er sæla', að eg þig finn,
mín æðst er gleði', að þú ert minn.
15. Æ, kom þú, hjartans blessað bál
og brennheit þrá, í mína sál.

Ó, Kristur, Guðs son, kom til mín
með kærleiks-undrin helgu þín.

16. Ó, kom þú, bezti konungur,
ó, kom þú, dýrðar höfundur;
ver sálar minnar sólin skýr,
ver svölun mín og vonin dýr.

17. Þú sigur vanst á vonzku her,
er vora líking barstu hér,
en ert nú föður æðstum hjá
í upphefð dýrðar himnum á.

18. Eg fylgi, Jesú, þangað þér,
ei þig fær skilið neitt frá mér;
þú hefir tekið hjartað mitt
það hjá þér dvelur og er þitt.

19. Þig lofar allur himins her
og helga vegsemd greiðir þér.
Þú, gleðin heims, þú gafst oss frið
vorn Guð og föður sjálfan við.

20. Þig lofi, Jesú, líf og sál,
þig lofi tunga' og hjartans mál!
Í trú vér biðjum: til þín inn
oss tak þú alla' í himin þinn.

## 210.

**Lag: Jesú, þínar opnu undir.**

JESÚ, sem að dauðann deyddir,
dauðlegum gafst lífið mér,
þú að borði lífs mig leiddir;
lausnarpantur fenginn er;
efl þú mína ást og trú,
auk mér sálar rósemd nú;

þig mitt lífið heiðri' í heimi;
hjálp veit, þér eg aldrei gleymi.

---

# VI.
# Synd og náð.

## 211.

Lag: Aví, aví, mig auman mann.

HEYR mín hljóð, himna Guð,
hjartað mitt
harmar þjá, hrópa' eg á
hjálpráð þitt.
Gjör við brotin brjóstið kvitt,
barni þínu' að verði fritt;
fyrir son þinn :,: sorgir stytt. :,:

2. Neyðin mín nú og þín
náð mig knýr;
bið eg þig, bænheyr mig,
bölið lýr;
trúuð sál, er til þín flýr,
tapast aldrei, faðir dýr;
mér ei virðist :,: von sú rýr. :,:

3. Ó minn Guð, ó minn Guð,
eg þig bið:
Sorgin sker, send þú mér
sálarfrið.
Freistni' ei staðist fæ eg við,
faðir góður, veit þú lið;
heyr þú barnsins :,: kvein og klið. :,:

4. Hugann synd hrellir blind,

herra minn;
skelfir neyð, dapur deyð,
dómurinn.
Bót og líkn mér, faðir, finn,
freisting í mig leið ei inn,
heldur frelsa :,: þjóninn þinn. :,:

5. Lækna mig, lífs að þig
lofi' eg hér,
hjartans grunn, hug og munn
helgi þér.
Dýrð þér enginn, Drottinn, tér,
dauðanum, sem haldinn er,
heldur sá, er :,: líf þú lér. :,:

6. Veika trú viðrétt þú,
veg minn greið;
lít til mín, léttu pín,
leys úr neyð.
Gef mér, herra, góðan deyð,
Guð, í himnafrið mig leið,
mitt er linnir :,: lífsins skeið. :,:

## 212.

Með sínu lagi.

HJARTKÆRI Jesú, af hjarta eg þrái,
hjálpræðið blessað, að innlífast þér;
drag mig til þín, að eg fundið þig fái,
fjarlæg það alt, er þig skilur frá mér;
eymd mína ljóst fyrir sjónir mér settu,
sýndu mér spillingardjúpið mér í;
holdsviljann deyð og til hjálpar mér réttu
hönd, svo að verði eg skepna þín ný.

2. Styrk mig í anda, lát ástgjafir
þínar,
ástvinur bezti, mér snauðum í té:
helga þér athöfn og hugsanir mínar;
halt mér og styð mig, þótt breyskur eg sé.
Fari sem vill hér um mig og hvað mitt
er,
mér er í hjartanu' að eiga þig nóg;
eigi eg, Drottinn minn, þig og hvað
þitt er,
þá lifi' eg glaður og andast í ró.

3. Ó, að eg fengi til fórnar sem bæri
fært þér mitt hjartað í kærleik og trú;
ó, að minn Jesú mér alt sífelt væri;
æ, ég er honum svo fjarlægur nú!
Jesú, er himin þinn vildir mér veita,
veit mér í heimi þitt fullting og náð,
að eg sem helguðum hæfir að breyta
hegði mér jafnan og vandi mitt ráð.

## 213.

Með sínu lagi.

JESÚ, fyrir fætur þínar
fram eg krýp og hrösun græt;
synda þyrnar sárt mig pína,
sýn mér vægð og upp þá ræt.
Líknar geisla láttu skína,
líknar sólin blíð, á mína
tára-dögg, til dýrðar þér.

## 214.

Lag: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

SYNDUGI maður, sjá að þér,

sál þín svo hólpin verði;
eilíft líf byrjar hver sá hér,
hreina iðrun sem gerði.

2. Hvar sú hin hreina iðrun er,
er þar og kvittan synda;
en sú kvittan hún aflar sér
elsku Guðs til mannkinda.

3. Því fá þeir allir eilíft líf,
sem yfirbót synda vinna;
en andartjón og eymdakíf
iðrunarlausir finna.

4. Drottinn vor Jesús dó á kross,
að deyja syndin mætti;
látum því ekki lifa' í oss
lesti með vondum hætti

5. Gef mér, herra, í hjartað mitt
hreinan iðrunaranda,
svo að mín sál, af syndum kvitt,
syngi þér lof án enda.

## 215.

Með sínu lagi.

Æ, vissir þú, sem viðjar dregur synda,
hve voðaleg er sálar-ánauð þín,
þú myndir slíkt þér eigi láta lynda,
en leita hans, er býður þér til sín.
Ó, heillastund, er hlytir þú,
ef hans á fund í dag þú snúa vildir nú

2. Æ, sæir þú, hve sæl á allar lundir
er sála þess, sem Jesúm elskar heitt;
þú vinskap hans ei hafna lengur mundir,
er hjálp fær þér og alla sælu veitt.

Ó, sigurfrægð, er fengir þú,
ef flýttir þér í dag og bættir ráð þitt nú

3. Æ, gættir þú, hve gott er þar að búa,
er Guðs son hefir sínum búið stað,
við heimi brátt þú baki mundir snúa
og bljúgur flýja krossi Drottins að.
Ó, engla Guðs þíns gleddir þú,
ef Guðs í barna flokk þú snúa vildir nú.

4. Æ, vildir þú nú aðeins algjörlega
með önd og lífi Drotni helga þig,
þú fengir bót við böli hverju' og trega,
í brjóst þitt myndi gleðin flytja sig.
Ó, sæla hvíld, er hlytir þú,
í herrans líknarskaut ef bljúgur flýðir nú.

5. Æ, gætir þú, — þú gætir, ef þú vildir, —
við Guð þig sætt og höndlað náð hans fljótt.
Það tekizt fær, þú fresta því ei skyldir,
því fyr en varir kemur dauðans nótt.
Vorn góða Jesúm gleddir þú,
ef gæfir honum þig með lífi' og sálu nú.

## 216.

Lag: Upp hef eg augun mín.

Í dag er dýrmæt tíð,
í dag er náð að fá;
vor Guð enn líknar lýð,
ef löstum víkur frá.
Kom, aðgæt, aumur þú,

þitt ásigkomulag,
og Krists í nafni nú
tak nýja stefnu' í dag.

2. Sjá, lífs- og líknar-sól
enn ljómar yfir þér,
og sekri skepnu skjól
enn skautið náðar lér.
Ó, lít þín synda-sár,
ó, sjá þinn eymdar-hag;
þú veizt ei nema nár
þú nefnist strax í dag.

3. Í Jesú faðm þú flý,
hann fús þér opnar sig,
og hafna hverju því,
er hefir svívirt þig.
Þú fær ei sælu' að sjá
með saurugt hjartalag;
því vík nú vondu frá
á veginn Guðs í dag.

4. Enn hljóta hjörtu frið,
er herrans miskunn þrá;
enn opnast himna-hlið,
og hnoss er æðst að fá;
enn kemstu', ef keppir þú,
við Krist í samfélag;
til boða næg er nú
þér náðin enn í dag.

5. Er linnir lífsins stund,
þér lokast himna dyr,
ef Krists ei komstu' á fund
með klökku hjarta fyr;

því bættu brátt þitt ráð,
og betrun eigi drag;
þigg Drottins dýrstu náð
í dag, í dag, í dag.

## 217.

Lag: Jesús grætur, heimur hlær.

KOM til Jesú, sjúka sál,
sár þín vill hann mýkja' og græða;
lát þig heims ei lokka tál,
lát þig gjálíft spott ei hræða;
haf þú veikleik holds í minni,
hygg þú vel að spilling þinni.

2. Krjúp þú Jesú krossi hjá,
klökk og auðmjúk seg af hjarta:
Læknir bezti, sár mín sjá,
sjúkleik um eg hlýt að kvarta;
helgri dreyra-dögg með þinni,
Drottinn, eyð þú spilling minni.

## 218.

Lag: Af djúpri hrygð ákalla' eg þig.

ÚR hrygðar djúpi hátt til þín,
ó herra Guð, eg kveina;
þitt blessað eyra beyg til mín,
svo bót eg fái meina.
Ef reikna viltu misgjörð manns
og muna gjörvöll brotin hans,
hver stund fær staðist eina?

2. Af ást, sem ræður ein hjá þér,
þú illgjörð kvittar mína.
Ei gildir neittt, sem gjörum vér,
vor góðverk breyskleik sýna.

Hjá þér vor hrósun engin er,
þig óttast, Drottinn, hverjum ber
og miskunn þiggja þína

3. Eg alt mitt traust set æ á þig,
en ei á verðung mína;
mitt hjartað særða huggar sig
við hjartans elsku þína;
þín blessuð náð, sem eilíf er,
og orð þitt blítt mér gleði lér,
unz æfidagar dvína.

4. Þótt dragist, Guð, þín hjálp um
og hagsæld lífs mig bresti, [hríð
í trú og von þíns tíma' eg bíð,
þinn tími' er æ hinn bezti;
þú veizt, nær hjálpin hollust er,
í hverri neyð þá vissu mér
í huga fast eg festi.

5. Þótt mörg og stór sé mannleg
þín miskunn þó er stærri; [synd,
þín tæmist aldrei líknarlind,
þín liðsemd æ er nærri;
þú barna gætir veikra vel
og vottar skýrt þitt föðurþel;
þín náð er himnum hærri.

## 219.

Lag: Hvað hefir þú, minn hjartkær Jesú, brotið?

Ó, Drottinn Guð, eg man til synda
minna,
en meira þó til velgjörninga þinna.
Þótt séu öll mín afbrot fjöllum hærri,
þín ást er stærri.

2. Eg móti þér hef mörgum sinnum brotið,
en miskunn þína ótalsinnum hlotið.
Ó, virtz þú enn að hylja misgjörð mína,
og miskunn sýna.

3. Mig hreinan þvo úr líknar þinnar lindum,
og lauga mig af öllum mínum syndum,
svo hreinn eg verði' og hvítur eins og [mjöllin,
sem hjúpar fjöllin.

4. Nú skapa, Guð, mér hreint í brjósti hjarta,
svo helga þína mynd eg spegli bjarta;
og styrk að nýju afl í anda mínum
með anda þínum.

## 220.

Lag: Far, heimur, far sæll.

Eg þrái fund þinn,
eg þrái' að sjá dýrð þína, frelsari minn;
því hégómi' og reykur er heimsins glys alt,
og hverfult hans lán og hans ágæti valt,
og eymdanna þyrnum er æfi- stráð -leið,
:,: unz endar lífs skeið. :,:

2. Og syndanna sekt,
hún særir og þjáir æ hjarta mitt frekt;
eg líkama dauðlegum frelsast vil frá,
svo fái' eg um eilífð að vera þér hjá;
en hræðist þó dauðann og dómsúrskurð [þinn,
:,: ó, Drottinn, Guð minn. :,:

3. Mín þreytt sál og þjáð

hjá þér leitar athvarfs og biður um náð;
því miskunnar-faðminnn æ þú breiðir
þinn
mót þeim, sem að játa þér misgjörning
sinn
og trúandi' og iðrandi tilbiðja þig.
:,: Æ, tak að þér mig. :,:

4. Æ, legg þú mér lið,
svo lifi' eg þér, Drottinn, en synd
skiljist við;
á meðan að náðarfrest mér veitir þú,
svo mig undir burtfararstundina bú,
að feli' eg þá öruggur frelsaða önd
:,: í föður míns hönd. :,:

## 221.

Lag: Upp hef eg augun mín.

MEÐ iðrun, auðmýkt, trú
vor afbrot játum vér
í hjartans nauðsyn nú,
ó, náðarfaðir, þér.
Æ, sýn oss sekum vægð
og sálar meinin græð;
æ, veit oss hugarhægð
og huggun þinni gæð.

2. Ó, Guð, hve sæll er sá,
hvers synd er burtu máð
og frjáls því fagna má,
að fundið hafi náð;
þú ert hans einkahlíf
í öllu stríði' og neyð,

hans athvarf, ljós og líf,
þá lyktar æfiskeið.
3. Vér sælu þráum þá,
að þína hljótum náð;
æ, lát oss frið þinn fá,
svo fagni hjörtun þjáð;
og veit oss líkn og lið
í lífsins stríði hér,
en eilíft frelsi' og frið
og farsæld loks hjá þér.

## 222.

Lag: Rís upp, mín sál, og bregð nú blundi.

Eg fell í auðmýkt flatur niður
á fótskör þína, Drottinn minn:
mitt hjarta bljúgt og heitt þig biður
um hjálp og náð og kraftinn þinn,
að sigra hverja synd og neyð,
er særir mig um æfiskeið.

2. Á hjarta mínu sárin svella,
er synd og mæða þung mér bjó;
þú veizt, hve margt vill hug minn hrella
og helgri svifta von og ró,
ó, snert þú mína aumu önd
með elskuríkri föðurhönd.

3. Mér sendu hjálp af himni þínum,
og helgan láttu anda þinn
með guðdómsvarma vekja sínum
hinn veika trúarneista minn
og helga þannig hug og sál,
að hegðun lofi þig og mál.

223.

Lag: Far, heimur, far sæll.

Ó, sál mín er særð,
því syndanna hrellir mig geigvænleg stærð.
Þær hóta mér skelfing og hegning og neyð,
og hættan er mikil og torfær mín leið.
Eg get mér ei bjargað og gleði mín þver;
:,: ó, Guð, hjálpi mér. :,:

2. Þú volaðra vin,
sem vort hefir friðkeypt hið sakfallna kyn,
sem alt getur helgað og blessað og bætt
og blómgað og frelsað og lífgað og grætt
með ástinni himnesku, aldrei sem dvín,
:,: eg enn flý til þín. :,:

3. Ó, Kristur minn kær,
þú kærleikans eilífi brunnurinn skær,
af líkn þinni afmá þú sekt mína' og synd,
og svala mér þyrstum af miskunnar lind;
æ, betra mitt hjarta með blessaðri náð,
:,: svo bæti' eg mitt ráð. :,:

4. Um lífdaga leið
mig leið þú og styð þú í gleði' og í neyð;
æ, veit mér að standast í stríðinu hér,
æ, styrk mig, svo trúlega fylgi eg þér,

unz eg þig í dýrðinni frelsaður finn,
:,: ó, frelsari minn. :,:

## 224.

Lag: Aví, aví, mig auman mann.

JESÚ minn, Jesú minn, ég kem hér;
á þinn fund alla stund æski' eg mér.
Marga þunga byrði' eg ber,
bót, sem dugir, hvergi er
annarsstaðar :,: en hjá þér. :,:

2. Hættan veg hræðist eg, hvert sem sný,
syndga þrátt, safna brátt sekt með því.
Æ er búin neyðin ný,
nálgast dauðans þrumuský;
Drottinn, því til :,: þín eg flý. :,:

3. Orð þín mig mildilig minni' eg á:
Kýs hjá þér kærsta mér kveðju þá:
"Kom, hinn þjáði, þín mér hjá
þreytta sálin hvíld skal fá."
Eg er þreyttur, :,: líkn mér ljá. :,:

4. Líf er valt, lán þess alt laust eg finn;
hugdirfð flýr, háska býr heimurinn.
Vill mig færa' í fjötur sinn
frelsa lát mig kraftinn þinn
þér til dýrðar, :,: Drottinn minn. :,:

5. Aumka mig og við þig einan bind,
svala þrá, sjúkleik frá sálu hrind.
Gef mér bergja lífsins lind,
lát mig ekki deyja' í synd,
skrýð mig þinni :,: skírri mynd. :,:

## 225.

Lag: Rís upp, mín sál, að nýju nú.

TIL himins upp eg augum lít,
því ofan þaðan hjálpar nýt,
minn Jesú, blíði bróðir.
Ei ómaklegan af þér slít,
ó, Jesú, Jesú góði.

2. Því vötnin æða voðalig
og vilja' í djúpið svelgja mig,
minn Jesú, blíði bróðir.
Eg alla von á einn set þig,
ó, Jesú, Jesú góði.

3. Í hörmungunum, herra minn,
upp horfa' eg vil á krossinn þinn,
minn Jesú, blíði bróðir.
Þar Guðs míns elsku' eg alla finn,
ó, Jesú, Jesú góði.

4. Mín sál er hungruð hrygg og þjáð,
og hjartað þyrstir eftir náð,
minn Jesú, blíði bróðir;
en einn ert þú mitt athvarf þráð,
ó, Jesú, Jesú góði.

5. Mitt hjartað þyrsta svalar sér
og saðning öndin fær hjá þér,
minn Jesú, blíði bróðir;
og friðarskjól þar eilíft er,
ó, Jesú, Jesú góði.

6. Mig langar heitt, því þrautir þjá,
með þér að vera himnum á.
minn Jesú, blíði bróðir,

og auglit þitt um eilífð sjá,
ó, Jesú, Jesú góði.

7 Því styttu nú mitt stríð og
þraut;
mér stýrðu' á rétta sigurbraut,
minn Jesú, blíði bróðir,
þitt inn í friðar eilíft skaut,
ó, Jesú, Jesú góði.

8. Þar vil eg gleði-sætan söng
þér syngja' um eilíf dægur löng,
minn Jesú, blíði bróðir,
sem eymd barst mína og öll verk röng.
Ó, Jesú, Jesú góði.

## 226.

Lag: Sólin ljóma sínum skrýdd.

SONUR Guðs vor ástvin er!
Orð er það, sem dauða vekur.
Hæli býður hann hjá sér,
heljar neyð er skelfa tekur.
Flý þú, sála hreld, til hans,
hann er vinur syndarans.

2. Sonur Guðs vor ástvin er!
Oss til lífs hann veginn greiðir,
og oss mót, er mæðumst vér,
miskunnsamur faðminn breiðir.
Flý þú, sála hreld, til hans,
hann er vinur syndarans.

3. Sonur Guðs vor ástvin er!
Oss í helgu skírnarbaði
lagði hann að hjarta sér,
hann oss Guði sameinaði.

Flý þú, sála hreld, til hans,
hann er vinur syndarans.

4. Sonur Guðs vor ástvin er,
oss er dauðinn því ei skæður.
Jesús, lífið sanna, sér
sæma lét að kalla' oss bræður.
Flý þú, sála hreld, til hans,
hann er vinur syndarans.

5. Ástvin bezti, þökk sé þér,
þú oss líknar aumri hjörðu;
vald um eilífð þitt ei þver,
þú ert Guð á himni' og jörðu.
Sálna vinur, sífelt skýrð
sé þér vegsemd, lof og dýrð.

## 227.

Lag: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

JESÚS er minn hollur hirðir,
hann fyr' mig sitt líf út gaf;
vonarlaus eg annars yrði
örvæntingu' að pínast af.
Saklaus mína sekt hann bar,
særður fyrir brot mín var.
Hverjum, sem um huggun biður,
herrans Jesú veitist friður.

2. Jesús er minn hollur hirðir,
hann minn sterki verndarmúr.
Hver mér óvin ögra þyrði,
eða slíta' hans vörzlum úr?
Allra fénda vél og völd
víkja fyrir þessum skjöld.

Hetjan sú, er sigrað hefur,
sig'rinn mér í hendur gefur.

3. Jesús er minn hollur hirðir,
hjálpin góð í rauna þrá.
Þótt mig þyrnar stundum stirðir
stingi, græðir hann mig þá.
Þótt eg ráfi' um dauðans dal,
dirfa mig sú huggun skal:
Hann vill mig, þá heim skal kveðja,
himna' í sælu' um eilífð gleðja.

4. Jesús er minn hollur hirðir,
hvergi neitt mig bresta má.
Lítt um glysið heims eg hirði,
hans af táli' eg vel má sjá.
Minn er Jesús alt mér einn,
orðin hans minn leiðarsteinn,
dauði' hans huggun hreldu geði,
hans mér vegsemd eilíf gleði.

## 228.

Lag: "Rock of Ages."

BJARGID alda, borgin mín,
byrg þú mig í skjóli þín.
Heilsubrunnur öld og ár
er þitt dýra hjartasár.
Þvo mig hreinan, líknarlind,
lauga mig af allri synd.

2. Heilög boðorð, herra, þín
hefir brotið syndin mín;
engin bót og engin tár
orka mín að græða sár;

ónýtt verk og ónýt trú;
enginn hjálpar nema þú.
3. Titrandi með tóma hönd
til þín, Guð, eg varpa önd;
nakinn kem eg, klæddu mig.
krankur er eg, græddu mig,
óhreinn kem eg, vei, ó, vei,
væg mér, herra, deyð mig ei!
4. Þegar æfi-þrautin dvín,
þegar lokast augun mín,
þegar eg við sælli sól
sé þinn dóms og veldis stól;
Bjargið alda, borgin mín,
byrg mig þá í skjóli þín!

---

# VII.
# Kristilegt líf.

## 229

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

JEG er kristinn, jeg vil leita,
Jesú, þín af hug og trú.
Jeg er kristinn, jeg vil breyta,
Jesú minn, sem kendir þú.
Jeg er kristinn, jeg vil þig,
Jesú, biðja' að leiða mig.
Jeg er kristinn, jeg vil mæna,
Jesú, til þín augum bæna.
2. Jeg er kristinn, jeg vil láta,
Jesú, orð þitt lýsa mér.

Jeg er kristinn, jeg vil gráta,
Jesú, mína synd hjá þér.
Jeg er kristinn, jeg á þig
Jesú minn, vil reiða mig.
Jeg er kristinn, jeg skal vera,
Jesú, ok þitt fús að bera.

3. Jeg er kristinn, jeg vil þreyja,
Jesú, unz þú kallar mig.
Jeg er kristinn jeg vil deyja,
Jesú minn, í trú á þig.
Jeg er kristinn, jeg mun fá,
Jesú, þína dýrð að sjá.
Jeg er kristinn, jeg mun gjalda
Jesú prís um aldir alda.

## 230.

Lag: Nú gjaldi Guði þökk.

MEÐ Jesú byrja jeg,
með Jesú vil eg enda
og æ um æfiveg
hvert andvarp honum senda.
Hann er það mark og mið,
er mæni' eg sífelt á;
með blessun, bót og frið
hann býr mér ætíð hjá.

2. Ef Jesúm jeg æ hef,
um jörð eg minna hirði,
um heimsins glys ei gef
og glaum hans einkis virði;
mitt bætir Jesús böl,
mér byrðar léttir hann;

ef hann á hjá mér dvöl,
mig hrella neitt ei kann.

3. Með Jesú vaki jeg,
með Jesú vil eg sofa,
með Jesú vel mér veg
og vil minn Drottin lofa;
mig Jesú forsjá fel
eg fús á hinzta beð:
það sízt má segjast hel,
er sjálft er lífið með.

4. Mer, Jesú, göngu greið
um götu lífsins alla,
því oft á æfileið
eg annars hlyti' að falla;
ef einn eg hrektist hér,
eg hrektist villur í;
en ef þú ert hjá mér,
er aldrei hætt við því.

5. Af allri sál og önd
mig allan þér eg færi:
mitt hjarta, tungu' og hönd
þér helga' eg, Jesú kæri.
Ó, tak það, Guð minn, gilt,
og gef eg æ sé þinn;
gjör við mig sem þú vilt,
þinn vilji æ sé minn.

## 231.

Lag: Guðs son kallar: komið til mín.

MINN Guð, á rétta lífsins leið
mig leið þú fyrir Jesú deyð
með hjástoð heilags anda.

Gegn svikum heims mér hjálpa þú,
lát hjarta mitt í sannri trú
um æfi stöðugt standa.

2. Ó, gef, að aldrei ginni mig
það glys, er skilur sál við þig,
en veit eg voðann sjái;
á elsku þína mig þú minn,
lét mér ei gleymast dómstól þinn,
svo vel eg vakað fái.

3. Ó, lát mig, Guð minn, lifa þér,
ó, lát mig stöðugt halda mér
við þig og vegu þína.
Gef, herra, frið í hjarta mitt,
og heim mig leið í ríki þitt,
er reynsludagar dvína.

## 232.

Með sínu lagi.

VID freistingum gæt þín
og falli þig ver,
því freisting hver unnin
til sigurs þig ber.
Gakk öruggur rakleitt
mót ástríðu-her,
en ætíð haf Jesúm
í verki með þér.

2. Hinn vonda soll varast,
en vanda þitt mál
og geymdu nafn Guðs þíns
í grandvarri sál;
ver dyggur, ver sannur,
því Drottinn þig sér,

haf daglega Jesúm
í verki með þér.

3. Hver sá, er hér sigrar,
skal sigurkrans fá;
í trúnni vér vinnum,
þótt verði margt á;
því sá, er oss hjálpar,
við hrösun oss ver.
Ó, hafðu þinn Jesúm
í verki með þér.

## 233.

Lag: "Nearer, my God, to Thee."

HÆRRA, minn Guð, til þín,
hærra til þín,
enda þótt öll sé kross
upphefðin mín;
hljóma skal harpan mín:
:,: hærra, minn Guð, til þín, :,:
hærra til þín.

2. Villist eg vinum frá
vegmóður, einn,
köld nótt sé kringum mig.
koddi minn steinn,
heilög sé heimvon mín:
:,: hærra, minn Guð, til þín, :,:
hærra til þín.

3. Sofanda sýn mér þá
sólstigans braut,
alfaðir, upp í þitt
eilífa skaut;
hljómi þá hátt til mín:

:,: hærra, minn Guð, til þín, :,:
hærra til þín.

4. Árla eg aftur rís
ungur af beð
guðshús úr grýttri braut
glaður eg hleð.
Hver og ein hörmung mín
:,: hefur mig, Guð, til þín, :,:
hærra til þín.

5. Lyfti mér lengst í hæð
lukkunnar hjól
upp yfir stund og stað,
stjörnur og sól,
hljóma skal harpan mín:
:,: hærra, minn Guð, til þín, :,:
hærra til þín.

## 234.

Lag: Sæti Jesú, sjá oss hér.

LÆRDÓMSTÍMI æfin er,
ó, minn Drottinn, veit eg geti
numið alt, sem þóknast þér,
þína speki dýrast meti.
Gef eg sannleiks gulli safni,
gef í vizku' og náð eg dafni.

2. Vinnutími æfin er.
Ár og síð á lífstíð minni,
Drottinn minn, til dýrðar þér
dyggilega gef eg vinni.
Gef mín störf til góðs æ leiði
gef þau út þitt ríki breiði.

3. Reynslutími æfin er.

Ó, minn Guð, mig veikan leiddu;
gegnum böl, sem mætir mér,
mína leið til heilla greiddu.
Veit, í trú eg vakað fái;
veit, eg sigri góðum nái.

4. Náðartími æfin er.
Að því, Drottinn, lát mig hyggja,
sú að nauðsyn mest er mér,
miskunn þína' í tíma að þiggja.
Yfirbótar unn mér, herra,
æfidagar fyr en þverra.

## 235.

Lag: Hver, sem ljúfan Guð lætur ráða.

Ó, þú lífgjafinn Adams sona,
þú ástríkasti Jesú minn,
mín trúar-augu á þig vona
og endurlausnar-kraftinn þinn.
Æ, lát þinn anda leiða mig
um ljóss og náðar bjartan stig.

2. Lát þú ei heimsins glys mig ginna,
æ, geym þú mig í faðmi þér;
mér innræt sannleik orða þinna,
er eymd og kvíði hjartað sker,
svo ljósið þeirra lýsi mér,
þá leiðin myrk og torveld er.

3. Mitt hold er veikt í heimsins stríði,
mig herklæð, Drottinn, þinni vörn.
Svo þinni rödd mitt hjarta hlýði,
þín hönd mig styðji líknargjörn.
Ó, herra, verm þú hjartað mitt
við helga náðar-brjóstið þitt.

4. Lát elsku þinnar ímynda skína,
ó Jesú, skært í hjarta mér,
og þegar reynslu-dagar dvína
og dauðans bylgjur hreifa sér,
æ, svala náðarþyrstum þá
mér þinnar líknar straumum á.

## 236.

Með sínu lagi.

EG geng í hættu, hvar eg fer,
ó, haf það, sál, í minni;
við fótmál sérhvert óvin er
með egndri snöru sinni;
hans vélráð voðalig
í voða fella mig,
ef Guð, mitt vígi, gleymist mér;
eg geng í hættu, hvar eg fer.

2. Eg geng í hrelling, hvar eg fer,
og hlýt við synd að stríða,
og hirting, sem er makleg mér,
eg marga hlýt að líða,
oft felmtri fyllist eg
sé færan hvergi veg,
þá grátheims þokan geigvæn er;
eg geng í hrelling, hvar eg fer.

3. Eg geng mót heli, hvar eg fer,
á hverjum æfidegi;
æ, fyrir dyrum dauðinn er,
mér duga varnir eigi.
Fyr vonum vetfang eitt
úr veröld fær mig leitt,

svo geigvæn opnast gröfin mér:
eg geng mót heli, hvar eg fer.

4. Eg geng í heimi hvar eg fer,
með helgum englaskara;
ei þorir djöfull móti mér
og myrkra völd að fara.
Burt, sorg og sút, mér frá;
mér sveitin öflg er hjá,
er grandi mig og glötun ver;
eg geng með englum, hvar eg fer.

5. Eg geng í heimi, hvar eg fer,
með herra Jesú mínum;
hann styrkir mig og stöðugt ver
með styrkum armi sínum.
Hans feril feta eg,
í friði geng minn veg,
þótt grandi spái gjörvalt mér;
eg geng með Jesú, hvar eg fer.

6. Eg geng til himins, hvar eg fer,
ó, hjarta, kvíð þú eigi; [fer.
eg þangað kemst, sem endir er
á öllum þrautavegi.
Burt, heimsins heimskuprjál,
til hæða stefnir sál;
ei glys þitt, veröld, geðjast mér;
eg geng til himins, hvar eg fer.

## 237.

Lag: "Lead, Kindly Light."

SKÍN, ljósið náðar, myrkrin grúfa
grimm,
ó, lýs mér leið,

og langt er heim, en nóttin niða-dimm.
ó, lýs mér leið;
um fjarlægð hulda hirði' eg þá ei neitt,
ef, herra, leiðir þú mig fótmál eitt.

2. Eg ungur var, og eigi bað, að þú
mér lýstir leið;
eg hugðist einfær þá, en þig bið nú
mér lýsa leið.
Ó, gleym því, hversu gálaus mjög eg var,
hve glys og dramb mig ofurliði bar.

3. Eg veit sem fyr þú blessar lífs
míns leið
og lýsir mér
í þrautum enn, í jökulnepju' og neyð,
unz nóttin þver;
og við mér brosa engil-andlit blíð,
sem elskeð hef eg lengi', en mist um
hríð.

4. Svo áfram þá hið þyrnum stráða
skeið,
er þú gekst fyrst,
heim, Jesú, heim, sem ljúfast barn mig
leið
í ljóssins vist.
að hvílast megi' eg eftir æfi-harm
í eilífs friðar ljósi Guðs við barm.

## 238.

Lag: Ó, minn Guð, eg illa breytti.

VERTU trúr í þrautum þínum,
þyngra Jesús reyna hlaut,
hann, er bar á herðum sínum

heimsins synd og krossins þraut.
"Hér ef þú með honum líður,
hans þá dýrð þín seinna bíður."

2. Vertu trúr í trúnni' að stríða,
treystu fast þinn Jesúm á;
hrind þú frá þér hrygð og kvíða,
herra þínum vík ei frá.
"Ef þú trúnni haldið hefur,
hann þér sigur-djásnið gefur."

3. Vertu trúr í kærleik Kristi,
kærleiks hans þú feta braut;
hann þeim jafnvel hjálpa þyrsti,
hans er gjörðu mesta þraut.
"Þú í elsku' ef stöðugt stendur,
styrkur Guðs þér æ er sendur."

4. Vertu trúr í von og glaður,
varla nein þótt sjáir ráð;
það, sem enginn megnar maður,
megnar Drottins öflug náð.
"Bygt á sandi sá ei getur,
sína von til Guðs er setur."

5. Vertu trúr, já trúr til dauða,
trúr, er kemur dauði þinn;
stutt og fljót er stundin nauða,
stór og löng er eilífðin.
"Sá til dauða' er dyggur stríðir,
dýrðar-krónu fær um síðir."

## 239.

Lag: Sjáðu, sjáðu, faðirinn fríði.

MIG lát, Jesú, með þér ganga,
mega rekja fótspor þín,

svo í lífsins stríði stranga
styttist þrautasporin mín.
Lát mig ganga' á ljósum degi,
lát mig ganga' á kærleiksvegi;
gakk þú æ á undan mér,
eg svo megi fylgja þér.

2. Mig lát, Jesú, með þér líða,
mega bera hér þinn kross,
svo eg eftir sáran kvíða
síðar öðlist gleðihnoss.
Eftir táraskúr úr skýjum
skín þín sól með geislum hlýjum.
Hér ef ber eg þraut með þér,
þín mun gleði veitast mér.

3. Mig lát, Jesú, með þér deyja,
minn þú dauða sigrað fékst;
stríðið, er eg átti' að heyja,
í það fyrir mig þú gekst.
Lát mig burt frá löstum deyja,
lífs á meðan hlýt eg þreyja;
lát mig deyja lífs með þér,
lif þú aftur svo í mér.

4. Mig lát, Jesú, með þér lifa,
með þér rísa dauða frá;
lát þú engil bjargið bifa,
brjósti mér er liggur á.
Einn sé jafnan okkar vilji;
okkur líf né dauði' ei skilji;
lát mig ætíð lifa þér,
lífið þitt svo veitist mér.

## 240.

Lag: "Abide with me."

VER hjá mér, herra, dagur óðum dvín:
ó, Drottinn, eg hef lengi saknað þín;
í æskuglaumnum gleymdi sál mín þér;
í gleðidraumnum ugði' eg lítt að mér.

2. Þó lukust upp mín augu, herra kær,
hve ásýnd þín var náðarrík og skær;
ó, hvílík sæla hresti' og gladdi mig;
ó, hvílík sæla, Guð, að finna þig!

3. Ó, herra, dvel nú það sem eftir er,
og aldrei framar lát mig týna þér,
því mér er betri kvöl við Jesú kross,
en konungstign, ef misti þvílíkt hnoss.

4. Senn slokna öll mín litlu gleðiljós,
og líf mitt fjarar senn við dauðans ós,
—og húmið stóra hylur mína brá:
Ó, herra Jesú, vertu hjá mér þá.

## 241.

Lag: Rís upp, mín sál, og bregð nú blundi.

ÞINN vil eg, Jesú, jafnan vera,
þig jafnan elska' af hjartans rót;
eg vil þitt ok með auðmýkt bera
og allri freistni stríða mót;
eg auðsveipinn vil iðja hér
það alt, sem heimtar þú af mér.

2. En viljinn er í veiku gildi,
mig vantar kraftinn, Drottinn minn;
því kom til mín með kærleiks mildi

og kraft af hæðum veit mér þinn.
Til sérhvers góðs eg ófær er,
ef ei þú, Jesú, hjálpar mér.

3. Æ, styrk þú viljann, styrk þú trúna,
æ, styrk mig heimsins vélum gegn;
æ, styrk mig, leið mig braut mér búna,
þótt brjóstið hrelli sorgin megn;
æ, styrk þú mig í stríði' og neyð,
æ, styrk þú mig í lífi' og deyð!

## 242.

Lag: Far, heimur, far sæll.

FAR, veröld, þinn veg,
að vera þér háður nú afsegi eg;
þeim byrðum, sem þú hefir bundið á mig,
eg burt snara frá mér og einkis met
þig.
Eg hverfa vil frá þér og hafna þér nú;
:,: burt, hégómi, þú. :,:

2. Ó, veröld, hve valt
og vesalt og fánýtt er glysið þitt alt;
ei annað en brothætt og gljáandi gler
og glæsileg vindbóla' og skuggi það er:
ei annað en hismi, þótt hnoss sýnist nú;
:,: burt, hégómi, þú. :,:

3. Hvað æfi mín er,
hin óvissa svipstund, sem kemur og fer?
Hvað sorg mín og kæti' og þau verk,
er eg vinn,
mín viturleg forsjá og áhugi minn?

Hvað strit mitt og hugsýki', er hrellir
mig nú?
:,: Burt, hégómi, þú. :,:

4. Þú gull, ert það goð,
sem gjarnast er dýrkað, en völtust er
stoð;
þú ljómandi moldin, þú heimskingja
hnoss,
oft harðastur þínum ert elskendum
**kross;**
að treysta þér, háskaleg heimskan er sú;
:,: burt hégómi, þú. :,:

5. Hvað upphefðin er?
Hvað eru þau djásnin, sem heims tign-
in ber?
Þú virðing, þrátt öfund að baki þér býr,
en blítt mót þér hræsnin að framan æ
snýr;
að halda þig farsæld, er heimskuleg trú;
:,: burt, hégómi, þú. :,:

6. Þú hylli, sem hátt
þeim hreykir, er síðan þú lægir svo
brátt,
þú hverfandi gufa, þú fjúkandi fis,
þú faðmar og afrækir sífelt á mis.
Þá heimska má kalla, sem hafa' á þér
trú;
:,: burt, hégómi, þú. :,:

7. Þú vinfengi valt,
sem veröldin lætur í meðlæti falt,
þú svikarinn fagri, sem brosir svo blítt,

að bregðast í nauðum þér löngum er títt;
á heitorðum þínum eg hefi' enga trú;
:,: burt, hégómi, þú. :,:

8. Þú holdsgleði hætt,
þú hefir svo margan að endingu grætt,
já, tendrað þann neistann, er svikinni sál
að síðustu gjörst hefir eilífðar bál;
í háskann þú leiðir, þótt hýrt brosir nú;
:,: burt, hégómi, þú. :,:

9. Því far þú mér frá,
þú fláráða veröld, þig hætti' eg að þrá;
mig framar ei glepja né ginna þú skalt,
um glys þitt ei hirði' eg né ágæti valt;
mig fýsir að komast af fallhættri braut
:,: í frelsarans skaut. :,:

10. Um endalaus ár
þar eilífa miskunnin þerrar mín tár;
þar sumar ei þrýtur og dagur ei dvín,
því dýrðarsól eilíf þar vermir og skín.
Ó, sigur, ó, fögnuð, að flytjast úr þraut
:,: í frelsarans skaut. :,:

## 243.

Lag: Hásæti fyrir herrans er.

Á Guði traust mitt einum er,
hann ilt ei lét mig henda;
hvort lán eða' ólán hlýt eg hér,
mér hann það veit eg senda.
Á föður milda máttarhönd
eg mig skal jafnan reiða;

hann mína svo að ending önd
í æðstan frið mun leiða.

2. Á einum Guði' er öll mín von;
eg einum Guði treysti
fyr' Jesúm Krist, hans sanna son,
er syndum frá mig leysti;
hann sigrað hefir satans mátt,
mér svo ei næði' að granda.
Á Drotni þeim skal dag og nátt
með djörfung von mín standa.

3 Þótt hætta dynji' og hörmung á,
það hug minn skal ei græta;
á Jesúm Krist eg kalla þá;
hann kvöl vill mína bæta.
Í herrans nafni hvíld og frið
eg hlýt, þá stund er komin,
mun svo hans lýður vakna við
í vegsemd himins. Amen.

## 244.

Lag: Á Guð alleina.

Á Guð hinn góða
með gleði set eg traust;
hans lof vil ljóða
af ljúfum hug og raust.
Hvert mein, sem mætir,
hans milda föðurþel
úr böli bætir
og braut mér greiðir vel;
minn Guð mín gætir,
þótt geysi neyð og hel.

2. Son Guðs hinn góði,

er gaf í dauða sig,
með benja blóði
frá bölvun keypti mig.
Eg er hans eiginn,
því af mér sleit hann bönd;
hann vísar veginn
og veika styrkir önd;
mig fús og feginn
eg fel hans líknarhönd.

3. Mér hjálp að hlýða
þér, hjartans faðir minn;
mig styrk að stríða
og stunda vilja þinn.
Lát, Guð, ei ginna
mig glysið heims frá þér;
svo veit mér vinna
hvert verk, sem kristnum ber,
unz lífs ár linna
og leið alls holds eg fer.

4. Það huga hreldan
æ hugga lát þú minn,
að syndum seldan
mig sonur leysti þinn.
Kenn mér að meta
og mikla gæzku þá
þann feril feta,
að friði megi' eg ná,
og glaður geta
minn grafar beð lagst á.

5. Mér gef með gleði
að ganga veröld frá;
af gæzkugeði

seg, Guðs son, við mig þá:
"Mitt blóð, þíns bróður,
þér brotin öll gaf kvitt;
minn sælusjóður
er síðan óðal þitt;
kom, Guðs vin góður,
og gakk í ríki mitt."

## 245.

Með sínu lagi.

GEGNUM hættur, gegnum neyð
göngum, Krists menn, vora leið.
Hvorki blöskri böl né kross
brauðið lífsins styrkir oss.

2. Hræðumst engin sorgar sár,
sérhvert bráðum þornar tár.
Ótti hreki' oss ei af braut,
orkan vaxi' í hverri þraut.

3. Hugprúð gleðjist hjörtu mædd,
herskrúðanum Drottins klædd.
Berjumst hart; ei hríð er löng:
hún mun enda' í gleðisöng.

4. Áfram því með dug og dáð,
Drottins studdir ást og náð.
Sé hann með oss, ekkert er
óttalegt; þá sigrum vér.

5. Gegnum hættur, gegnum neyð
göngum, Krists menn, vora leið.
Hvorki blöskri böl né kross,
brauðið lífsins styrkir oss.

## 246.

Með sínu lagi.

HVE gott í Jesú ástarörmum
sem ungbarn veikt að blunda fá
og hans í friðarfaðmi vörmum
að finna hvíld, er nauðir þjá!
Hví, sál mín, hugsjúk viltu vera?
Hann vill hið stríða með þér bera;
hans blessuð líkn ei breytir sér:
þér trygð hans blíð ei brugðist hefur,
hann blóð sitt þér að veði gefur,
að guðleg náð ei gleymi þér.

2. Ver þá, mín sál, með glöðu geði
og glöð þig fel í Jesú skaut;
lát þig ei svifta þeirri gleði
um þyrnum stráða æfibraut,
að Guð þinn hefir tár þín talið
og til þess fyrir Krist þig valið,
að verðir þú hans blessað barn.
Af mildi' er hann og miskunn ríkur,
þú mátt því treysta', að þig ei svíkur
í neyð sá faðir náðargjarn.

## 247.

Lag: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

ÞEGAR aðstoð alla brestur
og mér líknað menn ei fá,
einn er vinur allra beztur
eymdabeði mínum hjá,
faðirinn Drottinn himna hár,
hann, sem þerrar öll mín tár,

tekur hjartans tali' á móti,
tungan veik þótt stirðna hljóti.

2. Hörmung öll sem hugann reyrir,
hjálp þá manna farin er,
andvarp hvert, sem enginn heyrir,
augljóst stendur fyrir þér.
Ei þótt skiljist orðið mitt,
eyrað, Guð, það heyrir þitt;
kemst að þínum kærleiks brunni
kvakið mitt frá hjartans grunni.

3. Jeg vil iðja' í Jesú nafni,
Jesú nafnið styrkir mig;
jeg vil biðja' í Jesú nafni,
jafnt á gleði' og rauna stig.
Þótt eg mæðast hljóti hér,
himnum á, er lífstíð þver,
fylling minnar fæ eg vonar,
faðir, vegna Krists, þíns sonar.

---

# VIII.
# Mótlæti og huggun.

## 248.

**Með sínu lagi.**

ÞAÐ er svo oft í dauðans skuggadölum,
að dregur myrkva fyrir lífsins sól;
mér sýnist lokað ljóssins gleðisölum,
öll lokin sund og fokið hvert í skjól.
Ó, Guð, lát enn þó ætíð skína

mér opinn himin þinn, að dýrð eg sjái
þína.

2. Það er svo oft á þröngum lífsins
brautum,
að þróttinn vantar til að hjálpa sér;
eg kemst ei fram úr freistingum og
þrautum,
eg fell, eg hníg, ef þú ei bjargar mér.
Ó, Guð, lát andann ofan stíga
og anda styrkja minn, þá niður vill
hann hníga.

3. Það er svo oft í háum heimsins
glaumi,
að heyrist ekki lífsins friðarmál.
Það heyrist ógnarys í tímans straumi,
en engin rödd, er friði hrelda sál.
Ó, Guð, lát hljóm þinn hærra gjalla,
að heyri' eg þína raust mig elskubarn
þitt kalla.

4. Og þegar dauðans svefn á augu
sígur,
þá sýn mér opinn dýrðar-himin þinn.
Og þegar hold mitt þreytt til hvíldar
hnígur,
ó, þinn send anda til að styrkja minn.
Og þegar lokast aftur eyra,
þitt evangelíum um Jesúm lát mig
heyra.

## 249.

**Lag: Hásæti fyrir herrans er.**

ÞÚ, kristin sála, þjáð og mædd

og þreytt af krossins byrði,
ei vanmegnastu, vertu' ei hrædd,
þótt vilji Drottins yrði;
þrey, þol og líð, bið, vona, bíð;
þitt böl fær góðan enda;
þá neyð er hæst, er herrann næst;
þér hann mun fögnuð senda.

2. Þótt finnist langt að líða þér,
það lítil stund má heita.
Þess gæt, að eilífð eftir fer;
þar æ mun Drottinn veita
oss unun þá, sem aldrei má
upp hugsa mannlegt hjarta.
Ver kyr í lund, sú kemur stund,
sem kveikir ljósið bjarta.

3. Í Jesú nafni bið og bíð,
því brátt þinn ástvin kemur.
Ef ásýnd hans þér birtist blíð,
hvað böl þitt stillir fremur?
Hann græðir sár og sorgar tár
ei sífelt lætur renna.
Þinn hug við alt það hugga skalt,
sem hans þér orðin kenna.

## 250.

Með sínu lagi.

ÁR og síð eg er í voða,
ár og síð þó náð til boða;
aldrei sorg og angist þver,
aldrei dylst þó Jesús mér.

2. Ávalt synda eymd mig grætir,
ávalt Jesús mein það bætir;

ávalt þreytir æfileið,
ávalt léttir Jesús neyð.

3. Stundum hrygð er ströng í geði,
stundum brjóst mitt fyllist gleði;
tíðum hjartað órótt er:
ávalt huggun trúin lér.

4. Sorg og gleði saman fara,
sætt og beiskt í æfikjara
bikarinn er byrlað mér,
blandað lán mitt hlutfall er.

5. Jesú, sjá, hve ég má gráta,
Jesú, virztu hjá mér láta
trúna' á þig, mín blessuð borg,
buga kvíða minn og sorg.

## 251.

Lag: "Jesus, Lover of my soul."

SÁLAR minnar sanni vin,
sæti Jesú, leyf þú mér,
þegar eg af þrautum styn,
þýða hvíld í faðmi þér.
Meðan fara fram hjá él,
fel mig þar ó, Jesú minn.
Leið mig gegnum harm og hel
heim í dýrðar-salinn þinn.

2. Þú ert eina athvarf mitt,
öll mín von er bygð á þér.
Þungar raunastundir stytt,
styrk og huggun veittu mér.
Án þín get eg ekki neitt;
án þín hvergi huggun finn.

Leyf mér hneigja höfuð mitt,
hjartans vin, í faðminn þinn.

3. Jesú minn, þú ert mér alt;
upp hinn fallna reis og styð;
veikum, blindum við þig halt,
veittu hryggum sannan frið.
Á mér liggur sekt og synd,
saurugt margt og rangt eg vinn.
Frá þér streymir lífsins lind
ljúf og tær, ó, Jesú minn.

4. Náðin þín, minn herra hár,
hylur alla mína synd.
Gef mér kraft og græð mín sár,
gef mig prýði æ þín mynd.
Hreinsa lát mitt hjartað kalt,
helgan lífsins straum frá þér.
Veit að gott og göfugt alt
gról' og vaxi' í hjarta mér.

## 252.

Með sínu lagi.

Ó, hvert skal eg flýja, þá hjartað er
þreytt?
Ó, minn Guð, hinum bágstöddu bjarga!
Þú, Guð, einn fær huggun í hörmun-
um veitt.
Því að sorgin, hún mæðir svo marga.

2. Já, þeir eru sælir, er sorgin legst á.
Ó, minn Guð, hinum bágstöddu bjarga!
Þeir hreldu, kvað frelsarinn, hugsvölun
fá.
Því að sorgin, hún mæðir svo marga.

3. Nú ógnarlegt reiðarslag hefir mig hitt.
Ó, minn Guð, hinum bágstöddu bjarga!
Þú, Drottinn, ert einasta athvarfið mitt.
Því að sorgin, hún mæðir svo marga.

4. Ó, Drottinn, eg bið þig, mig yfirgef ei.
Ó, minn Guð, hinum bágstöddu bjarga!
Við brjóst þitt eg ligg, hvort eg lifi' eða dey.
Því að sorgin, hún mæðir svo marga.

## 253.

Með sínu lagi.

Ó, þá náð, að eiga Jesúm
einkavin í hverri þraut!
Ó, þá heill, að halla mega
höfði sínu í Drottins skaut!
Ó, það slys, því hnossi' að hafna,
hvílíkt fár á þinni braut,
ef þú blindur vilt ei varpa
von og sorg í Drottins skaut.

2. Eigir þú við böl að búa,
bíðir freistni sorg og þraut,
óttast ekki, bænin ber oss
beina leið í Drottins skaut.
Hver á betri hjálp í nauðum?
Hver á slíkan vin á braut,
hjartans vin, sem hjartað þekkir?
Höllum oss í Drottins skaut.

3. Ef vér berum harm í hjarta,
hryggilega dauðans þraut,

þá hvað helzt er herrann Jesús
hjartans fró og líknar skaut.
Vilji bregðast vinir þínir,
verðirðu' einn á kaldri braut,
flýt þér þá að halla' og hneigja
höfuð þreytt í Drottins skaut.

## 254.

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

HANN lifir, sem til lífs mér dó:
hann lifir það er hjarta fró,
er gleðin blíð á burtu flýr
og baki við mér heimur snýr;
eg huggast vil og hugsa þá:
Mér hjálp er vís, því Krist eg á.

2. Hann lifir, sem til lífs mér dó;
hann lifir, það mér veitir ró,
er hræðast verð eg veikleik minn
og vanmáttkan til góðs mig finn;
mín huggun þá sú hugsun er,
að hjálpar Jesús veikum mér.

3. Hann lifir, sem til lífs mér dó;
hann lifir, af því hlýt eg ró
þá sviða valda synda spjót,
er samvizkunni drífa mót;
eg veit, að hann sem deyddi deyð,
með dauða syndar eyddi neyð.

4. Hann lifir, sem til lífs mér dó;
hann lifir, það er hreldum ró,
er ástvinir, sem á eg hér,
á undan kallast burt frá mér.

Það huggar mig: Eg ástvin á,
sem aftur vill mér gefa þá.

5. Hann lifir, sem til lífs mér dó;
hann lifir, sú er huggun nóg;
er dapur ógnar dauðinn mér,
eg djarfur honum móti fer
og segi: Vertu velkominn,
eg veit, þig sendi Jesús minn.

## 255.

Lag: Hásæti fyrir herrans er.

Á einum Guði' er alt mitt traust,
eg engu skal því kvíða.
Mitt hjartans angur efalaust
hans ástin þekkir blíða;
og á mig harma efnin vönd
þótt ærin vilji leita,
Guðs almáttuga hægri hönd
því hægt kann öllu' að breyta.

2. Hið innra sál mín angur ber;
eg oft má til þess finna;
hún kvíðir þungum hefndum hér,
er hún nam til að vinna.
Mín samvizka' óttast synda grönd,
þær sorgir hugann mæða;
en Drottins ein má hægri hönd
mín hjartasárin græða.

3. Hið ytra' er hold af harmi þjáð,
að herðum krossinn þrengir,
og því meir bilar þol og dáð
sem þrautatímann lengir;
en ekkert finst um lög né lönd

er linun veita megi,
míns nema Drottins hægri hönd:
um hjálp hún synjar eigi.

4. Eins manna stoð og styrkur
það stofnar oft til nauða; [bregzt;
með sorgum æfin áfram dregst
og endar loks með dauða.
Við hold er skilja hlýtur önd
og hérvist ljúka sinni,
Guðs almáttuga hægri hönd
þá hjúkri sálu minni.

5. Í mínum Guði' eg huggun hef
í hverri neyð, sem mætir;
á vald hans mig og vilja' eg gef,
því veit eg, hann mín gætir;
þótt synda, eymda' og sorga bönd
mig særa vilji' og meiða,
Guðs almáttuga hægri hönd
mun hjálpa' og þau af greiða.

6. Sá Guð er trúr, sem trúi' eg á;
eg treysti' ei öðrum herra.
Hans blessuð forsjón bezt mun sjá,
nær bölið mitt skal þverra.
Sem aldan hafs þótt æði' að strönd,
ei of langt komist getur,
sín takmörk Drottins hægri hönd
eins hverri mæðu setur.

7. Nú lofa' eg Guð; eg fékk nú
nú finn eg engan kvíða; [frið;
eg veit, mér Drottinn veitir lið,
því vil eg þreyja' og bíða;

mín annast Jesús efnin vönd
og allan mýkir trega;
hans almáttuga hægri hönd
mér hjálpar eilíflega.

## 256.

Lag: Óvinnanleg borg er vor Guð.

ÞÚ, Guð, ert minn, eg á þig að,
eg er í höndum þínum;
mitt veika hjarta huggar það
á harmaferli mínum.
Eg veit, þitt voldugt ráð
er vizka dýr og náð;
því gleðst eg, Guð, í þér,
er gleðisólin mér
í heimi hverfur sýnum.

2. Þótt hrygðar dimm mig skelfi
mig skal ei vonir bresta, [ský,
í þinnar ástar faðm eg flý,
og finn þar skjólið bezta.
Sem barn við móður barm
þar bættan fæ eg harm;
þar hlýt eg heilla gnótt,
þar hvílir sál mín rótt
og öðlast unun mesta.

3. Þú grátnum börnum gleymt ei
ó, Guð, minn harm það bætir; [fær,
þín blessuð hjálp og hlíf er nær
í hverri neyð, sem mætir.
Burt, hrygð, úr hjarta mér,
mín huggun Drottinn er;
hans eilíf ást og náð

mitt annast gjörvalt ráð;
hann mér til góðs mig grætir.

## 257.

Lag: Sæti Jesú, sjá oss hér.

ÉG er Guðs og Guð er minn,
Guði frá mig ekkert skilur;
undir krossi frið eg finn,
föðurþel sitt Guð ei dylur;
kærleiks vafinn er eg örmum
einnig mitt í neyð og hörmum.

2. Guðs börn sá í tárum títt
tímans hér á köldum vetri;
en er sælusumar blítt
síðar skín í löndum betri,
æðst og dýrust unaðsgæði
upp þau skera af tára sæði.

## 258.

Lag: Ó, Guð, þér hrós og heiður ber.

ÞÚ græddir alla auma menn,
sem á þig trúðu, Jesú minn;
en söm er líkn þín sífelt enn,
og samur enn er máttur þinn.

2. Því skal það einka-ahvarf mitt
í allri lífsins neyð og þrá,
til þín að hverfa' og hjálpráð þitt
í heitri trú að kalla á.

## 259.

Lag: Enn í trausti elsku þinnar.

UPP til þín, sem öllum hefur
eilíft búið hjálparráð;

upp til þín, sem öllum gefur
andar svölun, líf og náð,
sig úr djúpi sorgar hefur
sál mín örmædd, hreld og þjáð.

2. Þér eg niður fell við fætur,
friðar hæsti gjafarinn;
þar mín öndin þreytta grætur,
þar minn griðastað eg finn;
vinn þú mínu böli bætur,
bezti vinur, Jesú minn.

3. Ó, mig þjáir eymd og mæða,
ó, mig hrellir böl og synd;
ótal sár mér aumum blæða,
önd mín stynur, veik og blind;
hana að eins eitt má græða:
Unda þinna blessuð lind.

4. Lít í náð til meina minna,
mildi Jesú, líknarhár;
ó, eg lít til unda þinna,
er mín blæða harmasár;
lát mig huggun hjá þér finna,
hörmunganna þerðu tár.

5 Þú einn veizt, hvað þjáðu hjarta
þrengir böls á huldri leið.
Eg vil biðja', en ekki kvarta
undir minni þungu neyð;
lát þíns friðar ljósið bjarta
lýsa mér um reynslu skeið.

6. Helgrar trúar sönnu sæði
sá þú djúpt í hjarta mér;
veit mér þrek og þolinmæði.

þegar neyð að höndum ber;
veit, þinn, Jesú, veg eg þræði,
veit eg deyi' í faðmi þér.

## 260.

Lag: Á hendur fel þú honum.

ÞÚ einn, í ljós er leiddir
það líf, er aldrei dvín,
og sjálfan dauðann deyddir,
ó, Drottinn minn, til þín
eg leita lífs í mæðum,
því líf og sál er þreytt;
æ, send mér hjálp af hæðum,
er huggun fái veitt.

2. Eg stend í þungu stríði,
og styrk mig brestur þrátt,
mig særir sút og kvíði;
ó, sjá, hve eg á bágt;
því synd og sorg og mæða
mig sífelt leitar á;
en ótal undir blæða
og öndu veika þjá.

3. Eg hlýt það hreldur finna,
að hjarta mitt er spilt;
eg ei má yfirvinna
það alt, er fær mig vilt.
Ó, send mér vizku sanna,
að sjá þá réttu leið,
og fjötur freistinganna
af fótum mínum greið.

4. Þitt lífsins ljósið bjarta
æ, lát þú, Drottinn minn,

í mínum hug og hjarta
æ hafa bústað sinn;
á friðar leið það lýsi
um lífsins sporin myrk
og réttan veg mér vísi
með von og trúarstyrk.

## 261.

Lag: Óvinnanleg borg er vor Guð.

KOM, huggari, mig hugga þú,
kom, hönd, og bind um sárin,
kom, dögg, og svala sálum nú,
kom, sól, og þerra tárin,
kom, hjartans heilsulind,
kom, heilög fyrirmynd,
kom, ljós, og lýstu mér,
kom, líf, er æfin þver,
kom, eilífð, bak við árin.

## 262.

Lag: Andinn Guðs lifanda.

DROTTINN minn Guð, þú ert bjarg
mitt og borg,
brugðist þú getur mér eigi;
þú ert mitt athvarf í sérhverri sorg,
sól mín á harmanna degi.
frelsisins merki eg hef upp hátt,
hjálpin úr upphæðum kemur brátt.
2. Drottinn minn Guð, þú ert vernd
mín og vörn
voðans í ólgandi flóði.
Frelsa þú lýð þinn og blessa þín börn,
blessaði faðirinn góði.

Lifandi Drottinn, eg lofa þig.
ljósanna faðir, ó, bænheyr mig.

263.

Lag: Sjáðu, sjáðu, faðirinn fríði.

KOM, og þerðu kinnar mínar.
Kom, og hugga grátinn mig.
Kom með helgar hendur þínar.
hjálpa mér! nú bið eg þig:
Kom þú, athvarf allra manna,
örugg hjálp, og lífið sanna.
Kom með friðarfaðminn þinn,
frelsaðu mig, Jesú minn.

---

# IX.
# Dauði og eilífð.

## 1. Kristilegur viðbúnaður.

264.

Með sínu lagi.

UM dauðann gef þú, Drottinn, mér
eg dag hvern hugsa megi;
að brátt mín lífstíð liðin er.
það lát mér gleymast eigi;
mitt hjarta upplýs, herra minn,
að hræðast kunni' eg dóminn þinn,
er hefst á hinsta degi.

2. Sem þverhönd ein er æfin breið.
mig allfátt kann að hugga,

og löngum þreytir lífsins skeið,
en launsvik fjendur brugga.
Svo stutt og fallvölt æfin er,
að einkum henni líkja ber
við skjótt burt horfinn skugga.

3. Vort æfiblóm er sorg og sút
og svo sem grasið vallar;
vort líf sem ræða líður út
og lesnar sögur snjallar;
sem fuglar burtu fljúgum vér,
eins fljótt og straumur hraðast fer
Guð menn úr kífi kallar.

4. Þótt margir menn í heimi hér
sig hégómlega mæði,
sú fyrirhöfn til einkis er,
sinn auð og ríkdómsgæði
þeir vita' ei hót, hver hljóta skal.
Mér, herra, kenn mitt dagatal,
svo vísdóms veg eg þræði.

5. Þú ert, minn Guð, mitt athvarf [bezt.
eg aðstoð þinni treysti;
ver gleði sálar minnar mest,
ver mínum veikleik hreysti;
hjálp mér í dauðans döpru pín,
ó, Drottinn, varðveit sálu mín,
er sjálfur son þinn leysti.

## 265.

Lag: Um dauðann gef þú, Drottinn, mér.

MÍN lífstíð er á fleygiferð,
eg flýti mér til grafar;
að litlum tíma liðnum verð

eg lagður nár án tafar.
Þú dauðleg' vera, dvel ei þá,
þinn dauða fljótt að minnast á.
Það ráð er þörf að hafa.

2. Eins og þú vildir óska þér
í andláts síðstu mæði,
að lifað hefðir, lifðu hér
í lukku' og þrautum bæði.
Öll hefð og metorð heimsins þá
sem hismi verða metum á
við himna vegin gæði.

3. Þótt að oss sæki sótt og hel,
vér samt því megum trúa,
að hér ef lifað höfum vel
oss heim er gott að snúa
til Drottins, og í dýrðarvist
frá dauða leystir fyrir Krist
við sælu' og blessun búa.

## 266.

Lag: Hver veit, hvað fjarri' er æfi endi.

HVER veit, hve nærri' er æfi endi?
Sem örskot flýgur tíðin hjá.
Hve fljótt mér borið fær að hendi.
að falli mitt hið veika strá!
Mér afdrif síðast gef þú góð,
ó, Guð minn, fyrir Jesú blóð.

2. Í morgun lífs eg fór á fætur,
þó fundist nár eg get í kvöld,
því eins um daga' og dimmar nætur
æ dauðans reidd er höndin köld.

Mér afdrif síðast gef þú góð,
ó, Guð minn, fyrir Jesú blóð.

3. Æ, kenn mér, Drottinn, daga hvern dag að gjöra yfirbót, [að telja,
og Jesú kross mér verju velja,
er vopni dauðans geng eg mót.
Mér afdrif síðast gef þú góð,
ó, Guð minn, fyrir Jesú blóð.

4. Í tíma lát mig, herra, hafa
svo húsi mínu ráðstafað,
að búist geti' eg burt án tafar,
er banastundin kemur að.
Mér afdrif síðast gef þú góð,
ó, Guð minn, fyrir Jesú blóð.

5. Þinn himin sætan hjarta mínu,
en heiminn beiskan vera lát;
þótt oti veröld yndi sínu,
á eilífð veit eg hafi gát.
Mér afdrif síðast gef þú góð,
ó, Guð minn, fyrir Jesú blóð.

6. Æ, virztu mína vonzku' að hylja,
með verðleik Jesú, faðir kær,
og lát mig svo við syndir skilja,
að sálu tjón ei búi þær.
Mér afdrif síðast gef þú góð,
ó, Guð minn, fyrir Jesú blóð.

7. Í blóðgum Jesú benjum veit eg
mér búið skjól og griðastað;
á vængjum trúar þangað þreyti eg,
svo þori fjendur mér ei að.

Mér afdrif síðast gef þú góð,
ó, Guð minn, fyrir Jesú blóð.

8. Minn ástvin Jesús elskulegi,
mér ástarfaðm ei lokar sinn;
á hans eg þreifa síðu- og segi:
"Minn sanni Guð og Drottinn minn."
Mér afdrif síðast gef þú góð,
ó, Guð minn, fyrir Jesú blóð.

9. Í skírnarlaug mig helgri hefur
minn herra Jesús íklætt sér;
sú vígsla dýr mér vissu gefur,
að vinur Guðs og barn eg er.
Mér afdrif síðast gef þú góð,
ó, Guð minn, fyrir Jesú blóð.

10. Sinn líkam Jesús lét mig næra,
hann lét sinn dreyra svala mér.
Ó, hvílík náð, míns herra kæra
í hjarta nú eg geymdur er.
Mér afdrif síðast gef þú góð,
ó, Guð minn, fyrir Jesú blóð.

11. Svo komi þá minn dauðadagur;
nær Drottinn vill, eg glaður fer;
því Krists með dreyra-fossi fagur
mér ferðaskrúði keyptur er.
Mér afdrif síðast gef þú góð,
ó, Guð minn, fyrir Jesú blóð.

12 Í þér, ó, Guð minn glaður
þreyi' eg;
mig guðleg styður náðarhönd;
í þér, ó, Guð minn, glaður dey eg;
nú getur hel ei sakað önd:

þú afdrif síðast gefur góð
mér, Guð minn, fyrir Jesú blóð.

## 267.

Lag: Guðs son kallar: komið til mín.

AÐ kveðja heim sem kristnum ber
um kvöld og morgun lífsins er
jafn erfitt æ að læra;
og engum lærðist íþrótt sú,
ef ei, vor Jesú, værir þú
hjá oss með orð þitt kæra.

2. Þú dauðans þekkir beizkju bezt,
vor bróðir, Jesú kær, er lézt
þitt líf, að dauða deyddir;
þér manna kunnugt eðlið er
og angist sú, er reynum vér,
að dyrum dauðans leiddir.

3. Þá andlátstíminn að fer minn,
send ástvin kæran minn og þinn
að banabeði mínum,
er um þinn sigur segi mér
og samfundanna fögnuð, er
mun veitast þjónum þínum.

4. En kom og sjálfur, kom til mín,
minn kærsti vin, er æfin dvín,
og seg það sálu minni,
að dauði þinn er dauðabót,
svo dauða rór eg taki mót
eg ei til ótta finni.

5. Þá hrörnar sjónin, heyrn og mál
mig heyra lát það inst í sál

af vinar-vörum þínum,
hve himnaríki inndælt er
og að þú hafir búið mér
þar vist og vinum mínum.

6. Ó, Drottinn, nær sem dauðans [hönd
frá dufti mínu skilur önd,
mig lykja láttu hvörmum
sem barn við móðurbrjóst og fá
þann blund, er værstan hljóta má,
í þínum ástarörmum.

## 268.

Lag: Þann signaða dag vér sjáum enn.

Nú héðan á burt í friði' eg fer,
ó faðir, að vilja þínum;
í hug er mér rótt og hjartað er
af harminum læknað sínum;
sem hézt þú mér, Drottinn, hægan blund
eg hlýt nú í dauða mínum.

2. Því veldur hinn sæli sonur þinn,
er sála mín heitast þráði;
þú sýndir mér hann, ó herra minn,
af hjarta þíns líknarráði;
í lífi og deyð mig huggar hann,
þá huggun eg bezta þáði.

3. Þú hefir hann auglýst öllum lýð
af ástríkri föðurmildi,
til þess honum lúti veröld víð
og verða hans erfð hún skyldi;
að ljósið hans orða lýsi blítt
um löndin öll, náð þín vildi

4. Hann öllum er heimi ljós og líf
og leiðtoginn viltra bezti,
í nauðunum örugg hann er hlíf,
þótt hjálpina manna bresti;
hann Ísrael, þínum eignarlýð,
er yndið og heiður mesti.

## 269.

Með sínu lagi.

VERTU hjá mér: halla tekur degi,
herra, myrkrið kemur, dylst mér eigi.
Þegar enga hjálp er hér að fá,
hjálparlausra líknin vert mér hjá.

2. Óðum sólin æfi minnar lækkar;
altaf heimsins gleðiljósum fækkar;
breytist alt og hverfur þá og þá;
þú, sem aldei breytist, vert mér hjá.

3. Kom þú ekki' í konungsvaldi
stríðu,
kom með þinni elsku, líkn og blíðu,
kom, að hugga mig, er harmar þjá;
hæli syndarans, mér vertu hjá.

4. Þú mig tókst í faðm í fyrstu æsku:
fyrirleit eg tíðum þína gæzku:
aldrei þó mér sekum fórstu frá.
Fram til endans, herra, vert mér hjá.

5. Án þín glaða enga stundu lít eg,
án þín falla' í hverju spori hlýt eg
heimsins dimmu' og hálu brautum á.
Herra', í dimmu' og björtu vert mér hjá.

6. Með þér geðrór mæti' eg hverju
fári,

með þér verður sæla' í hverju tári;
skeyti dauðans skelfist eg ei þá.
Skjöldur minn, ó Jesú, vert mér hjá.

7. Mitt við andlát augum fyrir mínum
upp, minn Drottinn, haltu krossi þínum.
Gegnum myrkrið lífsins ljós að sjá
leyf mér, góði Jeú! Vert mér hjá.

8. Bend mér upp og yfir tjöldin skýja
upp mig tak. Lát jarðar myrkrin flýja
fyrir ljósi landinu' engla frá.—
Í lífi' og dauða, herra, vert mér hjá.

## 270.

Með sínu lagi.

EG lifi' og eg veit, hve löng er mín bið,
eg lifi', unz mig faðirinn kallar;
eg lifi' og eg bíð, unz eg leysist í frið;
eg lifi sem farþegi sjóinn við,
unz heyri' eg, að herrann mig kallar.

2. Eg dey og eg veit, nær dauðann að ber;
eg dey, þegar komin er stundin;
eg dey, þegar ábati dauðinn er mér,
eg dey, þegar lausnin mér hentust er,
og eilífs lífs uppspretta' er fundin.

3. Eg ferðast og veit, hvar mín för stefnir á;
eg fer til Guðs himnesku landa;
eg fer, unz eg verð mínum frelsara hjá
og framar ei skilnaðar sorgin má
né annað neitt ástvinum granda.

4. Eg lifi nú þegar í Drotni í dag,
eg dey, svo að erfi eg lífið;
eg ferðast mót eilífum unaðarhag.
Hví er þá mín sál ei með gleðibrag?
Eg á þegar eilífa lfið.

## 271.

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

HERRA Jesú, hjá oss vertu,
huggun vor í lífi' og deyð;
dagar líða, ljós vort ertu,
ljómann heims er felur neyð.
Huggun sú er hugarfró,
hjartans yndi, sæld og ró,
þig að vita vera' oss nærri,
vinahjálp þá öll er fjærri.

2. Herra Jesú, hjá oss vaktu,
héðan burt er sofnum vér;
oss í miskunn að þér taktu,
einkatraustið vort það er.
Bend oss heim í hæð til þín,
himinljóma þann oss sýn,
er til fulls vér síðar sjáum,
sjálfan þig er litið fáum.

3. Herra Jesú, hjá oss vertu,
hug'rinn til þín lyftir sér;
hjá oss kvöldið síðsta sértu,
sjálfur þá vort ljós þú ver.
Hugsun þá lát hugga sál,
heyrn er þrýtur, sjón og mál,
að oss hel er endir nauða,
og að fæðist líf í dauða.

## 272.

Með sínu lagi.

AF instu rót mín önd og sál sig gleður,
og lofs og dýrðar munnur mál þá
kveður,
er eg þess gæti, Guðs hvað sonur sæti
mér veitti', er dauðans vann hann yfir-
læti.

2. Sem fuglinn þráir birtu brátt í búri,
eins sit eg hér um svarta nátt og stúri.
Það bölið bæti bezt minn Jesús sæti
og leiði mig í eilíft eftirlæti.

3. Æ, morgunroði, rís þá skjótt á
hæðum,
þú, mér sem fulla færir gnótt af gæðum.
Með englum öllum og með hljómi
snjöllum
eg fagna', er ljómar lífsins sól á fjöllum.

4. En bú mig, Jesú, brátt, því stund
sú kemur,
að þú út réttir þína mund og nemur
úr eymdadölum og frá heimsins kvölum
mig leystan upp að lífsins gleðisölum.

## 273.

Lag: Hæsti Guð, herra mildi.

EG horfi yfir hafið
um haust af auðri strönd;
í skuggaskýjum grafið
það skilur mikil lönd.
Sú ströndin strjála' og auða,
er stari' eg héðan af,

er ströndin stríðs og nauða,
er ströndin hafsins dauða,
og hafið dauðans haf.

2. En fyrir handan hafið
þar hyllir undir land;
í gullnum geislum vafið
það girðir skýjaband.
Þar gróa' í grænum hlíðum
með gullslit blómin smá;
í skógarbeltum blíðum
í blómsturlundum fríðum
má allskyns aldin sjá..

3. Þar sé eg sólu fegri
á súlum standa höll
í dýrð svo dásamlegri
hún drifin gulli' er öll.
Þar sé eg fylking fríða
og fagurbúna sveit
um ljóssins sali líða
með ljóssins ásýnd blíða
í unaðs aldinreit.

4. Eg hljóður eftir hlusta,
eg heyri klukkna hljóm;
hve guðleg guðsþjónusta
er Guðs í helgidóm!
Eg heyri unaðs-óma
og engla skæra raust;
um Drottins dýrðarljóma,
um Drottins verk þeir róma
um eilífð endalaust.

5. Er þetta hverful hylling

og hugarburður manns?
Nei, það er fögur fylling
á fyrirheitum hans,
er sýnir oss í anda
Guðs eilíft hjálparráð;
og stríðsmenn Guðs þar standa
við stól hins allsvaldanda;
þar alt er eilíf náð.

## 274.

Lag: Hve sælt hvert hús.

Ó, blessuð stund, er burtu þokan líður,
sem blindar þessi dauðleg augu vor,
en æðri dagur, dýrðarskær og blíður,
með Drottins ljósi skín á öll vor spor.

2. Ó, blessuð stund, er sérhver rún
er ráðin
og rauna-spurning, sem mér duldist hér,
og eg sé vel, að vizkan tóm og náðin
því veldur, að ei meira sagt oss er.

3. Ó, blessuð stund, er stillast skulu
sárin,
og stöðvast óp og kvein hins þjáða
manns,
og loksins þverra þungu sorgar tárin
og þorna fyrir geislum kærleikans!

4. Ó, blessuð stund, er sál mín fær
að segja:
Eg sé ei framar gegnum þoku-gler!
Ó, blessuð stund, er fæ eg hné að
hneigja
og herrann sjálfan loks mitt auga sér!

5. Ó, blessuð stund, er burt er syndin illa
og brotinn liggur dauðans grimmi hjör
og Drottins sali frjálsir andar fylla
með frið og sælu, kraft og eilíft fjör!

6. Ó, blessuð stund, er hátt í himinsölum
minn hjartans vin eg aftur fæ að sjá
og við um okkar æfi saman tölum,
sem eins og skuggi þá er liðin hjá!

7. Ó, Guð minn, vek þá hugsun mér í huga
við hverja neyð og sorg og reynslu-sár;
þá styrkist eg og læt mig böl ei buga
og brosið skín í gegnum öll mín tár.

## 275.

**Með sínu lagi.**

FÖGUR er foldin,
heiður er Guðs himin,
inndæl pílagríms æfigöng.
Fram, fram um víða
veröld og gistum
í Paradís með sigursöng.

2. Kynslóðir koma,
kynslóðir fara,
allar sömu æfigöng.
Gleymist þó aldrei
eilífa lagið
við pílagrímsins gleðisöng.

3. Fjárhirðum fluttu

fyrst þann söng Guðs englar,
unaðssöng, er aldrei þver;
friður á foldu,
fagna þú, maður,
frelsari heimsins fæddur er.

## 2. Greftranir.

### 276.

Með sínu lagi.

ALT eins og blómstrið eina
upp vex á sléttri grund,
fagurt með frjóvgun hreina,
fyrst um dags morgunstund,
á snöggu augabragði
af skorið verður fljótt,
lit og blöð niður lagði,
líf mannlegt endar skjótt.

2. Svo hleypur æskan unga
óvissa dauðans leið
sem aldur og ellin þunga,
alt rennur sama skeið.
Innsigli engir fengu
upp á lífsstundar bið,
en þann kost undir gengu
allir, að skiljast við.

3. Dauðinn má svo með sanni
samlíkjast, þykir mér,
slingum þeim sláttumanni,
er slær alt, hvað fyrir er,
grösin og jurtir grænar,
glóandi blómstrið frítt.

reyr, stör, sem rósir vænar
reiknar hann jafn-fánýtt.

4. Lífið manns hratt fram hleypur,
hafandi enga bið,
í dauðans grimmar greipur,
gröfin tekur þar við;
allrar veraldar vegur
víkur að sama punkt;
fetar þann fús sem tregur,
hvort fellur létt eða þungt.

5. Hvorki fyrir hefð né valdi
hopar dauðinn eitt stryk;
fæst sízt með fögru gjaldi
frestur um augnablik;
alt hann að einu gildir
þótt illa líki' eða vel;
bón ei né bræði mildir
hans beiska heiftarþel.

6. Menn vaða í villu og svima,
veit enginn neitt um það,
hvernig, á hverjum tíma,
eða hvar hann kemur að.
Einn vegur öllum greiðir
inngang í heimsins rann;
margbreyttar lízt mér leiðir
liggi þó út þaðan.

7. Afl dauðans eins nam krenkja
alla í veröld hér;
skal eg þá þurfa' að þenkja,
hann þyrmi einum mér?
Adams er eðli runnið

í mitt náttúrlegt hold;
eg hef og þar til unnið,
aftur að verða mold.

8. Hvorki með hefð né ráni
hér þetta líf jeg fann;
sálin er svo sem að láni
samtengd við líkamann.
í herrans höndum stendur
að heimta sitt af mér;
dauðinn má segjast sendur,
að sækja hvað skaparans er.

9. Nú vel, í herrans nafni,
fyrst nauðsyn ber til slík,
jeg er ei þeirra jafni,
sem jörðin geymir nú lík.
Hve nær sem kallið kemur,
kaupir sig enginn frí;
þar læt eg nótt, sem nemur,
neitt skal ei kvíða því.

10. Eg veit, minn ljúfur lifir
lausnarinn himnum á;
hann ræður öllu yfir,
einn heitir Jesús sá;
sigrarinn dauðans sanni
sjálfur á krossi dó,
og mér, svo aumum manni,
eilíft líf víst til bjó.

11. Með sínum dauða hann deyddi
dauðann og sigur vann,
makt hans og afli eyddi;
ekkert mig skaða kann;

þó leggist lík í jörðu,
lifir mín sála frí;
hún mætir aldrei hörðu
himneskri sælu í.

12. Jesús er mér í minni;
mig á hans vald eg gef,
hvort eg er úti' eða inni,
eins þá eg vaki og sef.
Hann er mín hjálp og hreysti,
hann er mitt rétta líf,
honum af hjarta' eg treysti,
hann mýkir dauðans kíf.

13. Jeg lifi' í Jesú nafni,
í Jesú nafni' eg dey;
þó heilsa' og líf mér hafni,
hræðist eg dauðann ei.
Dauði, eg óttast eigi
afl þitt né valdið gilt;
í Kristí krafti' eg segi:
kom þú sæll, þegar þú vilt.

## 277.

**Lag: Nú fjöll og bygðir blunda.**

HIN langa þraut er liðin,
nú loksins hlauztu friðinn,
og alt er orðið rótt;
Nú sæll er sigur unninn
og sólin björt upp runnin
á bak við dimma dauðans nótt.

2. Fyrst sigur sá er fenginn,
fyrst sorgar þraut er gengin,
hvað getur grætt oss þá?

Oss þykir þungt að skilja,
en það er Guðs að vilja,
og gott er alt, sem Guði' er frá.
3. Nú héðan lík skal hefja,
ei hér má lengur tefja
í dauðans dimmum val.
Úr inni harms og hrygða
til helgra ljóssins bygða
far vel í Guðs þíns gleðisal.

## 278.

Lag: Fögur er foldin.

KALLIÐ er komið,
komin er nú stundin,
vina skilnaðar viðkvæm stund.
Vinirnir kveðja
vininn sinn látna,
er sefur hér hinn síðsta blund.
2. Margs er að minnast,
margt er hér að þakka;
Guði sé lof fyrir liðna tíð.
Margs er að minnast,
margs er að sakna:
Guð þerri trega- tárin stríð.
3. Héðan skal halda,
heimili sitt kveður
heimilis prýðin í hinzta sinn.
Síðasta sinni
sárt er að skilja,
en heimvon góð í himininn.
4. Far þú í friði,
friður Guðs þig blessi,

hafðu þökk fyrir alt og alt.
Gekst þú með Guði,
Guð þér nú fylgi,
hans dýrðar-hnoss þú hljóta skalt.

5. Grátnir til grafar
göngum vér nú héðan,
fylgjum þér, vinur; far vel á
Guð oss það gefi, [braut!
glaðir vér megum
þér síðar fylgja' í friðarskaut.

## 279.

Lag: Svo blítt er hirðis hjartað æ

Í dauðans faðm nú fallið er
og fölt og kalt þar sefur
það barn, ó Guð, sem gafstu mér
og glatt um stund mig hefur.
Ó faðir, lít í líkn til mín
og lát þú blessuð orðin þín
mér létta sviðann sára,
er sárra fær mér tára.

2. Þótt hugsun þín og háleitt ráð
mín hyggja sljó ei skilji,
eg gjörla' veit, að gæzka' og náð,
minn Guð, er æ þinn vilji.
Ó, lát þá vissu veikum mér
nú veita styrk, svo rótt í þér
mitt hjarta gleði hljóti
og heilags friðar njóti.

3. Hinn góða son mér gafstu þinn,
já, gafst hans líf í dauða,
að lækna synda sjúkleik minn

og sefa beiskju nauða;
ó, skyldi eg í skautið þitt
þá skorast undan barnið mitt
að leggja ljúfu geði
og lofa þig með gleði?

4. Nei, þína gjöf eg fæ þér fús,
minn faðir, Guð, og segi:
Þótt sorgin heim mitt sæki hús
og særi brjóst, eg þegi;
því gæzkan eilíf gjörði það,
svo gæti beztan samastað
sem bráðast barn mitt hlotið
og böl þess gjörvalt þrotið.

## 280.

Lag: Jesú, þínar opnu undir.

SÆLL ert þú, er saklaus réðir
sofna snemma dauðans blund
eins og lítið blóm í beði
bliknað fellur vors um stund.
Blessað héðan barn þú gekst,
betri vist á himni fékst,
fyr en náðu vonzka' og villa
viti þínu' og hjarta spilla.

2. Góði Jesú, gef oss öllum
góða barnsins hjartaþel;
gef að aldrei frá þér föllum,
forðumst syndir heims og vél.
Sálarprýði sé vor ein
sakleysisins rósemd hrein.
Þú vilt að eins hreinu hjarta
húsið opna föður bjarta.

## 281.

Lag: Alt eins og blómstrið eina.

HVÍ fölnar jurtin fríða
og fellir blóm svo skjótt?
Hví sveipar barnið blíða
svo brátt hin dimma nótt?
Hví verður von og yndi
svo varpað nið'r í gröf?
Hví berst svo burt í skyndi
hin bezta lífsins gjöf?

2. Svo spyrjum vér, en vonum
þó vísdóm Drottins á
og hugsum sæl hjá honum
vor hjartkær börnin smá.
Þótt hrelling herði' að brjósti,
vér huggumst við þá trú,
í beztu föður-fóstri
þau falin séu nú.

## 282.

Lag: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

HVÍ var þessi beður búinn
barnið kæra, þér svo skjótt?
Svar af himni heyrir trúin
hljóma gegnum dauðans nótt;
það er kveðjan: "Kom til mín!"
Kristur tók þig heim til sín.
Þú ert blessuð hans í höndum,
hólpin sál með ljóssins öndum.

## 283.

Lag: Syrgjum ekki sáluga bræður.

ÞÉR ástvinir, eyðið nú hörmum
og afþerrið tárin af hvörmum:
við endalok útlegðar nauða
hið algjörða líf vinst í dauða.

2. Því hvað munu þrönghýsin
þýða,
hin þögulu', er náungar prýða?
Þar vinirnir væran fá blundinn
og vakna, þá komin er stundin.

3. Tak, jörð, nú við ástvini einum;
þeim að hlyntu, móðurskaut, beinum.
Vér mannslíkam fagran þér felum;
hann fara lát mjúklega' og vel um.

4. Brátt lúðurinn glymhár mun
gjalla,
þá Guð Drottinn von fyllir alla.
Þú myndina' í faðm' þér nú falda
skalt fram selja konungi alda.

## 284.

Með sínu lagi.

SOFDU vært hinn síðsta blund,
unz hinn dýri dagur ljómar,
Drottins lúður þegar hljómar
hina miklu morgunstund.

2. Heim frá gröf vér göngum enn.
Guð veit, hvort vér framar fáum
farið héðan; að oss gáum,
máske kallið komi senn.

3. Verði, Drottinn, vilji þinn;
vér oss fyrir honum hneigjum;
hvort vér lifum eða deyjum,
veri hann oss velkominn.

## 285.

Lag: Alt eins og blómstrið eina.

EI moldin meira hylur
en moldarhreysi það,
er andinn eftir skilur,
á æðra fluttur stað.
Um hríð skal hreysið liggja,
en höndin æðst um síð
mun öflugt upp það byggja,
á alheims páskatíð.

2. Þér, augu, starið eigi
á inni grafar svart;
brátt ljómar lífs af degi
og ljós upp rennur bjart.
Þér, tungur, tignið allar
hinn trúa vininn, Krist,
er lýði liðna kallar
í ljóssins helga vist.

# Tímaskifti.

## 1. Áramót.

### 286.

Lag: Eg lifi' og eg veit, hve löng er mín bið.

NÚ árið er liðið í aldanna skaut
og aldrei það kemur til baka;
nú gengin er sérhver þess gleði og
þraut,
það gjörvalt er runnið á eilífðar
braut,
en minning þess víst skal þó vaka.

2. En hvers er að minnast? og
hvað er það þá,
sem helzt skal í minningu geyma?
Nú alt er á fljúgandi ferð liðið hjá,
það flest alt er horfið í gleymskunn-
ar sjá;
en miskunnsemd Guðs má ei gleyma.

3. Hún birtist á vori sem verm-
andi sól,
sem vöxtur í sumarsins blíðu,
í næðingum haustsins sem skjöldur
og skjól,
sem skínandi himinn og gleðirík jól
í vetrarins helkulda-hríðum.

4. Hún birtist og reynist sem bless-
unarlind
á blíðunnar sólfagra degi,

hún birtist sem lækning við böli og
synd,
hún birtist þó skærast sem frelsar-
ans mynd,
er lýsir oss lífsins á vegi.

5. Nú Guði sé lof fyrir gleðilegt ár
og góðar og frjósamar tíðir,
og Guði sé lof, því að grædd urðu
sár,
og Guði sé lof, því að dögg urðu tár;
alt breyttist í blessun um síðir.

6. Ó, gef þú oss, Drottinn, enn
gleðilegt ár,
og góðar og blessaðar tíðir.
Gef himneska dögg gegnum harm-
anna tár,
gef himneskan frið fyrir lausnarans
sár,
og eilífan unað um síðir!

## 287.

Lag: Á þig, ó herra Jesú Krist.

ÞÁ lífsins kvöld var liðið á
Guðs ljúfra vina' og kærra,
þá ljós þeir eftir áttu' að sjá,
er öllu ljósi' er skærra.
Því fyr en æfisólin seig
þá sól Guðs náðar björt upp steig.
Þeir fengu' að líta frelsarann
og faðma hann;
þá sálum þeirra sól upp rann.

2. Að ársins kvöldi eru jól,

þess aftan skín svo fagur;
þá lífsins skín sem skærast sól,
er skemstur hér er dagur.
Svo margt sem veitti árið oss,
var oss þó geymt hið bezta hnoss;
og oss þó fyndist árið títt
svo strangt og strítt,
það endar þó svo unaðsblítt.

3. Að aftni minnar æfi hér,
er á eg heim að kveðja,
minn Jesú, hátíð haltu mér,
er hjartað megi gleðja;
og fyr þó lát ei fara mig
en faðmað hef og blessað þig;
þá glaður burt í friði' eg fer
og fæ hjá þér
þann frið, sem ei um eilífð þver.

## 288.

Lag: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

ÞETTA ár er frá oss farið,
fæst ei aftur liðin tíð.
Hvernig höfum vér því varið?
Vægi' oss Drottins náðin blíð.
Æfin líður árum með;
ei vér getum fyrir séð,
hvort vér önnur árslok sjáum;
að oss því í tíma gáum.

## 289.

Lag: Guðs vors nú gæzku prísum.

SEG þakkir Guði góðum,
hans gjörvöll barna hjörð;

syng hátt með helgum ljóðum
þeim herra lof á jörð,
sem nú um árið eitt
lét enn þá elsku sína
svo ástúðlega skína
og hefir hjálp oss veitt.

2. Ó, gefum allir gætur
að gæzku þeirri' og náð,
sem dásöm daga' og nætur
frá Drotni skein á láð;
ó, munum miskunn þá,
sem að oss öllum gætti
og allar þarfir bætti,
en böli bægði frá.

3. Í myrkri syndar svarta,
er sífelt á oss lá,
sitt heilagt föðurhjarta
lét hæztur Guð oss sjá,
og gaf oss vægðar von,
með iðrun ef vér snúum
frá illu brátt og trúum
á Krist hans kæra son.

4. Þú, Drottinn, gott alt gefur,
þig göfgi rödd og mál;
þú, Drottinn, hjálpað hefur,
þig heiðri líf og sál.
Í Jesú nafni nú
vér biðjum: Fjarlæg fárið
og farsælt gef hvert árið,
sem enn oss ætlar þú.

## 290.

Lag: Syng Guði dýrð, hans dýrkeypt hjörð.

Í Jesú nafni áfram enn
með ári nýju, kristnir menn;
það nafn um árs og æfispor
sé æðsta gleði' og blessun vor.

2. Í nafni hans æ nýtt er ár,
því nafni', er græðir öll vor sár;
í nafni hans fá börnin blíð
Guðs blessun fyrst á æfitíð.

3. Í nafni hans sé niðursáð
með nýju vori' í þiðnað láð;
í nafni hans Guðs orði á
á æskuvori snemma' að sá.

4. Í nafni hans sé starf og stríð,
er stendur hæst um sumartíð;
í nafni hans sé lögð vor leið
um lífsins starfs- og þroskaskeið.

5. Í nafni hans, þótt haust sé kalt,
vér horfum glaðir fram á alt;
í nafni hans, er þróttur þver,
vér þráum líf, sem betra er.

6. Í nafni hans vér hljótum ró,
er hulin jörð er vetrarsnjó;
í nafni hans fær sofnað sætt
með silfurhárum ellin grætt.

7. Í Jesú nafni endar ár,
er oss er fæddur Drottinn hár;
í Jesú nafni lykti líf,
hans lausnarnafn þá sé vor hlíf.

8. Á hverri árs og æfitíð

er alt að breytast fyr og síð;
þótt breytist alt, þó einn er jafn,
um eilífð ber hann Jesú nafn.

## 291.

Með sínu lagi.

SJÁ, nú er runninn nýársdagur,
en nótt hinn liðna tímann fól;
að nýju blómgast náðarhagur,
því nú skín Drottins elsku sól.
Ó, Guð, vor faðir, þökk sé þér,
af þinni miskunn fögnum vér.

2. Hve mjög á liðnum æfiárum
þér ávalt brotið höfum mót!
Vér biðjum því með trega' og tárum
í trausti Krists af hjartans rót:
Um eilífð hyl þú afbrot vor
og afmá nú vor syndaspor.

3. Með nýju ári nú vér biðjum,
að nýjan mátt oss gefir þú,
svo þér til dýrðar alt vér iðjum
með elsku, hlýðni' og sannri trú.
Þinn helgur andi leggi' oss lið,
svo lesti' og syndir skiljumst við.

4. Krýn þú hið nýja náðarárið
með náðargæðum himni frá.
Græð þinna barna sérhvert sárið,
í sorg og neyð þeim vertu hjá.
Æ, farsæl vora fósturjörð
og frelsa þína kristnu hjörð.

5. Í Jesú nafni öll vor efni

þér, eilíf gæzkan, felum nú;
í verki' og hvíld í vöku' og svefni
oss verndi' og blessi náð þín trú;
en þegar dauðans dregst að nótt,
ó, Drottinn, gef að sofnum rótt.

6. Oss síðar vek til lífs í ljósi,
er ljómar dýrðarsólin skær
og sælan æ með sigurhrósi
oss sérhvert unaðsblómið grær,
þar sem að nýár eilíft er
og eilíft friðarlíf hjá þér.

## 292.

Lag: Ó, Guð, þér hrós og heiður ber.

HVAD boðar nýárs blessuð sól?
Hún boðar náttúrunnar jól,
hún flytur líf og líknarráð,
hún ljómar heit af Drottins náð.

2. Ó, sjá þú Drottins björtu braut,
þú barn, sem kvíðir vetrar þraut;
í sannleik hvar sem sólin skín
er sjálfur Guð að leita þín.

3. Því hræðst þú ei, þótt hér sé kalt
og heimsins yndi stutt og valt
og alt þitt ráð sem hverfult hjól,
í hendi Guðs er jörð og sól.

4. Hann heyrir stormsins hörpuslátt,
hann heyrir barnsins andardrátt,
hann heyrir sínum himni frá
hvert hjartaslag þitt jörðu á.

5. Í hendi Guðs er hver ein tíð,

í hendi Guðs er alt vort stríð,
hið minsta happ, hið mesta fár,
hið mikla djúp, hið litla tár.

6. Vor sól og dagur, herra hár,
sé heilög ásján þín í ár.
Ó, Drottinn, heyr vort hjartans mál,
í hendi þér er líf og sál.

### 293.

**Lag: Jesú, þínar opnu undir.**

NÝTT ár enn þá Guð oss gefur,
guðleg enn oss veitist náð,
enn vor Guð oss örmum vefur,
enn sitt birtir hjálparráð;
nýársfórn því færum enn
föður alda, kristnir menn;
enn hans föðurelsku lýsum,
enn hans náð og gæzku prísum.

## 2. Vor.

### 294.

**Lag: Gæzkuríkasti græðari minn.**

Ó, herra Guð, eg þakka þér,
sem þyrmt og sjórnað hefir mér
með líkn á liðnum vetri,
og háska' og slysum varnað við
og vaka látið englalið
hjá mér og mínu setri.
Drottinn, Drottinn,
eg kann eigi út að segja ástaranda
mildi þinnar mér til handa.

2. Samt hef eg mjög á margan veg
þig móðgað, hátign guðdómleg,
ó, minn Guð, minst þess eigi.
Lát yfirgnæfa gæzku þín,
og gjör þú enn þá vel til mín
á öllum æfivegi.
Drottinn, Drottinn,
mín hef'r gætt og meinin bætt þín
miskunn ríka.
Framvegis mér fylgi' hún líka.

3. Lát inngang bæði' og útgang
minn
og alt mitt dagfar hvert eitt sinn
þér helgast, Guð minn góði;
að eg í minni stöðu' og stétt
æ stundi mína köllun rétt,
mér gef af gæzkusjóði.
Drottinn, Drottinn,
leið þú mig um lukkustig frá lasta-
voða,
veikan mig æ virztu stoða.

4. Alt hvað eg gjöri' og gjöra læt,
ó, Guð minn, sjálfur að því gæt,
svo farnist farsællega;
mín fyrirtæki' og ferðalag
þín forsjón blessi nótt og dag
og annist alla vega.
Drottinn, Drottinn,
lát ei granda illa anda arfleifð þinni,
sýndu miskunn sálu minni.

5. Leið þú mig, Guð, hinn vissa
veg,

sem vísa orð þín guðdómleg
um alla æfi mína;
mín geym í sannri guðrækni,
og gef þú, eg innlæstur sé
í vernd og vöktun þína.
Drottinn, Drottinn,
leyf þú mér, að lifa þér og líka deyja,
og þér lof um eilífð segja.

## 295.

Lag: Mín sál, þinn söngur hljómi.

NÚ kemur vorið kæra
er kaldan vermir svörð,
oss ljós og líf að færa
og lífga freðna jörð.
Nú sólin þegar þíðir
hinn þykka vetrar ís;
nú byrja dagar blíðir,
er blómi vorsins rís.

2. Senn heyrist unaðs-ómur,
og alls kyns fögur hljóð;
en á þá ei vor rómur
þau undir taka ljóð?
Til dýrðar Guði góðum
vér glaðir hefjum söng;
og honum lofstír ljóðum,
er liðin tíð er ströng.

3. Ó, Jesú Kristur kæri,
vor köldu hjörtu þíð;
þitt ljós oss ljósið færi,
þú líknar sólin blíð.
Vorn girnda bæl þú bruna

og brjóstið gjör þú milt,
en kveik upp kærleiks funa,
þess kærleiks, sem þú vilt.

4. Þú himins ljósa lilja,
þú ljúfa Sarons rós,
kenn oss þinn vilja' að vilja
og vek í oss þitt ljós.
Þinn dreyri' oss drjúpi' á hjörtu
sem dögg á Líbanon,
svo vaxi blómin björtu:
Hin blíða ást og von.

5. Ó, blessa, Guð, vorn gróður
og gef oss frjóa tíð;
gef fénaðinum fóður
og fæð þú allan lýð.
Þín himnesk höndin blessi
æ hér á jörð vort borð,
og örmædd hjörtu hressi
þitt heilagt lífsins orð.

## 296

Lag: Lofið vorn Drottin.

KOMIÐ er sumarið; kærleiki Drottins
oss gleður.
Komum nú fyrir hann lotning og þakk-
argjörð meður.
Látum vor ljóð
lofgjörðar fylla þann óð,
nú sem öll náttúran kveður.

2. Vorfegurð himinsins vegsamar
gjafarann ljósa,

vorgróði jarðar og blómskrautið ilmandi rósa;
vorloftið hlýtt,
vorkvæði söngfugla nýtt
guðlegu hjálpræði hrósa.

3. Vér tökum undir og vegsemd ó, faðir, þér tjáum,
vér, sem í öllu þinn guðdóm og kærleika sjáum,
Hjörtunum í
himinblóm guðhræðslu ný
gef nú að gróðursett fáum.

4. Nýkomið sumar, er nú aftur sjáum vér skína,
nýr er oss vottur um guðlega trúfesti þína;
fagnandi því
föðurvald leggjum oss í;
enn muntu' oss ástríki sýna.

5. Velkomin gjöf þín oss veri nú sumarið bjarta;
við henni tökum með glaðværu og þakklátu hjarta.
Heill til vor snú,
hjá oss í sumar lát nú
blóm þinnar blessunar skarta.

## 297.

Lag: Í Jesú nafni upp stá.

SÉ oss öllum sumargjöf
Jesú kraftur, frelsi, friður;
fögrum geislum stafi niður

lífsins sól á lönd og höf.
Eins og sólin sjónum manna
sumar enn þá færir nýtt,
Jesú náðarsólin sanna
sálum vorum skíni blítt.

### 3. Haust.

## 298.

Lag: Gæzkuríkasti græðari minn.

Ó, Guð, heilagur, heilagur,
Guð heilagur og blessaður,
vor Guð um aldir alda,
eg þér vil flytja þakkir nú
og þig ákalla' í bæn og trú
og lof þér líka gjalda.
Guð minn, Guð minn,
skylt er mér, að þakka þér og þig
að prísa.
Upp, mín harpa' og andleg vísa!

2. Ó, lof sé þér, þú líknin mín,
ó, lof sé þér fyrir gæðin þín
og veitta velgjörð alla,
er síðast liðna sumartíð
æ sýndi mér þín gæzkan blíð,
sem enn lét alt vel falla.
Guð minn, Guð minn,
mig hef'r leitt og meinum eytt þín
mildin ríka;
mér kenn þakka miskunn slíka.

3. Þinn ástarbrunn eg opinn fann,
þinn ástarstraumur þaðan rann,
ó, Guð minn, mér til handa;

mér þaðan kom alt þarft og gott,
og þess eg nú vil sýna vott
og vegsemd reyna' að vanda.
Guð minn, Guð minn,
alt hvað er í aumum mér, þér einum
unni;
lof þitt æ sé mér í munni.

4. Mig allan, Drottinn, offra eg
þér
á aðfaranda vetri hér
og alla æfi mína.
Ó, lát mig flýja lastaverk,
mig leiði jafnan hönd þín sterk,
mig geym fyri'r gæzku þína.
Guð minn, Guð minn
hvar eg er og hvert eg fer og hvað
eg geri,
hönd þín jafnan hjá mér veri.

5. Tak alt það, Drottinn minn frá
mér,
sem mér kann snúa burt frá þér,
svo okkur enginn skilji;
en gef mér aftur, Guð minn, það,
sem getur mér þér snúið að;
gef vilja þinn eg vilji.
Guð minn, Guð minn,
verndin þín sé vörnin mín á veg-
ferð minni.
Aldrei, Drottinn, lof þitt linni.

## 299.

Lag: Upp', skepna hver, og göfga glöð.

NÚ bráðum vetrar byrja él,
nú bliknar grund og hlíð;
með fegurð þína far þú vel,
:,: þú fagra sumartíð. :,:

2. Senn stynur vetrarvinda raust,
nú visna blómin skær;
þótt visni sérhvað hér um haust,
:,: í hjarta vonin grær. :,:

3. Þótt lækki sól og lýsi skamt,
ei lækkar Drottins náð;
þótt vaxi nótt, ei villist samt
:,: Guðs vísdóms eilíft ráð. :,:

4. Þótt fölni sérhvert blóm og blað
og blikni hvert eitt strá,
Guðs elska,—víst vér vitum það.—
:,: ei visna þannig má. :,:

5. Þótt falli hvert að hausti blóm,
ei hverfur gleðin mér.
Frá Betlhem eg heyri hljóm,
:,: er huggun ávalt lér. :,:

6. Eg veit hvar bezt mín blómgast von,
er bliknar jörðin hér:
það tré, hvar líf sitt lét Guðs son,
:,: mér lífsins ávöxt ber. :,:

7. Þótt fölni grös um fjall og dal,
og frjósi vötn og lönd,

mín trú á hann ei hverfa skal,
:,: sem heljar leysti bönd."

8. Um eilíft vor hann von mér gaf,
er vetur æfi þver;
sjálft lífið gröf er gengið af,
:,: það gleði dýrst mér er. :,:

## 300.

Lag: Lofið vorn Drottin.

KOMINN er veturinn. Kærasti faðir
á hæðum,
kvíða vér mættum, ef ei undir vernd
þinni stæðum.
Hvað erum vér?
Hjálpræði vort er hjá þér,
öllum sem útbýtir gæðum.

2. Þú, sem gafst vorið og þú, sem
gafst sumarið blíða,
þú, sem gafst blessun og hjálpræði lið-
inna tíða,
samur ert þú;
syrgja hví skyldum vér nú,
eða því komanda kvíða?

3. Vér viljum þakka þér, velgjörð-
um þínum ei gleyma;
vér viljum treysta þér; oss muntu fram-
vegis geyma.
Fulltreystum því,
framrás með tímans á ný
líkn þína látir fram streyma.

4. Gjör við oss, faðir, sem gæzka
þín hollast oss metur,

gef oss upp sakir og hjálpa' oss að
þóknast þér betur.
Að þér oss tak,
yfir oss hverja stund vak;
blessa hinn byrjaða vetur.

### 4. Morgun.

### 301.

Lag: Upp, skepna hver, og göfga glöð.

OSS minni sérhver morgun á
Guðs mildu föðurnáð.
er sveipar myrkrum sólu frá
:,: og sendir geisla' um láð. :,:

2. Oss minni fögur morgunsól
á morgunsól þá fyrst,
er skín hjá Drottins dýrðarstól:
:,: Vorn Drottin, Jesúm Krist. :,:

3. Oss minni ljúfur morgunblær
á mætan sannleik þann,
að andi Guðs er æ oss nær,
:,: þótt ei vér finnum hann. :,:

4. Oss minni sérhver morgun nýr
á mildi', er aldrei dvín,
og sorgar myrkrið svart að flýr,
:,: er sól Guðs líknar skín. :,:

5. Oss minni sérhver morgunstund
á miskunn Drottins þá,
er lætur eftir banablund
:,: oss betri morgun sjá. :,:

### 302.

Með sínu lagi.

HIN mæta morgunstundin,
hún minnir fyrst á þig,
sem væran veittir blundinn
og vörð lézt kringum mig.
Hvað er eg, Guð minn, þess, að þér
svo þóknast enn að líkna mér?

2. Eg hvíldist við þitt hjarta,
er hjá leið nóttin myrk;
nú ljómar ljósið bjarta,
og líf og nýjan styrk
þín nýja miskunn nú mér ljær
á nýjum morgni, faðir kær.

3. Því vil eg vegsemd nýja
þér vanda, Drottinn minn,
með trausti til þín flýja
og tigna vilja þinn.
Það veri' í dag mitt verk og mið;
æ, veit mér til þess kraft og lið.

4. Mín insta hjartans iðja
og unun sé það nú,
að vaka vel og biðja
í von á þér og trú,
og svo í friðarfaðminn þinn
að fela allan lífshag minn.

5. Þá skal eg óttast eigi;
þinn engill fylgir mér;
og þótt í dag eg deyi,
þá djörfung samt eg ber

til þín, ó, Guð, að gull í mund
mér geymi þessi morgunstund.

### 303.

Lag: Guð, Jehóva, þig göfgum vér.

Ó, Drottinn, ljós og lífið mitt,
eg lofa' og mikla nafnið þitt:
þig lofi alt, sem anda hrærir
og alt, sem blessar þú og nærir;
nú ljómar dýrðardagur nýr,
en dimman nætur burtu flýr.

2. Það alt, sem lifir, lífgar þú,
með ljósi þínu, faðir, nú,
og endurnærður elsku þinni
eg enn þá rís úr hvílu minni
og minnist þess, að miskunn þín
í morgunsólar geislum skín.

3. Þitt blessað ljós mér bendir á,
að blessun öll þér komi frá,
að alt, sem lifir, er og hrærist,
af ástargæðum þínum nærist.
og fyrst að sólin fagurt skín,
að fögur muni dýrðin þín.

4. Þitt blessað ljós nú minnir mig
á mína skyldu' að elska þig,
sem það af náð mér lýsa lætur,
svo leggi' á flótta dimman nætur;
þín dýrðleg sól því segir mér:
Æ sjá, hve góður Drottinn er.

5. Þitt blessað ljós, sem lýsir mér,
til ljóssins iðju kallar hér.
Æ, lát mig alt í ljósi vinna,

í ljósi sannleiks orða þinna,
í ljósi þínu ljósið sjá,
og ljóssins barna hnossi ná.

6. Í allan sannleik andi þinn
mig ætíð leiði, Drottinn minn;
hann um þinn vilja æ mig fræði
og elsku' og trúna hjá mér glæði;
þitt náðarljósið lýsi mér,
svo líf og sál eg helgi þér.

## 5. Kvöld.

### 304.

Lag: Ó Guð, þér hrós og heiður ber.

ÞÚ ljós og dagur, Drottinn, ert,
alt dimt og hulið þér er bert.
Þú, ljós Guðs dýrðar, ljómar skært,
þú ljós þíns orðs oss hefir fært.

2. Þú varst í dag vort ljós og líf,
ver líka' í nótt vort skjól og hlíf,
þú hvíl í oss, er hvílum vér,
og hvíla lát oss eins í þér.

3. Þín náðin vakir nótt og dag,
þín náð á ekkert sólarlag.
Í vöku' og blundi' hún verndar mig,
í vöku' og blundi' eg treysti á þig.

4. Eg sofna' í þínu nafni nú,
mér nægir það, að vakir þú.
Ei sakar neitt, þín blessuð börn,
þau blunda rótt í þinni vörn.

## 305.

Lag: Syng Guði dýrð hans dýrkeypt hjörð.

NÚ legg eg aftur augun mín,
en öndin hvarflar, Guð, til þín:
þinn almáttugan ástarvæng
lát yfirskyggja mína sæng.

2. Æ, Guð minn faðir, fyrirgef
það framið ilt í dag eg hef,
að geti' eg sofnað sáttur enn
við sjálfan þig og alla menn.

3. Ó, Drottinn, gef mér banablund,
sem blíð mér verði friðar stund,
og lát ei gröf né hennar húm
mig hræða meir en þetta rúm.

4. Mín sál og hjarta hvíli' í þér,
en hvíl þú, Guð, í brjósti mér,
svo hver einn morgunn heims um rann
mig hitti nýrri' og betri mann.

5. Að rísa upp í heimi hér
með hverri sólu kenn þú mér,
svo líta fái' eg ljósið þitt,
er lífgar Jesús duftið mitt.

## 306.

Lag: Ofan af himnum hér kom eg.

NÚ dagur þver og nálgast nótt,
til náða sem að kveður drótt;
ó, faðir ljóss og alls, sem er,
gef öllum frið og hvíld í þér.

2. Ó, Guð, sem skjaldar-skuggi
þinn

oss skýli myrkrið nú um sinn;
gef þessi nótt oss verði vær,
eins vorum bræðrum nær og fjær.

3. Með föðurhendi byrg oss brár
og blítt við næsta morguns-ár
með endurhrestan þrótt og þrek
sem þín og ljóssins börn oss vek.

## 307.

Með sínu lagi.

NÚ legg eg augun aftur,
ó, Guð, þinn náðarkraftur
mín veri vörn í nótt.
Æ, virzt mig að þér taka,
mér yfir láttu vaka
þinn engil svo eg sofi rótt.

## 308.

Lag: "Sun of my soul.'

JESÚ, þú sálar sól mín kær,
sjálf verður nóttin hjá þér skær.
Lát þú ei skugga-ský neitt hér
skyggja á þína dýrð hjá mér.

2. Þegar mér sígur svefn á brá,
sýn mér þitt náðar-auglit þá;
unn mér við brjóstið blessað þitt,
brotlegum, hvíla höfuð mitt.

3. Engan dag mátt þú fara frá,
fyrst eg án þín ei lifa má;
enga nótt víkja frá mér fet,
fyrst eg án þín ei dáið get.

4. Ef eitthvert barn þitt fárátt fór

frá þér í dag, þótt synd sé stór,
byrja þitt verk, því burt ei hrind,
barnið þitt lát ei sofna' í synd.
5. Sjúkra þú gæt og send þeim hægð,
snauðum veit auð af þinni gnægð,
börn þín öll sármædd svæf þér hjá
sætt eins og móður-brjóstum á.
6. Návist þín blessi' oss nótt og dag,
náð þín vort blessi sólarlag,
í þínum kærleik vist þá vís
verður hjá þér í paradís.

---

# XI.
# Ymiskonar efni.

## 1. Hjónavígsla.

### 309.

Með sínu lagi.

HEYR börn þín, Guð faðir, sem biðja
þig nú,
að blessuðum faðmi sig umvefjir þú.
Ó, seg: "Verið hugrökk, mín vernd
ykkur ver,
eg veg ykkar greiði, eg stoð ykkar er."
Þinn friður og náð þeirra farsæli ráð.
2. Þú eilífi Guðs son, er heims bættir
hag,
ver hjá þessum brúðhjónum gestur
í dag.
Ó, Seg: "Ykkar heimilisvinur eg verð

og vörður og leiðogi' á æfinnar ferð."
þinn friður og náð þeirra farsæli ráð.

3. Það hjartnanna samfélag helgaðu
þér,
Guð heilagur andi, sem byrjað nú er.
Ó, seg: "Fetið blessuð hvert samleiðar
spor
og sílifið blessunar inndælast vor."
Þinn friður og náð þeirra farsæli ráð.

4. Þú háttlofuð þrenning lát hjúskapar stétt
með hverskonar dygðum þig vegsama
rétt.
Ó, seg: "Öllum hjónum, sem hjálp
mína þrá
og hjörtun mér gefa, eg miskunn vil
tjá."
Þinn friður og náð þeirra farsæli ráð.

## 310.

Með sínu lagi.

HVE gott og fagurt og inndælt er
með ástvin kærum á samleið vera!
Þá gleði tvöfalda lánið lér
og léttbært verður hvern harm að bera.
Já, það, er kætir oss bezt og bætir
hvert böl, sem mætir,
er einlæg ást.

2. Hve rótt þar lífið og inndælt er,
sem eining ríkir og sátt og friður
og trygðin vinanna byrðar ber
og blítt hver annan á samleið styður.

Já, það er kætir oss bezt og bætir
hvert böl, sem mætir,
er tállaus trygð.

3. Hve gott að treysta þeim ástvin er,
sem engu barnanna sinna gleymir!
Hann man oss einnig, er eldumst vér,
því ávalt lindin hans kærleiks streymir.
Já, það, er kætir oss bezt og bætir
hvert böl, sem mætir
er trúin traust.

4. Hve sárt að skilja þeim ávalt er,
sem ástin tengir og fylgjast vilja!
En lof sé Guði, þá lífsskeið þver,
á landi dýrðar þeir aldrei skilja.
Já, það er kætir oss bezt og bætir
hvert böl, sem mætir,
er heimvon helg.

5. Hver hjón, sem leiðina halda rétt
í herrans nafni með kærleik sönnum,
það reyna sannlega' í sinni stétt
í sorgarhretunum lífs og önnum,
að það, er kætir oss bezt og bætir,
hvert böl, sem mætir,
er guðhrætt geð.

## 311.

Lag: Gæzkuríkasti græðari minn.

Ó, lífsins faðir, láni krýn
í lífi' og dauða börnin þín,
sem bundust trú og trygðum.
Lát geisla þinnar gæzku sjást
í gegnum þeirra hjónaást

með gulli dýrri dygðum.
Þitt ráð, þín náð
saman tengi, gefi gengi,
gleðji, blessi
hér og síðar hjónin þessi.

### 2. Heimilið.

### 312.

Með sínu lagi.

HVE sælt hvert hús, er sinna meðal gesta
þér sífelt býður heim, ó, Jesú kær;
í húsi því er hátíð æ hin bezta,
er heimsókn þína dag hvern öðlast fær.

2. Hve sælt hvert hús, ef öll þar öllu meira
þess óska hjörtu, þér að vígja sig,
og mest það girnist auga hvert og eyra,
vor ástvin kær, að sjá og heyra þig.

3. Hve sælt hvert hús, ef hjón þar saman búa
í helgri trú og von og kærleik eitt,
og sífelt augum sálna til þín snúa,
um samfylgd þína biðja þrátt og heitt.

4. Hve sælt hvert hús, er húsráðendur stýra,
sem hafa þig í ráðum æ með sér,
og þar sem hjúin hlýðni sýna dýra
og hvert eitt vinna starf til dýrðar þér.

5. Hve sælt hvert hús, er ber á bænar örmum

sín börn til þín í hjartans ást og trú,
og felur þínum faðmi kærleiksvörmum
þau fögur vorblóm, svo þeim hjúkrir
þú.

6. Hve sælt hvert hús, er lætur unga
læra
þitt lífsins orð, sem næring sálar er,
og kennir þeim þér hlýðnisfórn að færa
og fagurt lof af ást að gjalda þér.

7. Hve sælt hvert hús, er heill á
gleðidögum
sér hæsta metur vin að eiga þig
og æ í sjúkleik, sorg og eymdarhögum
þig sækir fyrst að lækna og hugga sig.

8. Hve sælt hvert húsið, þar sem
athöfn alla
þér allir helga' og gjörvalt dagfar sitt;
þú síðar þá til samvistar munt kalla
í sælurika dýrðarhúsið þitt.

## 313.

Lag: Heyr börn þín, Guð faðir.

TIL hvers er að byggja sér hús eða
höll,
ef hann eigi byggir, sem reist hefir
fjöll?
Ef herrann ei byggir, þá hrynur það
valt,
ef hann með oss byggir, þá stendur það
alt.
Ó, Guð, að oss hygg,
með oss húsin vor bygg.

2. Til hvers er að vaka og verja sinn
stað?
Ef vakir ei Drottinn, þá mishepnast
það;
ef hann eigi vakir, fær háskinn oss
mætt;
ef hann vakir með oss, við því er ei
hætt.
Ó, að þér oss tak,
yfir öllum oss vak.

3. Til hvers er að erja með áhyggju'
og þraut,
ef ei lætur Guð falla blessun í skaut?
Til hvers er með víli að vinna sér
brauð?
án víls bætir Drottinn úr aumstaddra
nauð.
Ó, bæt vora þörf,
öll vor blessa þú störf.

4. Til hvers eru börnin, hið feg-
ursta fé,
er faðir vor himneskur lætur í té,
ef Guð eigi blessar þau blómin vor
smá?
En blessi þau Drottinn, þau sæl verða
þá.
Vér felum vor börn
þinni blessun og vörn.

## 314.

Með sínu lagi.

Ó, Jesú, bróðir bezti

og barnavinur mesti,
æ, breið þú blessun þína
á barnæskuna mína.

2. Mér gott barn gef að vera
og góðan ávöxt bera,
og forðast alt hið illa
svo ei mér nái' að spilla.

3. Það ætíð sé mín iðja,
að elska þig og biðja,
þín lífsins orð að læra
og lofgjörð þér að færa.

4. Þín umsjón æ mér hlífi
í öllu mínu lífi;
þín líknarhönd mig leiði
og lífsins veginn greiði.

5. Mig styrk í stríði nauða,
æ, styrk þú mig í dauða.
Þitt lífsins ljósið bjarta
þá ljómi' í mínu hjarta.

6. Með blíðum barnarómi
mitt bænakvak svo hljómi:
Þitt gott barn gef eg veri
og góðan ávöxt beri.

### 315.

Lag: Af instu rót.

ÞÚ, Guð míns lífs, eg loka augum mínum
í líknar-mildum föðurörmum þínum,
og hvíli sætt, þótt hverfi sólin bjarta,
eg halla mér að þínu föðurhjarta.

2. Æ, tak nú, Drottinn, föðu'r og
móður mína
í mildiríka náðar-verndun þína,
og ættlið mitt og ættjörð virztu geyma
og engu þínu minsta barni gleyma.

3. Ó, sólarfaðir, signdu nú hv'ert
auga,
en sér í lagi þau, sem tárin lauga,
og sýndu miskunn öllu því, sem andar,
en einkum því, sem böl og voði grandar.

4. Þín líknarásján lýsi dimmum
heimi;
þitt ljósið blessað gef í nótt mig
dreymi.
Í Jesú nafni vil eg væran sofa
og vakna snemma þína dýrð að lofa.

## 316.

Lag: Guð, Jehóva, þig göfgum vér.

GEF oss í dag vort daglegt brauð,
vor Drottinn Guð, af þínum auð;
vort líf og eign og bústað blessa
og blessa oss nú máltíð þessa;
en gef vér aldrei gleymum þér,
er gjafa þinna njótum vér.

## 317.

Lag: Nú fjöll og bygðir blunda.

EG stend til brautar búinn,
mín bæn til þín og trúin
er einka-athvarf mitt,
ó, Guð, mín stoð og styrkur;

eg stari beint í myrkur,
ef mér ei lýsir ljósið þitt.

2. Það blessað ljós mig leiði
og leiðir mínar greiði,
þótt ógni grand og glys.
Í blíðu' og hreggi hörðu,
um hraun og slétta jörðu
án þín er búið böl og slys.

3. Eg stend til brautar búinn,
mín bæn til þín og trúin
er hjartans huggun mín;
minn veiki vina skari
eg veit, þótt burt eg fari,
er, herra Guð, í hendi þín.

### 3. Skólinn.

### 318.

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

ÞÚ meistarinn frá himnahöll,
sem himinfræði kennir öll,
hve fávís eg og aumur er,
ef eigi læri eg hjá þér!
Æ, lít til mín og leið mig inn
sem lærisvein í skóla þinn.

2. Ó, lát mig, Jesú, læra' af þér;
þann lærdóm einkum kendu mér,
sem Guðs að barni gjöri mig
og greiði mér til himna stig.
Ó, veit mér æ að vaxa' í náð
og vel að geta stríð mitt háð.

## 319.

Lag: Sólin upp runnin er.

KRISTS orð sé æ oss hjá
vor æðstu gæði.
Hver minni annan á.
hver annan fræði.
Með sálmum, ljóðum, söngvum,
kvæðum, vísum,
vér syngjum kátt og sætt,
í sjálfum Guði kætt,
hans lofi lýsum.

2. Í Jesú nafni nú
til náms og starfa,
í auðmýkt, ást og trú
við iðju þarfa.
Og hvað sem nú vér höfum fyrir
stafni,
já, hvað vér höfumst að,
í helgu gjörum það
Guðs náðar nafni.

## 320.

Lag: Mín huggun og von.

FAÐIR barnanna
faðir stjarnanna,
faðir blómanna björtu!
Barnsleg í anda
börn þín hér standa;
þér vér helgum vor hjörtu.

2. Faðir sannleikans,
faðir kærleikans,
faðir gjörvalls hins góða!

Lát þú oss læra
lof þér að færa,
líf og lausnari þjóða.

3. Faðir gleðinnar,
faðir sælunnar!
blessa barnanna raðir.
Í þínum anda
æ lát oss standa;
abba, ástkæri faðir!

## 321.

Lag: Hver, sem að reisir hæga bygð.

GEF þú, sem börn tókst þér í skaut
og þinni blessun gæddir,
að ungum lýsi lífs um braut
það ljós, er þú oss gæddir,
svo geti þeir í heimi hér
sér hegðað eins og kristnum ber,
sem eru endurfæddir.

### 4. Ættlandið.

## 322.

Með sínu lagi.

Ó, blessa, Guð, vort feðra-frón,
veit farsæld hverskyns gæða.
Lát ekkert mæta mein né tjón;
í miskunn lít á hverja bón,
sem hafin er til hæða.

2. Gjör eindrægninnar öflug bönd;
leys ómenskunnar dróma;
Stýr barna þinna hjarta' og hönd;

lát hlíð og dal og sjávarströnd
af frið og frelsi ljóma.

3. Vort föðurland þér felum vér,
ó, faðir allra þjóða.
Oss kærleiksleysi' og vantrú ver.
Öll von er fest á einum þér,
sem gefur alt hið góða.

---

# XII.
# Passíusálmar.

## 323.

**(I) Um herrans Kristí útgang í grasgarðinn.**

Lag: Minst þú, ó, maður, á minn deyð.

UPP, upp, mín sál, og alt mitt geð,
upp, mitt hjarta og rómur með;
hugur og tunga hjálpi til;
herrans pínu eg minnast vil.

2. Sankti Páll skipar skyldu þá,
skulum vér allir jörðu á
kunngjöra þá kvöl og dapran deyð,
sem Drottinn fyrir oss auma leið.

3. Ljúfan Jesúm til lausnar mér
langaði víst að deyja hér;
mig skyldi' og lysta' að minnast þess
mínum Drotni til þakklætes.

4 Innra mig loksins angrið sker,
æ, hvað er lítil rækt í mér;
Jesús er kvalinn í minn stað,
of sjaldan hef eg minst á það.

5. Sál mín, skoðum þá sætu fórn,
sem hefir oss við Guð, Drottin vorn,
fordæmda aftur forlíkað;
fögnuður er að hugsa um það.

6. Hvað stillir betur hjartans böl
en heilög Drottins pína' og kvöl?
Hvað heftir framar hneyksli' og synd
en herrans Jesú blóðug mynd?

7. Hvar fær þú glöggvar, sál mín,
sanna Guðs ástar hjarta geð, [séð
sem faðir gæzkunnar fékk til þín,
framar en hér í Jesú pín?

8. Ó, Jesú, gef þinn anda mér,
alt svo verði til dýrðar þér
uppteiknað, sungið, sagt og téð.
síðan þess aðrir njóti með.

---

9. *Að liðinni máltíð lofsönginn*
*las sínum föður Jesús minn*
*síðasta kvöldið, seint það var;*
*sungu með hans lærisveinar.*

10. Guðs sonur, sá sem sannleiks ráð
sjálfur átti á himni' og láð,
þáði sitt brauð með þakkargjörð,
þegar hann umgekst hér á jörð.

11. Þurfamaður ert þú, mín sál,
þiggur af Drotni sérhvert mál
fæðu þína og fóstrið alt;
fyrir það honum þakka skalt.

12. Illum þræl er það eilíf smán,
ef hann þiggur svo herrans lán

drambsamlega og dreissar sig.
Drottinn geymi frá slíku mig.

13. *Eftir þann söng, en ekki fyr,*
*út gekk Jesús um hússins dyr;*
*að hans siðvenju er það skeð;*
*til Olíufjallsins ganga réð.*

14. Lausnarans venju lær og halt,
lofa þinn Guð og dýrka skalt.
Bænarlaus aldrei byrjuð sé
burtför af þínu heimile.

15. *Yfir um Kedrons breiðan bekk*
*blessaður þá með sveinum gekk.*
Sá lækur nafn af sorta ber.
Sýnir það góðan lærdóm mér.

16. Yfir hörmungar er mín leið,
æ meðan varir lífsins skeið;
undan gekk Jesús, eftir eg
á þann að feta raunaveg.

17. Horfi eg nú í huga mér,
herra minn Jesú, eftir þér;
dásamleg eru dæmin þín;
dreg eg þau gjarnan heim til mín.

18. Þú vildir ekki upphlaup hart
yrði, þegar þú gripinn vart;
út í grasgarðinn gekstu því,
gafst þig í manna hendur frí.

19. Af því læri' eg að elska ei frekt
eigið gagn mitt, svo friður og spekt
þess vegna raskist; þér er kært
þolinmæði og geð hógvært.

20. Sorgandi gekstu sagða leið.

særði þitt hjarta kvöl og neyð;
hlægjandi glæpa hljóp eg stig;
hefir þú borgað fyrir mig.

21. Vort líf er grasgarðs-ganga rétt;
gröfin er öllum takmark sett.
Syndugra leið ei leik þér að;
lendir hún víst í kvalastað.

22. Iðrunartárin ættu vor
öll hér að væta lífsins spor;
gegnum dauðann með gleði' og lyst
göngum vér þá í himnavist.

23. *Þá Jesús nú á veginum var,*
*við postulana' hann ræddi þar,*
*henda myndi þá hrösun fljót;*
*harðlega Pétur þrætti' á mót.*

24. Frelsarinn Jesús fyrir sér,
þá fall og hrösun er búin mér:
hann veit og líka lækning þá,
sem leysa kann mig sorgum frá.

25. *Aldrei, kvað Pétur, ætla eg*
*á þér hneykslast á nokkurn veg,*
*þó allir frá þér falli nú.*
Fullkomleg var hans lofun sú.

26. Sú von er bæði völt og myrk,
að voga freklega' á holdsins styrk;
án Guðs náðar er alt vort traust
óstöðugt, veikt og hjálparlaust.

27. Gef mér, Jesú, að gá að því,
glaskeri ber eg minn fésjóð í;
viðvörun þína virði' eg mest,
veikleika holdsins sér þú bezt.—*Amen.*

## 324.

**(II.) Um Krists kvöl í grasgarðinum.**

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

JESÚS *gekk inn í grasgarð þann.*
*Getsemane er nefndur hann.*
Af olíuþrúgan sá auknafn bar;
Olíutréð rétta herrann var;
olíum hjálpræðis allra fyrst
af hans lífi þar pressaðist.

2. Í aldingarði fyrst Adam braut,
aftur Jesús það bæta hlaut;
aldingarðs eikin ávöxt gaf,
eymd, synd og dauði kom þar af;
í aldingarði ljúft lífsins tréð
lífgunar frjóvgun veita réð.

3. *Júdas þekti vel þennan stað;*
þar hafði' hann lengi um hugsað,
helzt myndi pláss það hentugast,
herrann mætti þar forráðast,
svo fæstir hefðu' að segja' af því,
og svik hans lægju svo hylming í.

4. Satan hefir og sama lag,
situr hann um mig nótt og dag,
hyggjandi' að glögt hvar hægast er,
í hættu' og synd að koma mér,
en þó í þeim stað allra-mest,
sem á eg Drotni að þjóna bezt.

5. Heimsbörnin hafa list þá lært,
lygð og svikræði er þeim kært,
fótsporum djöfuls fylgjande,
falsráðin draga þó í hlé.

Frá hans og þeirra hrekkjastig,
herra Jesús bevari mig.

6. *Oft hafði Jesús í þann stað*
*áður gengið*, því veit eg það,
hefir sannlega herrann minn
hugsað um pínu' og dauða sinn,
fulltingis beðið föðurinn þar,
svo fengi hann staðist píslirnar.

7. Jurtagarður er herrans hér,
helgra guðs barna legstaðer.
Þegar þú gengur um þenna reit,
þín sé til reiðu bænin heit;
andláts þíns gæt og einnig þá
upprisudaginn minstú á.

8. *Lærisveinana lausnarinn kær*
*lét suma bíða nokkuð fjær,*
*þrjá tók þó með sér hjartahreinn;*
hann girntist ekki' að vera einn.
Sála mín, þar um þenkja skalt,
þér til lærdóms það skeði alt.

9. Guðs kristni er grasgarður einn;
Guðs sonar ertu lærisveinn;
sittu hvar sem hann segir þér;
sönn hlýðni bezta offur er;
til krossins ef hann þig kallar þar,
kom þú glaðvær án möglunar.

10. Freisting þung ef þig fellur á,
forðaustu einn að vera þá;
guðhræddra selskap girnstu mest;
gefa þeir jafnan ráðin bezt.

Huggun er manni mönnum að;
miskunn Guðs hefir svo tilskikkað.

11. *Hjartanlega varð harmþrunginn*
*herrann Jesús, í þetta sinn;*
*holdið skalf við það feiknafár,*
*flóðu í vatni augun klár;*
*sagði grátandi: sál mín er*
*svo alt til dauða hrygg í mér.*

12. *Hart nær steinsnari frá þeim fór,*
*féll* ***strax til jarðar*** *Drottinn vor*
*flatur sitt blessað andlit á;*
ógnarleg kvöl hann mæddi þá;
hjartað barðist í brjósti heitt,
bæði var líf og sálin þreytt.

13. Samvizkan mig nú sjálfan sker;
sé eg það gjörla, Jesú kær,
mín synd, mín synd, hún þjáði þig.
Þetta alt leiðstu fyrir mig.
Aví, hvað hef eg aumur þræll
aukið þér mæðu, drottinn sæll!

14. Mér virðist svo, sem mín misgjörð
sé meiri' að þyngd en himinn og jörð;
því Jesús það föðursins orðið er,
sem alt með sínum krafti ber.
flatur hlaut þó að falla þar,
þá fyrir mig bar hann syndirnar.

15. Hjartans gleði og huggun traust
hér gefst þér, sál mín. efalaust.
Það gjald fyrir mína misgjörð
er meira vert en himinn og jörð;

hans sorg, skjálfti og hjartans pín
hjá Guði' er eilíf kvittun mín.

16. *Fram þegar Jesús fallinn var,*
*fegurstu bæn hann gjörði þar:*
*Abba, faðir ástkæri minn,*
*af mér tak þennan kaleikinn,*
*þó svo, sem helzt þú sjálfur vilt,*
*sagði herrann með geðið stilt.*

17. Úrræðin bezt er auðmjúkt geð,
angrað hjarta og bænin með;
hve nær sem þrengir hörmung að,
hugsaðu, sál mín, vel um það;
Óþolinmæði' og möglun þver
meiri refsingar aflar sér.

18. Óbljúgur skaltu aldrei neitt
útheimta, sem þér girnist veitt
til holdsins muna hentugt þér;
hugsa jafnan að Drottinn sér,
hvað lífi' og sál til liðs er nú,
langtum betur en sjálfur þú.

19. Eins líkaminn og sálin sé
sannauðmjúkleg í bæninne;
álítur Drottinn innra hitt;
ei að síður skal holdið þitt
fyrir Guð með blygðun ganga fram;
gjörði svo forðum Abraham.

20. Jesú, þín grátleg grasgarðspín
gleður örþjáða sálu mín;
þitt hjartans angur hjartað mitt
við hrygð og mæðu gjörði kvitt;

því skal míns hjartans hjartaþel
heiðra þig, minn Emanúel.—*Amen.*

## 325.

**(III.) Um herrans Kristí dauðastríð í grasgarðinum.**

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

ENN vil eg, sál mín, upp á ný
upphaf taka á máli því.
*Upp stóð Jesús, þótt þreyttur sé,*
*þrisvar sinnum frá bæninne;*
*lærisveinarnir sváfu fast,*
*sankti Pétur því ávítast.*

2. *Til og frá gekk hann þrisvar þó.*
Þar fékst ei minsta hvíld né ró;
undanfæri því ekkert fann,
alstaðar Drottins reiði brann:
gegnum hold, æðar, blóð og bein
blossi guðlegrar heiftar skein.

3. Himnaljósið var honum byrgt,
helzt því af nótt var orðið myrkt;
ástvina huggun enga fann,
allir sváfu um tíma þann;
jörðin var honum óhæg eins;
engin fékst bót til þessa meins.

4. Í þessum spegli það sé eg:
Þeim, sem Drottinn er reiður mjög,
hvorki verður til huggunar
himinn, jörð, ljós, né skepnurnar;
án Guðs náðar er alt um kring
eymd, mæða, kvöl og fordæming.

5. Framar sést hér, hvað fárleg sé

fordæmdra kvöl í helvíte;
frá einni plágu til annarar
í yztu myrkrum þeir hrekjast þar;
ó, hvað syndin afskapleg er,
alt þetta leiðir hún með sér.

6. Í þriðja máta' af þessu sést,
það lær þú, sál mín, allra-bezt,
Guðs reiði-eld og eilíft fár
út slöktu' og lægðu herrans tár;
alt honum því til ama var,
svo alt verði þér til huggunar.

7. Hrygðarsporin þín, herra minn,
í himnaríki mig leiða inn;
í næturmyrkrum lá neyð á þér,
náðar og dýrðar ljós gafst mér;
vinir þér enga veittu stoð,
svo vinskap fengi' eg við sjálfan Guð.

8. *Þar kom loksins á þeirri tíð*
*þreytti Jesús við dauðann stríð.*
Andlát mitt bæði' og banasótt
blessaðist mér þá sömu nótt;
dauðinn tapaði', en Drottinn vann,
dýrðlegan sigur gaf mér þann.

9. Á gekk svo dauðans aflið ríkt,
ekkert dæmi má finna slíkt ;
*allur líkami lausnarans*
*litaðist þá í blóði hans;*
*sá dreyrasveitinn dundi á jörð.*
Drottins pína því mjög var hörð.

10. Í Adams broti var blóðskuld gjörð,
bölvun leiddi það yfir jörð;

Jesú blóð hér til jarðar hné,
jörðin aftur svo blessuð sé,
ávöxtur, gróði' og aldin klár
oss verði' að notkun sérhvert ár.

11. Sárkalda dauðans sveitabað
um síðir þá mér kemur að,
sárheiti dreyra-sveiti þinn
sefi og mýki, Jesú minn;
angistarsveita eilíft bál
aldrei lát snerta mína sál.

12. Mér er svo kvöl þín minnileg,
á morgni hverjum þá upp stend eg;
fyrst eg stíg niður fæti á jörð,
færi' eg þér hjartans þakkargjörð;
blóðsveitinn þinn mér bið eg sé
blessun og vernd á jörðunne.

13. Hörmung þá særir huga minn,
hef' eg mig strax í grasgarð þinn,
dropana tíni' eg dreyra þíns,
Drottinn, í sjóðinn hjarta míns;
það gjald alleina gildir bezt
hjá Guði fyrir mín afbrot verst.

14. Upphaf alls mesta ófögnuðs,
áklögun ströng og reiði Guðs,
bætt er, friðstilt og forlíkað;
faðirinn lét sér lynda það;
sonurinn bar hans bræði frí;
borgaðist þrællinn út með því.

15. *Þess meir sem pínan þrengdi að,*
*því innilegar Jesús bað;*
*heilagur engill himnum frá*

*herra sinn kom að styrkja þá.*
Enn hefir þú hér einn lærdóm,
iðka og lær hann, sál mín fróm.

16. Ef hér verður, sem oft kann ske,
undandráttur á hjálpinne,
bið, styn, andvarpa æ því meir,
sem aukast vilja harmar þeir,
föðurlegt hjarta hefir Guð
við hvern, sem líður kross og nauð.

17. Sjá þú, að engill sendur var
syni Guðs hér til huggunar.
Þeir góðu andar oss eru nær
alla tíma, þá biðjum vær,
helzt þá lífs enda líður að;
Lazarí dæmi kennir það.

18. Heiður, lof, dýrð á himni' og jörð,
hjartanleg ástar-þakkargjörð,
Drottinn Jesú, þér sætast sé
sungin af allri kristninne
fyrir stríðið, þig þjáði frekt;
það er vort frelsi æfinlegt.—*Amen.*

## 326.

### (IV.) Samtal Kristí við lærisveinana.

Lag: Minst þú, ó, maður, á minn deyð.

*POSTULA kjöri Kristur þrjá*
*í kvölinni sér að vera hjá,*
*bauð þeim: Vakið og biðjið víst,*
*bráðleg freistni svo grandi sízt.*
2. *Strax sem Jesús um steinsnar nær*
*sté fram lengra (*þess gætum vær*),*

*allir sofnuðu sætt með ró,*
*sjálfur herrann einn vakti þó.*

3. Áður var svoddan um þig spáð;
ásett fram kom nú herrans ráð.
Þú hlauzt Guðs reiðiþrúgu einn
þreyttur að troða, Jesú hreinn.

4. Ef eg skal ekki sofna í synd
(svo er náttúran veik og blind),
um steinsnar máttu eitt mér frá
aldrei, minn Jesú, víkja þá.

5. Næturhvíldin mín náttúrlig
nóg er mér trygg, þá veit eg þig
hjá mér vaka til hjálpræðes;
hvert kvöld vil eg þig biðja þess.

6. *Þrisvar Jesús til þeirra fór,*
*því að hann mæddi pína stór;*
*hann bað Petrum með hýrri lund*
*hjá sér vaka um eina stund.*

7. *En hann sofnaði æ því meir;*
*svo ekki vissi hann né þeir,*
*hverju svöruðu honum þá.*
Herrans pínu mjög jók það á.

8. Mig hefir ljúfur lausnarinn
leitt inn í náðar grasgarð sinn,
vakandi svo eg væri hér;
vitni skírnin mín um það ber.

9. Ungdóms bernskan, sem vonlegt var,
vildi mig ofmjög svæfa þar;
foreldra hirting hógværlig
hans vegna kom og vakti mig.

10. Aldurinn þá mér öðlaðest,

á féll gjálífis svefninn mest;
kennimenn Drottins komu þrátt,
kölluðu mig að vakna brátt.

11. Fullvaxinn gleymsku svefninn sár
sótti mig heim, og varð mjög dár;
dimman heimselsku dróst þar með,
dapurt var mitt til bænar geð.

12. Þá kom Guðs anda hræring hrein,
í hjarta mitt inn sá ljóminn skein;
en í heimskunni svo eg svaf,
sjaldan mig neitt að slíku gaf.

13. Fárlega var mín fíflskan blind;
forlát mér, Jesú, þessa synd,
hvar með að jók eg hugraun þér,
en hefnd og refsing sjálfum mér.

14. Láttu þó aldrei leiðast þér,
ljúfi Jesú, að benda mér;
hugsi til mín þitt hjarta milt,
hirtu mig líka sem þú vilt.

15. Vil eg nú hjartans feginn fá,
frelsari minn, að vaka þér hjá;
andinn til reiðu er í stað,
of mjög holdið forhindrar það.

16. Jesús unti með ljúfri lund
lærisveinum að hvíla um stund;
því hann vorkynti þeim, og mér,
það eitt mín blessuð huggun er.

17. Síðast allra, þá sá hann þar
svikara lið fyrir hendi var,
*bauð þeim: vakið og biðjið bezt;*
*burt er nú værðartíðin mest.*

18. Svoddan áminning, sála mín,
sannlega skyldi ná til þín,
svo þig ei skaði svefninn vær;
svikarinn er þér ekki fjær.

19. Dauðinn forræður fjörið þó;
fyr en varði því margur dó;
hann er í nánd, þó sjáist sízt,
sérhvern dag er hans áhlaup víst.

20. Dauðinn þá mætir dapur þér,
dóminn hefir hann eftir sér;
djöfullinn bíður búinn þar
í bálið vill draga sálirnar.

21. Sjá þú vel til, að svoddan her
sofandi komi ekki' að þér;
í hreinni iðrun því hvern dag vak,
herskrúða Drottins á þig tak.

22. Bænin má aldrei bresta þig,
búin er freisting ýmislig;
þá líf og sál er lúð og þjáð,
lykill er hún að Drottins náð.

23. Andvana lík til einskis neytt,
er að sjón, heyrn og máli sneytt;
svo er án bænar sálin snauð,
sjónlaus, köld, dauf og rétt steindauð.

24. Vaktu, minn Jesú, vaktu' í mér,
vaka láttu mig eins í þér;
sálin vaki, þá sofnar líf;
sé hún ætíð í þinni hlíf. — *Amen.*

## 327.

**(V.) Um komu Gyðinga í grasgarðinn.**

Lag: Heiðrum vér Guð af huga og sál.

MEDAN *Jesús það mæla var,*
*mannfjöldi kom í garðinn þar.*
*Júdas* (sá herra sinn forréð),
*sveinar prestanna' og stríðsfólk með,*
*skriðbyttur báru, blys og sverð,*
*búnir mjög út í þessa ferð.*
Um það eg framar þenkja verð.

2. Verður það oft, þá varir minst,
voveifleg hætta búin finst;
ein nótt er ei til enda trygg;
að því á kvöldin, sál mín, hygg.
Hvað helzt sem kann að koma upp á,
kjós Jesúm þér að vera hjá;
skelfing engin þig skaðar þá.

3. *En Júdas hafði áður sagt*
*auðkenni þeim og svo við lagt:*
*Hvern eg kyssi, handtakið þann,*
*höndlið með gætni' og bindið hann.*
Varastu, sál mín, svik og prett,
þó sýnast megi í hylming sett.
Drottinn augljóst það dæmir rétt.

4. *En Jesús áður alt fornam,*
*hvað átti við hann að koma fram;*
*því gekk hann sjálfur þeim á mót,*
*þannig ræddi með kærleikshót:*
*Að hverjum leitið hingað þér?*
*Hópur illmennis aftur tér:*
*Jesúm naðverska nefnum vér.*

5. *Jeg er hann, sagði Jesús þá:*
*Júdas sjálfur stóð flokknum hjá;*
*Öflugt var Drottins orðið það,*
*allir til jarðar féllu' í stað.*
Hvað hans óvini hrelldi mest,
huggar nú mína sálu bezt;
í allri neyð það auglýsest

6. Þá eg fell eður hrasa hér,
hæstur Drottinn vill reiðast mér;
þá segir Jesús: eg em hann,
sem endurleysti þann syndarann
með mínu blóði' og beiskri pín;
bræði, faðir kær, stiltu þín;
eflaust er það afsökun mín.

7. Djöfull, synd og samvizkan ill
sálu mína þá kvelja vill,
eins segir Jesús: eg em hann,
sem afmá þína misgjörð vann,
líka sem vindur léttfær ský
langt feykir burtu', og sést ei; því
á mig trú þú, svo ertu frí.

8. Þegar mig særir sótt eða kvöl,
sorgleg fátækt og heimsins böl,
jeg veit þú segir: jeg er hann,
Jesús, sem lækna vill og kann;
auðlegð á himnum áttu víst;
eymd þín og hrygð í fögnuð snýst;
heiminn sigraði' eg; hræðstu sízt.

9. Á dauðastund og dómsins tíð,
Drottinn, það skal mín huggun blíð,
orð þitt er sama: eg em hann,
sem inn þig leiði í himnarann;

þjónn minn skal vera þar eg er,
því hefir þú, Jesús, lofað mér,
glaður eg þá í friði fer.
10. Jeg segi' á móti: jeg er hann,
Jesús, sem þér af hjarta ann,
orð þitt lát vera eins við mig:
elska eg, seg þú, líka þig;
eilíft það samtal okkar sé,
upp byrjað hér á jörðunne.
Amen, eg bið svo skyldi ske. — *Amen.*

## 328.

**(VI.) Um Júdas koss og Kristí fangelsi.**

Lag: Einn herra eg bezt ættl.

FRELSARINN hvergi flýði,
fjandmenn þó lægi senn;
herrann beið þeirra' hinn þýði;
þeim leyfði' á fætur enn;
*hvern helzt þeir hyggi að finna,*
*hann spyr* (sem ljóst eg get);
*jafnt sem fyr,* Júdar inna,
*Jesúm af Nazaret.*

2. *Eg em hann, aftur sagði*
*annað sinn Jesús hátt.*
Lærisveinunum lagði
líknarorð þetta brátt:
*Ef mín yður lystir leita,*
*þá látið þessa frí.*
*Búinn var hann að heita*
*hjálpræðisorði því.*

3. Hér af má heyra' og skilja

herrans vors Jesú makt;
ekki gat án hans vilja
á hann neinn hendur lagt.
Við mig þó hatri hreyfi
heiftarmenn illgjarner,
enginn kann, utan hann leyfi,
eitt skerða hár á mér.

4. Föðurnum hjarta-hlýðinn
hann gafst á þeirra vald.
Sál mín, því sért ókvíðin,
sjá, þitt óhlýðnis gjald
viljugur vildi' hann bæta.
Víst er þín skylda auðsén:
Ást og auðsveipni mæta
áttu að leggja' í gen.

5. *Júdas kom fljótt, sem kunni,*
*kyssandi Jesúm nú,*
*mælti fláráðum munni:*
*Meistari, sæll vertú!*
*Herrann hógværðarríkur,*
*hann sagði: þú, minn vin,*
*Með kossi' son mannsins svíkur.*
Sízt mun því hefndin lin.

6. Evu munn eplið eina
aumlega ginti' um sinn;
falskoss því fékk að reyna,
frelsari, munnur þinn:
blíðmælum djöfuls bægðu,
svo blekkist eg ekki' á þeim,
heims hrekki líka lægðu,
líf mitt og æru geym.

7. Auðsén eru' augum þínum
Öll vél og launsvik hér;
hrind þeim úr huga mínum;
hreint skapa geð í mér;
virztu mig vin þinn kalla,
verða lát raun þar á;
holds brest og hræsni alla
hindra og tak mér frá.

8. Í hrygð og háska mikinn
hefir mig satan leitt;
æ, hvað oft eg verð svikinn!
ei get eg hjá því sneitt.
Son mannsins svikum mætti
sannlega upp á það,
svikanna háskinn hætti
hjá mér ei fyndi stað.

9. Munnur þinn (að eg meina)
minnist við Jesúm bert,
þá hold og blóð hans hreina
hér fær þú, sál mín, snert.
Guðs vegna að þér gáðu,
gef honum ei koss með vél;
í trú og iðrun þig tjáðu,
til bú þitt hjarta vel.

10. *Þangað þegar að stundu*
*þusti illræðislið;*
*ljúfasta lamb Guðs bundu;*
lokið var öllum frið;
harðsnúnum reipum reyrðu;
ranglætis míns hann galt;
Drottinn í dróma keyrðu,
dofnaði holdið alt.

11. Júðar þig, Jesú, strengdu,
jeg gaf þar efni til,
syndir mínar þér þrengdu,
þess nú eg iðrast vil;
glæpabönd af mér greiðir,
og gef mér frelsið þitt;
andlegum dofa eyðir,
sem á féll hjartað mitt.

12. Guðs son var gripinn höndum,
gefinn svo yrði eg frí;
hann reyrðist hörðum böndum,
hlaut eg miskunn af því;
fjötur þung og fangelsi
frekt lá, minn herra', á þér,
dauðans og djöfuls helsi
duttu því laus af mér.

13. Bið eg þín böndin hörðu
bindi nú hvern minn lið
frá allskyns glæpa gjörðum,
og göldum heimsins sið;
laus og liðugur andi,
lífs meðan dvelst eg hér,
þér sé jafnan þjónandi;
þessa bæn veittu mér! — *Amen.*

## 329.

**(VII.) Um vörn sankti Péturs og Malkus eyrasár.**

Lag: Guðs vors nú gæzku prísum.

L*AUSNARANS lærisveinar,*
*þá litu atburð þann,*

*og Júða athafnir einar,*
*allir senn spurðu hann:*
*Eigum vér ekki að slá,*
*óvina sveit með sverði*
*svo hér ei þyngra verði?*
Sál mín, þar gjör að gá.

2. Ef þú áforma vildir
eitthvað, sem vandi' er á;
þarfleg ráð þiggja skyldir,
og þig vel fyrir sjá;
af því oftlega sker,
sá, sem er einn í ráðum,
einn mætir skaða bráðum;
seint þá að iðrast er.

3. En með því mannleg vizka
í mörgu náir skamt,
á alt kann ekki' að gizka,
sem er þó vandasamt:
Kost þann hinn bezta kjós;
Guðs orð fær sýnt og sannað,
hvað sé þér leyft eða bannað;
það skal þitt leiðarljós.

4. *Pétur með svellu sinni*
*sverð úr slíðrum dró,*
*hans trúi' eg bræðin brynni,*
*og beint í flokkinn hjó.*
*Malkus hlaut hér af tjón;*
*hann misti hið hægra eyra,*
*höggið tók ekki meira;*
*þessi var biskups þjón.*

5. *Lausnarinn ljóst nam svara*

*lærisveinunum fyrst:*
*Látið þessa fram fara*
*frekast að sinni lyst;*
*Pétri svo sagði nú:*
*Sverð-dauða sá skal sekur,*
*sem sverð án leyfis tekur;*
*sverð slíðra, Símon, þú!*

6. *Meinar þú faðirinn mildi*
*mundi ei senda her,*
*ef eg þess óska vildi,*
*engla til fylgdar mér*
*fleiri' en tólf fylkingar?*
*Eða mun skylt eg ekki*
*áskenktan kaleik drekki,*
*sem mér þó settur var?*

7. *Svo mun uppfyllast eiga,*
*hvað er í ritning tjáð,*
*og síðan sannast mega,*
*hvað sést fyrir löngu spáð.*
Svo eftir sermon þann,
*Eyrað þjónsins áhrærði,*
*sem áður Pétur særði,*
*og læknaði að heilu hann.*

8. Sál mín, lærum og sjáum,
með sannri hjartans lyst;
tvenslags sverð glögt við gáum,
greina skal þar um fyrst:
Sverð Drottins dómarinn ber;
sverð eigin hefndar annað,
sem öllum verður bannað:
það kennir Kristur hér.

9. Bið eg, hér glögt að gætir,

góð valdstjórn heiðarlig,
saklausan sízt þú grætir,
né sjálfan meiðir þig;
virð sverð Guðs vandlætis,
blóð skaltu ei því banna,
burt sníddu grein lastanna:
merk dæmi Móisis.

10. Þitt sverð, sem þitt er eigið,
fyrir þína eigin sök
skal ekki úr skeiðum dregið,
skýr eru til þess rök;
Jesús það bannar bert;
honum er skylt þú hlýðir,
hógvær umberir, líðir,
það móti þér er gert.

11. Ræn ei Guð sínum rétti,
því reiknast hefndin hans;
valdstjórn til verndar setti
víða um bygðir lands;
ellegar að því gá:
Sverð Drottins, sem hér nefnist,
sannlega á þér hefnist;
tjón þitt tvefaldast þá.

12. Malkus, sem misti eyrað,
merkir þá alla frí,
sem orð Guðs ekki heyra,
eiga þó kost á því:
Heyrn er þeim hægri sljó,
vinstri hlust heilli halda,
háð og spélni margfalda
nóg geta numið þó.

13. Skálka-mark mátti kalla
Malkus hér fengi rétt;
á Guðs óvini alla
auðkenni slíkt er sett,
orð hans ei akta hér;
jeg bið og jafnan segi:
Jesú minn, láttu eigi
þau merki sjást á mér.

14. Enn finnur þú hér framar
frelsarans dæmi bezt;
hörmungar hættusamar
á honum lágu mest;
sitt traust þó setti hann
á Guðs föður gæzku ríka;
gjörðu það, sál mín, líka,
ef kross þig henda kann.

15. Kvöl sína Jesús kallar
kaleik áskenktan sér.
Kross þinn og eymdir allar
eins máttu nefna hér;
því Drottinn drakk þér til,
fyrir þig þá hann píndist,
svo þú, mín sál, ei týndist;
gjör honum gjarnan skil.

16. Þú mátt þig þar við hugga,
hann þekkir veikleik manns;
um þarftu ekki' að ugga
ádrykkjuskamtinn hans;
vel þín vankvæði sér;
hið súrasta drakk hann sjálfur,
sætari og minni en hálfur
skenktur er skerfur þér.

17. Heift mína' og hefndar næmi,
hefir þú, Jesú, bætt;
mér gafst manngæzku dæmi,
þá Malkum fékstu grætt.
Eg þarf og einnig við,
eyrað mitt læknað yrði,
svo orð þitt heyri og virði;
þýðlega þess eg bið.

18. Hjálpa mér, herra sæli,
að halda krossbikar minn,
svo mig ei undan mæli,
né mögli' um vilja þinn.
Eg bið: Almætti þitt
vorkynni minni veiki,
ef verða kann eg skeiki;
hrestu þá hjartað mitt! — *Amen.*

## 330.

**(VIII.) Prédikun Kristí fyrir Gyðingum.**

Lag: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

T*ALAÐI Jesús tíma þann*
*til við óvini sína,*
*sem komnir voru að höndla hann.*
Heyrum þá kenning fína.

2. *Sem til illvirkja eruð þér*
*útgengnir mig að fanga;*
*áður gat enginn meinað mér*
*í musterinu að ganga.*

3. *Daglega hef eg sýnt og sagt*
*sannleiksins kenning mæta;*
*enginn gat hendur á mig lagt;*
*ættuð nú þess að gæta.*

4. *Yfir stendur nú yðar tíð,*
*uppfylt svo ritning verði;*
*myrkranna geysar maktin stríð.*
Mæla svo Jesús gerði.

5. Ljúflyndi blessað lausnarans,
líttu hér, sál mín kæra;
sá vill ei dauða syndugs manns;
svoddan máttu nú læra.

6. Jesús þeim sýndi' í sannri raun
sálarheill, náð og frelsi;
Guðs syni Júdar guldu' í laun
grimd, hatur og fangelsi.

7. Furða það, sál mín, engin er
(ei skalt því dæmi týna),
þó veröldin launi vondu þér
velgjörð mjög litla þína.

8. Gyðinga dæmi skynja skalt,
skil þig við ódygð slíka;
þakklæti fyrir góðgjörð gjalt
Guði og mönnum líka.

9. Jeg læt mér þessu jafnframt sagt,
Jesú, af orðum þínum,
enginn gat hendur á þig lagt
af eigin vilja sínum.

10. Þann takmarkaða tímans punkt
til setti faðirinn mildi,
nær það ánauðarokið þungt
yfir þig ganga skyldi.

11. Eins uphaf líka' og ending með
allrar hörmungar minnar,

faðir himneski', er fyrir séð
í forsjón miskunnar þinnar.

12. Þessi nú tíminn yðar er,
óvinum Jesús sagði.
Herrans ég þetta máltak mér
í minni og hjarta lagði.

13. Nú stendur yfir mín náðartíð,
nauðsyn er þess eg gætti,
Líður mig drottins biðlund blíð,
brot mín svo kvittast mætti.

14. Ef eg þá tíð, sem Guð mér gaf,
gálaus forsóma næði,
Drottins tími þá tekur af
tvímælin öll í bræði.

15. Því lengur sem hans biðlund blíð
beðið forgefins hefur,
þess harðari mun heiftin stríð,
hefndar þá Drottinn krefur.

16. Guðs vegna að þér gá, mín sál,
glæpum ei lengur safna;
gjörum iðrun, því meir en mál,
mun vera synd að hafna.

17. Í dag við skulum skifta' um
skal synd á flótta rekin; [skjótt,
hver veit nema sé nú í nótt
náðin í burtu tekin?

18. Talar Jesús um myrkra makt:
merkið það, valdstjórnendur.
Yður skal nú í eyra sagt:
Umdæmið heims tæpt stendur.

19. Ljósið myrkrin burt leiðir frí

með ljóma birtu sinnar;
varast að skýla skálkinn því
í skugga maktar þinnar.

20. Minstu, að myrkra maktin þver,
þá myrkur dauðans skalt kanna;
í yztu myrkrum og enginn sér
aðgreining höfðingjanna.

21. Myrkri léttari' er maktin þín,
minst þess fyrir þinn dauða;
þá Drottins hátignar dýrðin skín,
hann dæmir eins ríka og snauða.

22. Fyrst makt heims er við myrkur [líkt,
min sál, halt þér í stilli;
varastu þig að reiða ríkt
á ríkismannanna hylli.

23. Drottinn, Jesú, þú lífsins ljós,
lýstu valdstjórnarmönnum,
svo þeir, sem ráða yfir oss,
eflist að dygðum sönnum.

24. Jesú, þín kalda kvalastund
kvalatíð af mér svifti;
Guðs barna gafst mér gleðifund;
góð voru þau umskifti.

25. Myrkranna þrengdi maktin þér,
mig svo leystir úr vanda;
kvalanna yztu myrkur mér
mega því aldrei granda. — *Amen.*

## 331.

(IX.) Um flótta lærisveinanna.

Lag: Jesú Kristi, þig kalla' eg á.

*ÞÁ lærisveinarnir sáu þar*
*sinn herra gripinn höndum,*
*og hann af fólki verstu var*
*vægðarlaust reyrður böndum,*
*allir senn honum flýðu frá,*
*forlétu Drottin hreinan*
*í háska einan.*
Að svoddan skulum við, sál mín, gá;
sjáum hér lærdóm beinan.

2. Án Drottins ráða er aðstoð manns
í engu minsta gildi;
fánýtt reynist oft fylgið hans,
sem frekast hjálpa skyldi;
hver einn vill bjarga sjálfum sér,
ef sýnist háski búinn,
að hendi snúinn;
far því varlega', að fallvölt er
frænda og vina trúin.

3. Í sama máta sér þú hér,
sál mín, í spegli hreinum,
að hryggilegar sé háttað þér
en herrans lærisveinum;
þeir höfðu leyfi lausnarans
lífi að forða sínu
frá sárri pínu,
nauðugir mistu návist hans;
nú gæt að ráði þínu.

4. Hvað oft, Jesú, þér flúði' eg frá

frekt á mót vilja þínum,
þá glæpaveginn gekk eg á,
girndum fylgjandi mínum?
Forskuldað hafði eg fyrir það,
flóttamaður að heita
til heljar reita,
en þú virtist mér aumum að
aftur í miskunn leita.

5. Einn varstú, Jesú, eftir því
í óvina látinn höndum,
einn svo eg væri aldrei í
eymd og freistingum vöndum;
allir forlétu einan þig,
alt svo mig hugga kynni
í mannraun minni.
Eg bið: Drottinn, lát ekki mig
einsamlan nokkru sinni.

6. *Lærisvein, sál mín, sjáðu þann,*
*sem Jesú eftir fylgdi;*
*ranglát ungmenni ræntu hann,*
*rétt nakinn við þau skildi;*
bersnöggur flótti betri er,
en bræðralag óréttinda
í selskap synda;
ávinning lát þig engan hér
í þeirra flokki binda.

7. *Burt þaðan Jesúm færði fljótt*
*flokkur illræðismanna.*
Lamb Guðs saklaust, þá leið að nótt
leiddu þeir til kvalanna.
Miskunnarlaus sú meðferð bráð
mér virðist; eftir vonum

í náttmyrkronum
þeir hafa bæði hrakt og hrjáð,
hrundið og þrúgað honum.

8. Í dauðans myrkrum eg, dæmdur
dragast átti til pínu, [þræll,
en þú tókst, Jesú, son Guðs sæll,
saklaus við straffi mínu:
þannig til bjóstu ljóssins leið
ljómandi sálu minni,
þó líf hér linni;
andlátskvölum og kaldri neyð
kvíði' eg því engu sinni.

9. Hröktu því svo og hrjáðu þig,
herra minn, ilsku-þjóðir,
að hér svo nú bæri á höndum mig
heilagir englar góðir;
mæðusöm urðu myrkrin þér,
mæta létu þig hörðu,
og hindran gjörðu,
Guðs dýrðar ljós svo lýsti mér
á lifandi manna jörðu.

10. Kvalaför, Jesú, þessi þín,
sem þá gekstú einu sinni,
veri kraftur og verndin mín,
svo veginn lífsins eg finni.
Lát ekki djöful draga mig
í dofinleik holdsins blinda
til sekta og synda;
eg bið af ást og alúð þig,
ákefð hans burtu hrinda. — *Amen.*

## 332.

(X.) **Um það fyrsta rannsak fyrir Kaífa.**

Lag: Guð son kallar: komið til mín.

TIL *Hannas húsa herrann Krist*
*harðráðir Júðar leiddu fyrst;*
beisk frá eg bönd hann særi.
Honum strax þaðan vísað var,
viðtekt fékk ei né hvíldir þar,
mjög svo þó mæddur væri.

2. *Burt sendi því með beiskri pín*
*bundinn Kaífas mági sín*
*Hannas vorn herrann sæta;*
*höfuðkennimanns hæstu stétt*
*hafði sá þetta árið rétt,*
*Guðs lögmáls átti' að gæta.*

3. Úr himnaríkis hvíldarstað
höfðum við, sál mín, forskuldað,
útrekin víst að vera;
en Jesús tók nú upp á sig
ónáðan slíka fyrir þig;
lof sé þeim ljúfa herra.

4. Hjartað bæði og húsið mitt
heimili veri, Jesú, þitt;
hjá mér þigg hvíld hentuga;
þó þú komir með krossinn þinn,
kom þú blessaður til mín inn,
fagna' eg þér fegins huga.

5. *Kaífas hafði hér um spáð,*
*hentugast myndi þetta ráð,*
*að dæi einn fyrir alla.*
Embættis mælti andinn þar,

af því hjartað ei vissi par,
sannleik Guðs sinti varla.

6. Balaams dæmi eins var eitt,
andagift sú var honum veitt,
spaklega tungan spáði;
hann hafði í sinni hrekkja-ráð,
hjartað fékk ekki sannleiks gáð,
því hann fégirndin þjáði.

7. Ó Jesú, láttu aldrei hér
anda þinn víkja burt frá mér,
leið mig veg lífsins orða,
svo hjartað bæði og málið mitt
mikli samhuga nafnið þitt,
holds girnd og hræsni forða.

8. *Til Kaífas voru komnir senn*
*kennivaldið og stjórnarmenn.*
*Biskupinn þegar að bragði*
*leitar andsvars til lausnarans*
*um lærisveina og kenning hans;*
*en Jesús aftur sagði:*

9. *Opinberlega, en ekki leynt*
*í musterinu kenda' eg beint;*
*hvað spyr þú mig um þetta?*
*Kunngjöra mega þar um þér*
*þeir, sem lærdóminn heyrðu af mér;*
*þá láttu þig leiðrétta.*

10. Gæt að, mín sál, og sjáðu þar,
sonur Guðs undir rannsak var
krafður það kvöldið eina.
Á kvöldi hverju þú koma skalt,

kvöldreikning við þig sjálfan halt
með kvöldoffurs iðrun hreina.

11. Þú Guðs kennimann, þenk um
þar mun um síðir grenslast að, [það,
hvernig og hvað þú kendir;
að lærisveinum mun líka spurt,
sem lét þitt gáleysi villast burt;
hugsa glögt, hvar við lendir.

12. Jesús vill, að þín kenning klár,
kröftug sé, hrein og opinskár,
lík hvellum lúðurs hljómi;
launsmjaðran öll og hræsnin hál
hindrar Guðs dýrð, en villir sál,
straffast með ströngum dómi.

13. Vangæzlan mín er margvísleg;
mildasti Jesú, beiði eg þig:
Vægðu veikleika mínum;
forsóman engin fanst hjá þér,
fullnaðarbót það tel eg mér:
Styrk veit þú þjónum þínum.

14. Eins er hér öllum einnig rétt
alvarleg kenning fyrir sett,
að orð Guðs elski' og læri;
trúin innvortis efli geð,
einarðleg játning líka með,
ávöxt hið ytra færi.

15. *Biskupsþjónn einn í bræði þó*
*blessaðan Jesúm pústur sló.*
Svo það ritningin segir.
*Hógværlegt forsvar' herrann gaf.*
Honum, sál mín, það lærðu af,
um sakleysi þitt ei þegir.

16. Óvart samvizkan Adam sló,
illan kinnroða fékk hann þó
í fyrsta falli sínu;
þess vegna Jesús höggið hast
hlaut að líða, og roðna fast
allra fyrst í hans pínu.

17. Drottinn Jesú, eg þakka þér,
þetta leiðstu til frelsis mér;
eg bið ástsemi þína:
Samvizkuslögin sviðaskæð
á sálu minni þú mýk og græð,
burt taktu blygðun mína. — *Amen.*

## 333.

**(XI.) Um afneitun Péturs.**

Lag: Alt eins og blómstrið eina.
(Dagur í austri öllum.)

GUDSPJALLSHISTORIAN *getur*
*gripinn þá Jesús var,*
*allir senn, utan Pétur,*
*yfirgáfu hann þar,*
*og lærisveinn einn annar;*
*álengdar gengu hljótt*
*herrans hrygðarbraut sanna;*
*harla dimt var af nótt.*

2. *Kaífas kennimanni*
*kunnugur lærisveinn*
*inn gengur ört með sanni,*
*úti stóð Pétur einn;*
*ambátt upp ljúka beiðir,*
*ókendan Pétrum þá*

*í forsal til lýðsins leiðir.*
Lærdóm hér finna má.

3. Krossferli' að fylgja þínum
fýsir mig, Jesú kær,
væg þú veikleika mínum,
þó verði' eg álengdar fjær;
þá trú og þol vill þrotna,
þrengir að neyðin vönd,
reis þú við reyrinn brotna
og rétt mér þína hönd.

4. *Koleld, því kalt var næsta,*
*kveykt hafði þræla lið;*
*Pétur með sturlun stærsta*
*stóð hjá þeim logann við;*
*ambátt hann ein sprogsetti,*
*af sér það heyra lét:*
*Mun þessi mann, hún frétti,*
*með Jesú af Nazaret?*

5. *Hann neitar hratt að bragði,*
*hræddur við orðin byrst,*
*þann sig ei þekkja sagði;*
*þá gól nú haninn fyrst;*
*ætlar sér út að rýma,*
*önnur þerna hann sá,*
*talar í annan tíma*
*til þeirra', er stóðu hjá:*

6. *Frá Nazaret nú er þessi*
*nýkominn Jesú með.*
*Hinna geð trúi' eg það hvessi,*
*hver maður spyrja réð:*
*Ert þú einn af hans sveinum?*

*En Pétur neita vann;*
*sagði með eiði einum:*
*Aldrei þekta eg hann.*

7. *Þriðja sinn þar til lögðu*
*þjónar Kaífas bert.*
*Málfærið, sumir sögðu,*
*segir til, hver þú ert.*
*Frændi Malkuss réð mæla:*
*Mundi' eg þig ekki sjá,*
*(get eg sízt grun mig tæla),*
*í garðinum Jesú hjá.*

8. *Pétur með bljúgu bragði*
*bráðlega sagði: Nei;*
*sór sig og sárt við lagði,*
*svoddan mann þekti' hann ei.*
*Glögt, þegar gjörðist þetta,*
*gól haninn annað inn.*
Sízt mátti sorgum létta,
sút flaug í brjóstið inn.

9. Sál mín, þér fári forða
freklega hættu sízt
án leyfis Drottins orða,
óstyrkt er holdið víst:
þykist þú stöðugt standa,
stilla þinn metnað þarft;
hver sér vogar í vanda,
von er sá falli snart.

10. Áður í aldingarði
óhræddur Pétur var,
karlmensku hugurinn harði
hans sig auglýsti þar;

auðvirð ambátt hann hreldi,
of mjög því skelfast vann,
frá sannleik síðan feldi;
sama þig henda kann.

11. Koleldi kveiktum jafnast
kitlandi veraldar prjál;
þrælar syndanna safnast
saman við lostabál,
fullir með fals og villu;
forðastu þeirra glys;
ætíð er með þeim illu
einföldum búið slys.

12. Ambátt með ygldu bragði
er þessi veröld leið.
mörgum meinsnöru lagði,
mjög á spottyrðin greið;
þýið með þrælum sínum
þjóna guðs lastað fær;
styrk mig með mætti þínum
mót henni, Drottinn kær.

13. Eftir afneitun eina
út vildi Pétur gá,
hugði hann braut sér beina
búna þeim solli frá.
Þá kom eitt öðru verra:
Umkringdu þrælar hann,
afsór sinn sæla herra,
sér og formæla vann.

14. Hægt er hverjum að stofna
í hættu'- og vandaspil;
forvitnis dælskan dofna

dregur þar margan til;
ógæfugildran þröngva
greip þann hún kunni að ná,
útkomu von fékk öngva;
að því í tíma gá.

15. Oft má af máli þekkja
manninn, hver hedzt hann er;
sig mun fyrst sjálfan blekkja,
sá með lastmælgi fer;
góður af geði hreinu
góðorður reynist víst;
fullur af illu einu
illyrðin sparar sízt.

16. Hryggileg hrösun henti
heilagan Drottins þjón,
syndin mjög sárt hann spenti,
sálar var búið tjón;
hvað mun eg máttarnaumur
mega þá standast við,
vangætinn, vesall og aumur,
vélum og hrekkja sið?

17. Í veraldar vonzkusolli
velkist eg, Jesú, hér;
falli það oft mér olli,
óstöðugt holdið er;
megnar ei móti að standa
mín hreysti náttúrlig,
láttu þitt ljós og anda
leiða og styrkja mig. — *Amen.*

## 334.

**(XII.) Um iðrun Péturs.**

Lag: Kom, andi heilagi.*)

PÉTUR þar sat í sal
hjá sveinum inni.
Tvent hafði hana-gal
heyrt að því sinni..

2. Búinn var þrisvar þá
þvert hann að neita
sér Jesúm sælan frá.
Sorg má það heita.

3. *Drottinn vor veik sér við*
(víst um það getur),
*ljúfur, með líknar sið,*
*og leit á Pétur.*

4. *Strax flaug í huga hans*
(hvað þó sízt varði),
*lausnarans orð og ans*
*í aldingarði.*

5. *Blygðaðist brátt við það*
*brjóst fult af trega;*
*gekk út úr greindum stað*
*og grét beisklega.*

6. Sjá þú með sannri trú
sál mín ástkæra,
hvað framar hefir þú
hér af að læra.

7. Hátt galar haninn hér

*) Eða: Sólin upp runnin er. (Tvö vers tekin saman og þriðja hending í öðru versi endurtekin.)

í hvers manns geði,
drýgðar þá syndir sér,
sem Pétur skeði.

8. Sárlega samvizkan
sekan áklagar,
innvortis auman mann
angrar og nagar.

9. Fær hann sig frjálsan sízt,
þó finnist hreldur,
sem fugl við snúning snýst,
sem snaran heldur.

10. Víkja þó vilji hann
frá vonzkuhætti,
orka því ekki kann
af eigin mætti.

11. Upp þó hér ætli brátt
aftur að standa,
fellur hann þegar þrátt
í þyngri vanda.

12. Lögmál guðs hrópar hátt
hanagal annað,
segir og sýnir þrátt,
hvað sé þér bannað.

13. það þvingar, þrúgar með,
það slær og lemur,
sorgandi, syndugt geð
særir og kremur.

14. það verkar sorg og sút,
þeim seka manni,
hjálpar þó engum út
úr synda banni.

15. Holdið þar þrjózkast við
og þykir illa;
eykst á þann synda sið
svik, hræsni' og villa.

16. En Jesú álit skýrt
anda Guðs þýðir,
sá gjörir hægt og hýrt
hjartað um síðir.

17. Lætur hann lögmál byrst
lemja og hræða,
eftir það fer hann fyrst
að friða og græða.

18. Orð Jesú eðla sætt
er hans verkfæri;
helzt fær það hugann kætt,
þó hreldur væri.

19. Hann gefur hreina trú,
hann fallinn reisir,
hann veikan hressir nú,
hann bundinn leysir.

20. Ekki er í sjálfs vald sett
(sem nokkrir meina),
yfirbót, iðrun rétt,
og trúin hreina.

21. Hendi þig hrösun bráð,
sem helgan Pétur,
undir guðs áttu náð,
hvort iðrast getur.

22. Heimska er versta víst,
við það að dyljast,

þú megir þá þér lízt
frá þrautum skiljast.

23. Ef Jesús að þér snýr,
með ástar hóti,
líttu þá hjarta-hýr
honum á móti.

24. Gráta skalt glæpi sárt,
en Guði trúa,
elska hans orðið klárt,
frá illu snúa.

25. Ónýt er iðrun tæp,
að því skalt hyggja,
ef þú í gjörðum glæp
girnist að liggja.

26. Pétur þá formerkt fékk
fall-hrösun slíka,
úr synda-salnum gekk;
svo gjörðu líka.

27. Ó Jesú, að mér snú
ásjónu þinni;
sjá þú mig særðan nú
á sálu minni.

28. Þegar eg hrasa hér,
hvað mjög oft sannast,
bentu í miskunn mér,
svo megi' eg við kannast.

29. Oft lít eg upp til þín
augum grátandi,
líttu því ljúft til mín,
svo leysist vandi. — *Amen.*

335.

**(XIII.) Um falsvitnin og Kaífas dóm.**

**Lag: Sá vitnisburður valdi.**

FORINGJAR *presta fengu*
*falsvitni mörg til sett,*
*fúslega fram að gengu,*
*fullir með svik og prett;*
*samhljóða urðu eigi,*
*uppdiktað margt þó segi,*
*Jesús þá þagði slétt.*

2. Lærðu, ef lygum mætir,
lífsreglu, sál mín, hér;
með forsi' og þjóst ei þrætir.
Þrálega svo til ber,
hógvær þögn heiftir stillir,
heimsk-orður sannleik spillir
oft fyrir sjálfum sér.

3. Hirt' aldrei, hvað sem gildir,
að hætta á ósatt mál,
hvort verja' eða sækja vildir;
verður það mörgum tál;
munnur, sá löngum lýgur,
frá lukku og blessun hnígur:
hann deyðir sína sál.

4. Sannleiks vitni þó segi
sekan mig Guði hjá,
óttast þarf eg nú eigi,
afsökun hefi eg þá:
Ljúgvotta lygi megna
leið Jesús minna vegna,
klögun mig frelsti frá.

*á blessuðu sínu baki særðu*
*hann bar sinn kross og mæddist því.*
*2. Skeði svo á samri stundu,*
*Símon nokkurn bar þar að,*
*framandi maður, er gekk um grundu,*
*gripu Júðar þann í stað,*
*krossinum á hans herðar hrundu,*
*en hann gekst nauðugur undir það.*

3. Þeir sem, sál mín, syndir drýgja
samvizkunni þvert á mót,
undir Drottins endurnýja,
ef ekki gjöra' á löstum bót;
við skulum frá þeim flokki flýja
og fyrirgefningar biðja' af rót.

4. Upp á heimsins óþakklæti
er hér dæmi ljóst til sanns;
margan læknaði son Guðs sæti
sjúkan meðal almúgans;
nú var ei neinn sá bölið bæti
og bæri með honum krossinn hans.

5. Símon bæði og syni hans báða
sjálf hér nefnir historían,
því guðhræddur skal njóta náða
og niðjar margir eftir hann;
miskunnsemd við menn fáráða
minnast Guð og launa kann.

6. Framandi maður mætti Kristi,
með honum bar hans þunga kross.
Hér má finna, hvern það lysti,
hreina þýðing upp á oss;
Gyðingafólk þá Guðs náð misti,
gafst heiðingjum dýrðarhnoss.

7. Synda undir ýfast mínar
oft á hverri stundu nær,
samvizkunnar sár ei dvínar,
sviðameinið illa grær,
blessaðar, Jesú, benjar þínar
hið eg mýki' og lækni þær.

8. Þessi krossins þunga byrði
þér var, Drottinn, lögð á bak,
svo fyrirmyndan fyld sú yrði,
þá fórnarviðinn bar Ísak;
sá þinn gangur sorga stirði
af sálu minni tók ómak.

9. Minnist eg á þjáning þína,
þig sú mæddi byrðin stríð;
sannlega fyrir sálu mína
svoddan leið þín gæzkan blíð;
vegna þess mér virztu' að sýna
vorkunnsemi, nær eg líð.

10. Hold er tregt, minn herra mildi,
í hörmungunum að fylgja þér;
þó eg feginn feta vildi
fótspor þín, sem skyldugt er,
viljinn minn er í veiku gildi.
þú verður því að hjálpa mér.

11. Elskugeð svo þitt eg þekki,
þjáðum viltu sýna lið;
láttu mig, Drottinn, einan ekki
í ánauð minni' og þess eg bið,
nafnið mitt, þó nauðir hnekki,
náð þín blessuð kannist við.

12, Komir þú undir krossinn
stranga,

kristin sála, gæt þess hér,
ef holdið tekur að mögla og manga,
minstu, hver þín skylda er,
láttu sem þú sjáir ganga
sjálfan Jesúm undan þér.

13. Undir krossi illvirkjanna
aldrei hér þig finna lát;
varastu glæpi vondra manna,
á verkum þínum hafðu gát;
iðka bæn og iðrun sanna,
elska gjarnan hóf og mát.

14. Hafðu, Jesú, mig í minni,
mæðu og dauðans hrelling stytt;
börn mín hjá þér forsjón finni,
frá þeim öllum vanda hritt,
láttu standa á lífsbók þinni
líka þeirra nafn sem mitt. — *Amen.*

## 353.

**(XXXI.) Prédikun Kristí fyrir kvinnunum.**

Lag: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

FÓLKIÐ, *sem Drotni fylgdi út,*
*fyltist margt angri hörðu;*
*kvinnurnar grétu sárt með sút,*
*sem hans kvöl aumka gjörðu.*

2. *Sneri til þeirra son Guðs sér,*
*sagði þá herrann mætur:*
*Gráti þér ekki yfir mér,*
*ó, Jerúsalems dætur.*

3. *Sona yðar og eigin eymd*
*eflaust þér gráta megið;*

*nálgast sú tíð, sem nú er geymd,*
*nær þér harmandi segið:*

4. *Sæl nú óbyrjan barnlaus er*
*og brjóst þau ei sogin vóru;*
*hrynji yfir oss hálsarnir,*
*hæðir og björgin stóru.*

5. *Ef gjört er svo því græna tré,*
(geta hver til þess næði),
*hvað hið þornaða þá mun ske;*
það frá eg Jesús ræði.

6. Ó, hvað veraldar virðing er
völt og svikul að reyna,
gæt þess, mín sál, og sjáðu hér
sannprófað dæmið eina.

7. Á pálmasunnudag sjálfur inn
son Guðs í borg nam ríða:
ástvinir hans það sama sinn
sungu lof án alls kvíða.

8. Fám dögum síðar sjálfur út
særður með kross nam ganga:
það hlutu' hans vinir að sjá með sút,
sorg hjartans báru stranga.

9. Hafi svo verið völt og frá
veröldin herra sínum,
hvers má sér vænta þrællinn þá?
þess gæt í huga þínum.

10. Þeim, sem hún býður blíðleik [sinn,
búin er sorgin mesta;
hirtu því aldrei huga þinn
við hana, mín sál, að festa.

11. Sannlega skyldugt segi' eg mér

sára þá kvöl að gráta,
sem, Drottinn Jesú, þungt að þér
þrengdi í allan máta.

12. Samt er þér ekki þént með því,
þó eg þig aumka vildi;
eilífa hátign ertu í
upp hafinn, Jesú mildi.

13. Þar má nú heldur aukast af
angur samvizku minnar,
orsök eg til og efni gaf
allrar hörmungar þinnar.

14. Erfiði hefi' eg aukið þér
of þungt með syndum mínum;
glæpanna, sem eg gjörði hér,
galztu á holdi þínu.

15. Hræðist eg mér sé hulin geymd
sú hefndar pínan stranga,
því eg vann til að eilíf eymd
yfir mig skyldi ganga.

16. En þó gleð eg mig aftur við
ávöxtinn kvala þinna;
þar af öðlast eg frelsi, frið,
og forlát synda minna.

17. Angistin sár og sorgarlát,
er sál helzt þjáði mína,
snýst í fögnuð og fegingrát
fyrir þá miskunn þína.

18. Bið eg nú Jesú blíði, þig,
sem bót mér gjörðir vinna:
Lát engan gjalda eftir mig
ilsku né synda minna. — *Amen.*

## 354.

(XXXII.) Um það visnaða og græna tréð.

Lag: Nú látum oss líkamann grafa.

GREINIR *Jesús um græna tréð,*
*getur hins visna einnig með.*
Við skulum, sál mín, skoða' á ný
skíran lærdóm í máli því.

2. Frjóvgunareikin vökvuð væn,
vel blómguð stóð með laufin græn,
þegar á jörðu sást til sanns
son Guðs íklæddur holdi manns.

3. Lífsins ávöxtu ljúfa bar,
læknaði Jesús sóttirnar,
frá djöfli leysti' og dauðans pín,
daufum gaf heyrn, en blindum sýn.

4. Af hverri grein draup hunang sætt,
hjálpræðiskenning fékk hann rætt,
öll hans umgengni ástúðleg
angraðar sálir gladdi mjög.

5. Guði var þekt það græna tréð,
glöddust himnar og jörðin með;
í hans fæðing það vitnast vann,
og við Jórdan, þá skírðist hann.

Réttlætis allan ávöxt bar,
inn til krossdauða hlýðinn var
saklausa lambið, son Guðs einn,
af synd og lýtum klár og hreinn.

7. Þó mátti ei það eðla tré
angurlaust vera á jörðinne,
Guðs reiðistormur geysa vann,
gekk því refsingin yfir hann.

8. Ef þú spyr að: hvað valda vann,
vildi Guð láta saklausan
soninn komast í sorgir þær,
sem honum var þó hjartakær.

9. Þú skalt vita, að visnað tré
var mannkyn alt á jarðríke,
ofan að rótum uppþornað,
ávöxt ranglætis færði það.

10. Skaðsemdartréð, sem skemdi jörð,
skipaði Drottins reiði hörð
upp höggva, svo það ekki þar
akrinum sé til hindrunar.

11. Vor Jesús mönnum vægðar bað,
vinnast mátti' ei að fengist það,
utan hann tæki upp á sig
illvirkja gjöldin hryggilig.

12. Herrann íklæddist holdi þá,
hingað kom til vor jörðu á;
visnaðri eik gafst vökvan góð,
þá varð úthelt hans dýra blóð.

13. Saklaus því leið hann sorg og háð,
syndugt mannkyn svo fengi náð;
hið græna tréð var hrakið og hrist;
hér af það visna blómgaðist.

14. Guðs dýrðar sæti sitt hold í
sonurinn mátti' ei hefja því,
fyr en í heimi harða neyð
hafði þolað og krossins deyð.

15. Ó, hvað manns hold er heimsku
hræðilega úr máta vilt. [fylt,

viljandi' í löstum liggur það,
leikur sér alls kyns glæpum að.

16. Margir ætla, fyrst ekki strax
á fellur hefndin sama dags,
Drottinn þá aldrei muni meir
minnast á það, sem gjörðu þeir.

17. Því góða trénu þyrmt var sízt,
þurrum fausk mun þá bálið víst;
hafi faðirinn hirt sinn son,
hefndar mun þrællinn eiga von.

18. Ef nú Guðs mildin ástsamlig
óhegnda, sál mín, líður þig,
hans þolinmæði haltu hér
hjálpræðismeðal gefið þér.

19. Visnað tré eg að vísu er,
vægðu, réttlætis herrann, mér;
gæzkunnar eikin græn og fín,
geymdu mig undir skugga þín.

20. Von er að mér sé mótkast víst,
mun eg umflýja dauðann sízt;
holdið má ei fyrir utan kross
eignast á himnum dýrðar hnoss.

21. Tæpti eg mínum trúarstaf
á tréð, sem drýpur hunang af;
sjón hjartans öllu angri í
upplýsist, nær eg smakka' á því.

22. Þegar mér ganga þrautir nær,
þér snú þú til mín, Jesú kær,
hjartað hressi og huga minn
himneskur náðarvökvi þinn. — *Amen.*

## 355.

**(XXXIII.) Um Kristí krossfesting..**

Lag: Konung Davíð, sem kendi.

KOM *loks með krossins byrði*
*Kristur í hausastað;*
(örþjáður trúi' eg hann yrði);
*edik galli blandað*
*honum þeir héldu að.*
*Drottinn vor dýrðar mildi*
*drekka þó ekki vildi,*
*þá hann smakkaði það.*

2. Fals undir fögru máli
fordildar hræsnin ber,
vinátta tempruð táli
trúarlaus iðrun hér
edik gallblandað er;
svoddan súrdreggjar víni,
(þó sjáist glyslega skíni),
herrann hrindir frá sér.

3. Það tek eg víst til þakka,
þá þú vilt, Drottinn kær,
súrt með þér sjálfum smakka;
sé þín miskunnin skær
í hverri neyð mér nær;
gallbeiskju bölvaninnar
og bikarinn heiftar þinnar
burt settu frá mér fjær.

4. *Nakinn Jesúm á jörðu*
*Júðar krossfestu;* þar
með heiftar sinni hörðu
hendur og fæturnar

teygt alt og togað var;
gekk svo járngaddur nistur
gegnum lófa og ristur,
skinn og bein sundur skar.

5. *Tveggja morðingja' á milli*
*miskunnar herrann hékk,*
*spádóminn frá eg að fylli,*
*sem fyr meir um það gekk,*
*ræðir svo ritning þekk:*
*Þjónn minn, sá einn útvalinn,*
*er með spillvirkjum talinn;*
forsmán mjög þunga fékk.

6. Nú eg minnist á næsta
nakinn þá Adam stóð
við tréð með hörmung hæsta,
hjartasorg, böl og móð,
því verk hans voru' ei góð,
innvortis angrið kvaldi,
undir trjánum sig faldi:
þess galt öll heimsins þjóð.

7. Nú aftur Jesús nakinn
negldur á trénu stóð,
píndur, húðstrýktur, hrakinn,
hjartans bar sáran móð,
þó voru verk hans góð,
einn fyrir engum faldist,
opinberlega kvaldist;
þess naut öll heimsins þjóð.

8. Horfi' eg á hendur þínar,
herra minn, Jesú kær,
fyrir misgjörðir mínar

meinin slík liðu þær;
blóðdreyrinn dundi skær,
saurgun sálar og handa,
sem mér oft kom í vanda,
af hreint með öllu þvær.

9. Fús var eg fram að halda
feril glæpanna hér,
þess fætur þínar gjalda,
það var til líknar mér.
Drottinn, eg þakka þér,
fram á friðarins leiðir
fótspor mín jafnan greiðir
héðan af hvar eg fer.

10. Guð gæfi' að mitt hold mætti
með þér krossfestast nú
frá öllum ilskuhætti,
ósk mín er dagleg sú,
minn herra, það veizt þú,
upp á það önd mín kynni
óhindruð gæzku þinni
þjóna með þýðri trú.

11. Einn með illræðismönnum
allir þig héldu þá,
sem í heilagleik sönnum
sjálfur komst himnum frá;
nú eg þess njóta má,
af því eg er útvalinn,
einn með Guðs börnum talinn;
þar treysti' eg eflaust á.

12. Eg mun meðan eg hjari,
minnast á krossinn þinn,

heimsins ljúfi lausnari,
lífgar það huga minn,
hvort eg geng út eða inn,
af instum ástar grunni
ætíð með huga' og munni
segjandi hvert eitt sinn:

13. Jesú Kristí kvöl eina,
á krossinum fyrir mig sken,
sé mín sáttargjörð hreina
og synda kvittunen,
af sjálfum Guði sén;
upp á það önd mín vonar
í nafni föður og sonar!
og heilags anda', amen. — *Amen.*

## 356.

**(XXXIV.) Það fyrsta orð Kristí á krossinum.**

Lag: Lifandi Guð, þú lít þar á;*) eða
Hver, sem að reisir hæga bygð.

ÞEGAR kvalarar krossinn á
keyra vorn herra gjörðu,
flatur með trénu lagður lá
lausnarinn niður á jörðu:
andlitið horfði í þeim stað
og augun hans blessuð himnum að;
hann stundi' af angri hörðu.

2. Sinn faðm alt eins og barnið blítt
breiddi mót föðurnum kæra,
blóðið dundi og tárin títt,
titraði holdið skæra.
Hér skoða, maður, huga þinn,

*) Sjá Jónas Jónsson: Passíusálmar.

hvað kunni meira nokkurt sinn
Drottinn til hefndar hræra.

3. Óvinum friðar blíður bað
brunnur miskunnarinnar;
hann vill þeir njóti einnig að
ávaxtar pínu sinnar;
*sagði: faðir, þeim fyrirgef þú,*
*forblindaðir ei vita nú*
*sjálfir hvað vont þeir vinna.*

4. Lausnara þínum lærðu af,
lunderníð þitt að stilla,
(hógværðar dæmið gott hann gaf),
nær gjöra menn þér til illa;
blót og formæling varast vel,
á vald Guðs allar hefndir fel,
heift lát ei hug þinn villa.

5. Þótt þú við aðra saklaus sért,
sannlega skalt þess gæta,
samt fyrir Guði sekur ert,
sá þig á frjálst að græta;
illir menn eru' í hendi hans
hirtingarvöndur syndugs manns;
enginn kann þess að þræta.

6. Óvinum ills þó óskir hér,
ei minkar heiftin þeirra,
óþolinmæði eykur þér,
afrækir boð þíns herra;
þú styggir Guð með svoddan sið,
samvizkan mjög þar sturlast við,
böl þitt verður því verra.

7. Upplýstu hug og hjarta mitt,

herra minn Jesú sæti,
svo að eg dýrðardæmið þitt
daglega stundað gæti;
þeir, sem óforþént angra mig,
óska eg helzt að betri sig,
svo hjá þér miskunn mæti.

8. Heimsins og djöfuls hrekkja vél
holdið þrálega villa,
þess vegna ekki þekki' eg vel,
þó nú margt gjöri illa;
beri svo til eg blindist hér,
bið þú þá, Jesú, fyrir mér,
það mun hefnd harða stilla.

9. Eg má vel reikna auman mig
einn í flokk þeirra manna,
sem í kvölinni þjáðu þig,
það voru gjöld syndanna;
en þú, sem bættir brot mín hér,
bið þú nú líka fyrir mér,
svo fái' eg frelsun sanna.

10. Fyrst þú baðst friðar fyrir þá,
er forsmán þér sýndu mesta.,
vissulega eg vita má,
viltu mér alt hið bezta;
því eg er Guðs barn og bróðir þinn,
blessaði Jesú, herra minn,
náð kann mig nú ei bresta.

11. Allra síðast þá á eg hér
andláti mínu' að gegna,
sé þá, minn Guð, fyrir sjónum þér
sonar þíns pínan megna,
þegar hann lagður lágt á tré

leit til þín augum grátande;
vægðu mér því hans vegna. — *Amen.*

## 357.

**(XXXV.) Um yfirskriftina yfir krossinum.**

Lag: Náttúran öll og eðli manns;*) eða: Hásæti fyrir herrans er.

ÚTSKRIFT *Pílatus eina lét*
*yfir krossinum standa:*
*Jesús nefndur af Nazareth,*
*nýr kóngur Gyðingalanda.*
Drotni með sann
dómarinn fann
dauðasök enga stærri.
*Margur las það*
*í þessum stað,*
*því hann var borg svo nærri.*

2. *Það var ritað og þannig sett*
*í þrenslags tungumáli.*
*Valdsmenn Júða það vissu rétt,*
*vilja því Pílatus brjáli.*
*Hann anzar greitt,*
*ei skyldi neitt*
*um breytt, og framar tjáði:*
*Hvað skrifað er,*
*skal standa hér.*
Svo skeði' af Drottins ráði.

3. Þar nú á krossi herrann hékk,
hér að, mín sála, gætum,
virðingartitil fagran fékk,
með forprís sakleysis mætum.

*) Sjá Jónas Jónsson: Passíusálmar.

að hjálparfús
heiti Jesús
heimsins lausnarinn góði,
hver djöfli frá
oss frelsa má
flekklaus með sínu blóði.

4. Nazarenus hann nefnist þar;
náttúru-spilling manna
fráskilinn einn að vísu var,
velþekta hlýðni sanna
sýndi hann hreint,
ljóst bæði' og leynt,
lifandi Guði einum,
hans tignar son,
trúr, forsjáll þjón,
tryggur í öllum greinum.

5. Kóngur Gyðinga klár og hreinn
í krafti guðlegum drotnar;
sá Davíðs stól skal erfa einn,
aldrei hans ríki þrotnar;
Ísraels hrós,
heiðinna ljós,
heitinn forfeðrum lengi,
svoddan titel
sómdi rétt vel,
sál mín, þinn herra fengi.

6. Svoddan virðingu vildu hann
vondir Gyðingar sneyða,
heiftar-öfundin í þeim brann,
af því Pílatum beiða,
orðtak það brátt
á allan hátt

úr færa settum máta.
Hann kvað við nei,
því það vill ei
þeim Drottinn veitast láta.

7. Dramblátum setur Drottinn skamt
með djörfung þeirra' og hrekki,
þeim líðst svo sem hann lofar framt,
lengra komast þeir ekki;
alt skal mitt traust
efunarlaust
á hans makt jafnan standa,
hvað munu mér
þá mennirner
mega í nokkru granda.

8. Í þrenslags tungum var þetta [skráð,
því að vor herrann mildi
vildi sín elska, ást og náð
allri þjóð boðast skyldi;
hvert tungumál
með huga' og sál
heiðri þig, Jesú góði,
sem kvölin þín
og krossins pín
keypti frá syndamóði.

9. Gefðu að móðurmálið mitt,
minn Jesú, þess eg beiði,
frá allri villu klárt og kvitt
krossins orð þitt út breiði
um landið hér
til heiðurs þér,
helzt mun það blessun valda,
meðan þín náð

lætur vort láð
lýði og bygðum halda.

10. Handskrift var ein yfir höfði
hver mína sálu grætti. [mér,
önnur stóð, Jesú, yfir þér,
sem angrið míns hjarta bætti.
Jesú, þú ert
útvalinn bert;
undir kóngsstjórnan þinni
árla og síð
um alla tíð
óhætt er sálu minni. — *Amen.*

## 358.

**(XXXVI.) Um skiftin á klæðunum Kristí.**

Lag: Hvað myndi vera hjartað mitt.

STRÍDSMENN *þá höfðu krossfest
klæðnað hans tóku snart,* [*Krist,*
*skiftu í staði fjóra fyrst,
fá skyldi hver sinn part
á kyrtil þrjónaðan ljóst með list
lögðu þeir hlutfall djarft;
fólskuverk meðan fullgjörðist,
fólkið á horfði margt.*

2. *Ritning sú eina uppfyld er,
áður var þar um skráð:
Skrúða mínum þeir skiftu sér,*
skýrlega svo er tjáð:
*Hlutfallið yfir fat mitt fer,
fæ eg þess einnig gáð.*
Set, maður, slíkt fyrir sjónir þér,
sjá Drottins miklu náð.

3. Nú máttu skilja, nakinn var
negldur Drottinn á kross,
opinbert sáu allir þar
út runninn dreyra foss;
svoddan forsmán Guðs sonur bar
sannlega fyrir oss,
hér bauðst öllum án hylmingar
himneskt miskunnarhnoss.

4. Kalla eg merki klæðin hans
kristnina' í heimi hér,
um fjórar álfur foldarranns
flokkur sá dreifði sér;
lífkyrtill þessi lausnarans
líknarorð blessað er;
vilji því skifta skynsemd manns,
skilning sannleiksins þver.

5. Ei lét vor Drottinn auðlegð há
eftir í þessum heim,
klæðin, sem hann bar holdi á,
en hvorki gull né seim,
þó mátti ei hans móðir fá
hið minsta' af öllum þeim,
illir menn hendi yfir þau slá;
aldrei því dæmi gleym.

6. Safna hóflega heimsins auð,
hugsýkin sturlar geð;
þigg af Drotni þitt daglegt brauð,
duga lát þér þar með;
holdið þá jörðin hylur rauð,
hlotnast má ýmsum féð;
svo þig ei ginni girndin snauð,
gæt vel, hvað hér er skeð.

7. Stríðsmanna heift og harðýðge
herrans kvöl gat ei mýkt,
þó viti nóg hann særður sé,
sinnið var ilskuríkt.
Þeir, sem fátækan fletta fé,
fólskuverk drýgja slíkt.
Guð láti þig ei glæp þann ske,
að gjörir annað þvílíkt.

8. Nakinn á krossi hékstu hér,
herra minn Guð og mann,
fullnaðar-borgun fengin er
fyrir mig syndugan;
þá fórn Drottinn og sál mín sér,
sú gleðst, en blíðkast hann;
brullaups-klæðnað til bjóstu mér
þann bezta' eg girnast kann.

9. Hentuglega féll hlutur sá,
herra minn Jesú kær;
þú lézt mig auman, finna og fá
fagnaðarorð þín skær:
þeim klæðafaldi þreifa' eg á,
þegar mig hrygðin slær,
straumur eymdanna stöðvast þá,
styrk nýjan hjartað fær.

10. Hér þó nú skifti heimurinn
hlægjandi auði sín,
endar sá glaumur eitthvert sinn;
þá æfin lífsins dvín
láttu mér hlotnast, herra minn,
hlutfall næst krossi þín,
svo dýrðar fegursti dreyri þinn
drjúpi á sálu mín. — *Amen.*

## 359.

**(XXXVII.) Annað orð Kristí á krossinum.**

Lag: Ef Guð er oss ei sjálfur hjá;*)
eða: Af djúpri hrygð ákalla' eg þig.

UPPREISTUM *krossi herrans hjá*
*hans móðir standa náði;*
sverðið, sem fyr nam Símeon spá,
sál og líf hennar þjáði;
*Jóhannes einnig Jesú kær*
*jafnt var þar líka staddur nær;*
glögt sá að öllu gáði.

2. *Sinni móður hann segja réð:*
*Son þinn líttu þar, kvinna.*
*Við lærisveininn líka með*
*lausnarinn blítt nam inna:*
*Sjá þú og móður þína þar.*
*Þaðan í frá* (sem skyldugt var)
*sá tók hana til sinna.*

3. Sá, sem hlýðninnar setti boð
sinni blessun réð heita
þeim, er foreldrum styrk og stoð
stunda með elsku' að veita;
svoddan dygðanna dæmið hér
Drottinn vor sjálfur gaf af sér,
börnunum eftir að breyta.

4. Girnist þú, barn mitt, blessun fá,
björg lífs og gæfu fína,
foreldrum skaltu þínum þá
þóknun og hlýðni sýna;
ungdómsþverlyndið oftast nær

---

*) Sjá Jónas Jónsson: Passíusálmar.

ólukku' og slys að launum fær,
hrekkvísa hefndir pína.

5. Ekkjurnar hafa einnig hér
ágætishuggun blíða;
Jesús alt þeirra angur sér,
aðstoð þeim veitir fríða,
ef þær með hreinum hug og sið
halda sér Drottins pínu við,
og hans hjálpræðis bíða.

6. María, Drottins móðir kær,
merkir Guðs kristni sanna,
undir krossinum oftast nær
angur og sorg má kanna,
til hennar lítur þar herrann hýrt,
huggunarorðið sendir dýrt
og forsjón frómra manna.

7. Það reynist oft í heimi hér
hlutfall Drottins ástvina,
hörmungar sverðið sárt þá sker,
sæld lífsins gleður hina,
hverjir þó Kristum hæða mest,
hefir svo löngum viðgengest;
lítt vill því angri lina.

8. En þeir, sem Jesúm elska' af rót,
undir krossinum standa,
herrans blóðfaðmi horfa á mót,
hvern þeir líta í anda;
trúar og vonar sjónin sett
sár hans og benjar skoðar rétt;
það mýkir mein og vanda.

9. Jesús einnig með ást og náð

aftur til þeirra lítur,
gefur hugsvölun, hjálp og ráð,
harmabönd af þeim slítur,
aðgætin föður augun klár
öll reikna sinna barna tár,
aðstoð þau aldrei þrýtur.

10. Jeg lít beint á þig, Jesú minn,
jafnan þá hrygðin særir:
í mínum krossi krossinn þinn
kröftuglega mig nærir:
sérhvert einasta sárið þitt
sannlega græðir hjartað mitt
og nýjan fögnuð færir.

11. Þá eg andvarpa, óska' og bið,
augunum trúar minnar
lít eg hvert einasta orðið við
upp til krosspínu þinnar,
strax sýna mér þín signuð sár,
syndugum manni opinn stár
brunnur blessunarinnar.

12. Gleðistund holds þá gefur mér
Guð minn að vilja sínum,
upp á þig, Jesú, horfi' eg hér
hjartans augunum mínum:
auðlegðar-gæðin líkamlig
láttu þó aldrei villa mig
frá krossins faðmi þínum.

13. Jónas sat undir einum lund,
engra meina því kendi,
hádegissólar hitastund
hann ei til skaða brendi:
Jesú kross-skugga skjólið hér

skýlir þó langtum betur mér
fyrir Guðs heiftar hendi.

14. Hvort eg sef, vaki sit eður stá,
í sælu og hættum nauða,
krossi þínum eg held mig hjá,
horfandi' á blóð þitt rauða;
lát mig einnig, þá æfin þver,
út af sofna á fótum þér,
svo kvíði' eg sízt við dauða.—*Amen.*

## 360.

**(XXXVIII.) Um háðung og brigzl, sem Kristur leið á krossinum.**

Lag: Jesús, sem að oss frelsaði;*) eða:
Sælir eru, þeim sjálfur Guð.

ÞEIR,*sem að Kristi krossi senn*
*komu og fram hjá gengu,*
*hristu með háðung höfuðen,*
*honum til brigzlis fengu,*
*heitorð sín hefði hann haldið lítt,*
*herrans musteri' að brjóta,*
*á þremur dögum annað nýtt*
*efna með bygging fljóta.*

2. Tveir lugu svoddan falsmenn fyrst
fyrir Kaifas dómi,
af því hafði það út borist
eftir fjölmennis rómi;
þessir þó hafi heyrt og séð
herrans jarteiknir fríðar,
lygin þeim betur gafst um geð;
gengur svo enn til víðar.

3. *Öldungar landsins, fólkið flest*

*) Sjá Jónas Jónsson: Passíusálmar.

*og flokkur heiðinn stríðsmanna*
*herrann vorn Jesúm hæddu mest*
*með höfðingjum prestanna,*
*sögðu: ef ertu son Guðs kær,*
*sá þig með krafti styður,*
*kom þú hér, svo það sjáum vær,*
*sjálfur af krossi niður.*

4. *Hann, sá er öðrum hefir hér*
*hjálpað og læknað marga,*
*megnar nú ekki' að sönnu sér*
*sjálfum úr neyð að bjarga.*
Svoddan háðyrði, hróp og dár
hlaut þá Jesús að líða;
stóð það yfir um stundir þrjár,
stutt var andláts að bíða.

5. Þá fram hjá Kristí krossi nú
kallsandi held eg ganga,
sem ekki' af hjartans ást og trú
elska hans pínu stranga,
heilagleik sínum hrósa frí,
við holdsins fýsn sig binda,
síðan falla örvænting í
eða forherðing synda.

6. Að þínum krossi, Kriste kær,
kem eg sem einn framandi,
gef þú mér leyfi' að ganga nær,
geð mitt styrki þinn andi,
svo eg hugleiði, hvað til kom,
háðung, brigzlorð og pínu
leiðstu, manngæzku mildin fróm,
móti andláti þínu.

7. Sál mín og líf þær sæmdir hlaut,

sjálfs Guðs musteri' að heita,
í skírninni því eg þín að naut,
það nam Guðs andi veita;
síðan hefir það syndin mörg
sárlega gjört að brjóta;
holds náttúran mjög elskar örg
athæfið heimsins ljóta.

8. Á þremur dögum þar á mót
því hét eg mörgu sinni,
með iðran, trú og yfirbót
aftur það bætast kynni.
Æ, hvað veitir slíkt erfitt hér,
efnin og dug vill þverra,
brigzlið, sem til var búið mér,
bar nú Jesús, minn herra.

9. Í velgengninni' eg hrósa hátt
hraustleika trúarennar,
í mótlætinu' hún bilar brátt,
brest finn eg stóran hennar;
enginn fullkominn á mér sést
ávöxtur dygða sætur;
bar því fyrir mig brigzlið verst
blessaður Jesús mætur.

10. Hjálpa læzt eg með heilnæm ráð
hinum, sem illa breyta,
sjálfs mín lýta þó sízt fæ gáð,
svoddan má blindni heita;
mér var þar stærsta minkun að,
mátti háðyrðum kvíða;
burt tók nú Jesús bölið það,
brigzlin því vildi' hann líða.

11. Jesú, í þínu andláte
yfir þig brigzlin dundu,
að svo í friði önd mín sé
á minni dauðastundu;
hæddur varstu af öllum, einn
alla frá háðung leystir;
aldrei tapast sá nokkur neinn,
sem nafn þitt upp á treystir.

12. Nær sem hrekkvísra háðung ný
hjartað mitt sárt vill stanga
undir þinn kross eg feginn flý,
fram hjá skal eigi ganga;
þar stend eg kyrr, þó kalls og spé
kveyki mér heims óblíða;
upp á þig, Jesú, einn eg sé,
alt vil eg með þér líða.

13. Fyrst þú varst hæddur, herra, þá
harmakvöl leiðstu slíka,
svo heiðri þig nú héðan í frá
himnar og jörðin líka;
allir englar og öll heims mynd
undir þitt vald sig hneigi,
og eg þar upp á, aum mannkind,
amen af hjarta segi. — *Amen.*

## 361.

**(XXXIX.) Um ræningjans iðrun.**

**Lag: Einn herra eg bezt ætti.**

ANNAR *ræninginn ræddi,*
*sem refsað í það sinn var,*
*herrann vorn Jesúm hæddi,*
*hann gaf þetta andsvar:*

*Ef þar von er til nokkur,*
*að þú Guðs sonur sért,*
*hjálpa þér og svo okkur*
*úr þessum kvölum bert.*
2. *En hinn þar upp á gegndi:*
*Ekki hræðist þú Guð,*
*hverjum straffs heiftin hegndi,*
*hún var rétt forþénuð;*
*við megum vel meðtaka*
*verka betaling þann,*
*en þessi' er alls án saka.*
*Eftir það sagði hann:*
3. *Hugsaðu til mín, herra,*
*þá heldur þú ríkið þitt.*
Ást Drottins ei nam þverra,
andsvar lét heyra sitt:
*Sannlega þér eg segi,*
(sú er huggunin vís),
*þú skalt á þessum degi*
*mér þjóna' í paradís.*
4 Sjá hér fyrst straffið synda,
sála mín, hryggilegt,
forherðing hjartans blinda,
þó holdið kveljist frekt.
Gefðu mér, Jesú góði,
eg gegni vel hirting þín,
með trú og táraflóði,
tjái þér brotin mín.
5. Ræningjans iðran eina
athugum líka með,
hann gjörði iðran hreina,
hataði illverk skeð,

því sagði' hann væri að vonum
verðlaunin ranglætes,
ávítun veitti honum,
sem vildi' ei gæta þess.

6. Hann trúði' á himnaríki
hefði vor Jesús ráð,
þó syndugra sýndist líki,
svo treysti' upp á hans náð,
með blygðun og hreldum huga
herrann sín minnast bað,
ljúflega lét sér duga,
loforð ef fengi það.

7. Hróp og háreysti gjörðu
heiðnir og Júðar þar
kringum krossinn á jörðu
með kalls, brigzl og háðungar;
svaraði' ei son Guðs neinu,
þó sjálfan það gilti hann,
en syndugs manns orði einu
án dvalar gegna vann.

8. Sætt mér fyrir sjónum skartar,
sæll Jesú, gæzkan þín,
þér gekk heldur til hjarta
hans neyð en sjálfs þín pín;
sama hefir þú sinni
við syndugar skepnur hér,
því aldrei elsku þinni
aftur, minn herra, fer.

9. Illvirkinn hafði unnið
ódæðaverkin stærst,
götu glæpanna runnið

greitt fram í dauðann næst,
en Jesús ekki vildi
á það neitt minnast nú,
svo var mikil hans mildi;
mín sál, það hugleið þú.

10. Enginn örvænta skyldi,
þó iðrast hafi seint,
söm er Guðs sonar mildi,
sé annars hjartað hreint,
því hvorki við staði' né stundir
stýluð er Drottins náð,
alt fram andlátið undir
oss býðst hans hjálparráð.

11. En þú skalt ekki treysta
óvissri dauðastund,
né Guðs með glæpum freista,
gjörandi þér í lund,
náðartíminn sé næsta
nógur höndum fyrer;
slíkt er hættusemd hæsta;
henni Guð forði mér.

12. Svo margt eg syndgað hefi,
sorgin mig sturlar nú,
iðran Guðs náð mér gefi,
glóandi von og trú.
Herra Jesú hjartkæri,
hugsa þú til mín þá
dapur er dauðinn nærri
og drag mig kvölum frá. — *Amen.*

## 362.

(XL.) **Það þriðja orð Kristí á krossinum.**

Lag: Skaparinn stjarna, herra hreinn.

UPP *á ræningjans orð og bón*
*anzaði Guðs hinn kæri son:*
*Þú skalt, sannlega segi' eg þér,*
*sæluvist hafa' í dýrð hjá mér.*

2. Sjáðu með gætni, sál mín kær,
sönn iðran hverju kraftað fær:
upp á það dæmið er hér rétt
öllum til lærdóms fyrir sett.

3. Reiði Drottins þá upp egnd er
yfir ranglæti mannsins hér,
iðranin blíðkar aftur Guð,
ei verður syndin tilreiknuð.

4. Þó komi höstug hefndin bráð,
hrein iðran jafnan finnur náð,
mitt í standandi straffi því
stillist Guðs reiði upp á ný.

5. Samvizku orma sárin verst
sönn iðran jafnan græðir bezt,
hugsvalar sál og huggar geð,
heilaga engla gleður með.

6. Bæn af iðrandi hjarta hýr,
hún er fyrir Guði metin dýr,
herrann Jesús á hverri tíð
henni gaf jafnan andsvör blíð.

7. Sem Móyses með sínum staf
sætt vatn dró forðum steini af,
eins fær iðrandi andvarp heitt
út af Guðs hjarta miskunn leitt.

8. Játning mín er sú. Jesú minn,
jeg er sem þessi spillvirkinn,
já, engu betri fyrir augsýn þín,
ef þú vilt reikna brotin mín.

9. Kem eg nú þínum krossi að,
kannastu, Jesú minn, við það;
syndanna þunginn þjakar mér,
þreyttur eg nú að mestu er.

10. Alnakinn þig á einu tré,
út þínar hendur breiðande,
sárin og blóðið signað þitt
sér nú og skoðar hjartað mitt.

11. Þar við huggar mín sála sig,
svoddan alt leiðstu fyrir mig;
þíns hjartadreyra heilög lind
hreinsar mig vel af allri synd.

12. Krossins burtnuminn kvölum frá,
kóngur ríkir þú himnum á;
herra, þá hér mig hrellir pín,
hugsaðu' í þinni dýrð til mín.

13. Segðu hvern morgun svo við mig,
sæti Jesú, þess beiði' eg þig:
Í dag þitt hold í heimi er,
hjartað skal vera þó hjá mér.

14. Í dag (hvern morgun eg svo bið)
aldrei lát mig þig skiljast við,
sálin, hugur og hjartað mitt
hugsi og stundi' á ríkið þitt.

15. Eins þá kemur mín andlátstíð,
orðin lát mig þau heyra blíð:

Í dag (seg þú) skal sálin þín
sannlega koma' (í dýrð til mín).

16. Herra minn, þú varst hulinn Guð,
þá hæðni leiðst og krosins nauð,
þó hafðir þú með hæstri dáð
á himnaríki vald og ráð.

17. Dauðanum mót mér djörfung ný
daglega vex af orði því:
Í dag, þá líður ei langt um það,
leidd verður önd í sælustað.

18. Ó Jesú, séu orðin þín
andláts síðasta huggun mín,
sál minni verði þá sælan vís
með sjálfum þér í paradís. — *Amen.*

## 363.

### (XLI.) Það fjórða orð Kristí á krossinum.

Lag: Af djúpri hrygð ákalla' eg þig.

UM *land gjörvalt varð yfrið myrkt*
*alt nær frá sjöttu stundu,*
*sólin því ljóma sinn fékk byrgt*
*senn til hinnar níundu.*
*Guð minn* (Jesús svo hrópar hátt),
*hvar fyrir gleymdir þú mér brátt?*
Svoddan, mín sál, vel mundu.

2. Enginn skal hugsa' að herrann þá
hafi með efa' og bræði
hrópað þannig né horfið frá
heilagri **þolinmæði**;
syndanna kraft og kvalanna stærð

kynnir hann oss, svo verði hrærð
hjörtun frá hrekkja-æði.

3. Sólin blygðast að skína skær,
þá skapara sinn sá líða,
hún hafði' ei skuld (það vitum vær)
þess voðameinsins stríða;
ó, hvað skyldi þá skammast sín
skepnan, sem Drotni jók þá pín,
með hrygð og hjartans kvíða.

4. Aví, hvað má eg aumur þræll
angraður niður drjúpa,
þá eg heyri, minn herra sæll,
sú harma bylgjan djúpa
gekk yfir þig, þá galztu mín;
gjarnan vil eg að fótum þín
feginn fram flatur krjúpa.

5. Í yztu myrkrum um eilífð er
óp og gnístran tannanna,
hefndarstraff það var maklegt mér
fyrir margfjöldann glæpanna;
frá því, Jesú, þú frelstir mig;
frekt gengu myrkrin yfir þig,
svo skyldi' eg þá kvöl ei kanna.

6. Í svörtu myrkri það sama sinn
sorgarraust léztu hljóma,
þá hrópaðir þú mig, herra, inn
í himneskan dýrðarljóma;
í því ljósi um eilíf ár
úthrópa skal mín röddin klár
lof þinna leyndardóma.

7. Synda, sorga og mótgangs með

myrkrin svo oft mig pína,
að glögt fær ekki sálin séð
sælugeislana þína;
Jesú, réttlætis-sólin sæt,
syrgjandi eg það fyrir þér græt,
harmaraust heyr þú mína.

8. Guð minn, segi eg gjarnan hér,
geyst þó mig sorgin mæði,
Jesú, eg læri það af þér,
þau skulu mín úrræði;
gjörvöll þá heimsins gleðin dvín,
Guð minn, eg hrópa vil til þín:
Guð minn alt böl mitt græði.

9. Yfirgefinn kvað son Guðs sig,
þá særði hann kvölin megna;
yfirgefur því aldrei mig
eilífur Guð hans vegna;
fyrir þá herrans hrygðarraust
hæstur Drottinn mun efalaust
grátbeiðni minni gegna.

10. Þá sólarbirtunni eg sviftur er,
sjón og heyrn tekur að dvína,
raust og málfæri minkar mér,
myrkur dauðans sig sýna,
í minni þér, Drottinn sæll, þá sé
sonar þíns hróp á krossins tré,
leið sál til ljóssins mína. — *Amen.*

## 364.

(XLII.) **Það fimta orð Kristí á krossinum.**

Lag: Eins og sitt barn, faðir ástgjarn.

*Í sárri neyð,*
*sem Jesús leið,*
*sagði hann glögt: mig þyrstir.*
*Svo ritning hrein*
*í hverri grein*
*uppfyllist ein.*
Um það mig ræða lystir.

2. *Strax hljóp einn að,*
*sem heyrði það,*
*hitta njarðarvött kunni,*
*drap í edik*
*lét á reyrprik,*
*með ill tilvik,*
*og bar Jesú að munni.*

3. Forundrast má,
mín sál, þar á,
maðurinn, hver þess gætir,
að hann, sem ráð
hefir með dáð
á himni' og láð,
hörmung þvílíkri mætir.

4. Hann, sá sem vín
af valdi sín
úr vatni sætt til reiddi,
með sorgarskikk
fékk súrt edik
fyrir svaladrykk,
þá sárt hann þorstinn neyddi.

5. Því myndi' ei hér
til hlífðar sér
herrann edikið líka
sem vín ágætt
gjöra vel sætt,
fyrst gat það bætt
hans guðdómsmaktin ríka?

6. Komin var tíð,
kraftaverk fríð
Kristur ei gjöra skyldi;
hin stundin þá
fyrir hendi lá,
hrygð, kvöl og þrá
herrann vor líða vildi.

7. Kraftaverk hrein
kendu þá grein,
að Kristur Guðs sonur væri
en kvölin hans
sýndi til sanns,
að syndugs manns
sektir og gjöld hann bæri.

8. Guðs einkason
gjörðist vor þjón,
þá græddi' hann mein og kvíða;
en offurlamb bezt
hann orðinn sést
fyrir utan brest,
í því hann kvöl nam líða.

9. Af stríði því,
sem stóð hann í,
styrkleiki manns náttúru
þreytast mjög vann,

því þyrsti hann,
þáði vökvann
þó af ediki súru.

10. Í annan stað
merk, maður, það,
og minst þess hverju sinni,
að herrann Krist
hefir mest þyrst
af ást og lyst
eftir sáluhjálp þinni.

11. Ó maður, nú
þenk þar um þú,
þinn hugur blygðast skyldi,
Guð þyrstir hér,
að hjálpa þér,
en hjarta þitt er
óþyrst eftir hans mildi.

12. Heyr þú, sál mín,
talar til þín
trygða brúðguminn góði:
Þyrstur eg er
í hrygðum hér,
svo hjálpi eg þér
úr hættu kvalanna flóði.

13. Ber honum sízt,
þess bið eg víst,
beiskan drykk hræsnis anda;
orðin hans hrein
á alla grein
fyrir utan mein
óbrjáluð láttu standa.

14. Upp á orð þín
svarar sál mín,
sorgin þó málið heftir:
Sjálf þyrsti' eg nú,
þýði Jesú,
og það veizt þú,
þinni miskunnsemd eftir.

15. Ekki' er hjá mér
það þyrstum þér
þori' eg nú fram að bjóða,
nema fá tár,
trú veik, þó klár,
sem til þín stár,
tak það og virð til góða.

16. Lof-dýrð sé þér,
lausn fékstu mér,
og lézt þig svo miklu kosta;
hjartað á ný
huggast af því,
að eg er frí
frá eilífum kvalaþorsta. — *Amen.*

## 365.

**(XLIII.) Það sjötta orð Kristí á krossinum.**

Lag: Allfagurt ljós oss birtist brátt;*)
eða: "Old Hundred."

EFTIR *að þetta alt var skeð,*
*edikið Jesús smakka réð,*
*þrótt og lífskrafta þverra fann,*
*það er fullkomnað, sagði hann.*

---

*) Sjá Jónas Jónsson: Passíusálmar.

2. Orð þíns herra með ást og trú
athuga skyldir, sál mín, þú;
ef þeirra grundvöll sannan sér,
sæta huggun þau gefa þér.

3. Fyrst skaltu vita' að Guð út gaf
greinilegt lögmál himnum af;
hann vill, að skuli heimi í
hver maður lifa eftir því.

4. Algjört réttlæti ljóst og leynt
líkama, sál og geðið hreint,
syndalaus orð og atvik með
af oss lögmálið heimta réð.

5. Hugurinn vor og hjartað sé
í hreinni elsku rétt brennande
fyrir utan hræsni, bræði' og bann,
bæði við Guð og náungann.

6. Hver þetta gæti haldið rétt
honum var lífið fyrir sett,
en ef í einu út af brá,
eilíf fordæming við því lá.

7. Enginn maður frá Adam fyrst,
eftir þann tíma hann syndgaðist,
fullnægju gat því gjört til sanns;
gengur það langt yfir eðli manns.

8. Óbærileg varð allra sekt
eftir því Drottinn gekk svo frekt,
annaðhvort skyldi uppfylt það,
eða mannkynið fortapað.

9. Jesús eymd vora alla sá,
ofan kom til vor jörðu á,

hæðum himna upprunninn af,
undir lögmálið sig hann gaf.

10. Viljuglega í vorn stað gekk,
var sú framkvæmdin Guði þekk;
föðurnum hlýðni fyrir oss galt,
fullkomnaði svo lögmál alt.

11. En svo að synda sektin skeð
sannlega yrði forlíkt með
og bölvan lögmálsins burtu máð,
beiska kvöl leið og dauðans háð.

12. Þá hann nú hafði alt upp fylt,
sem oss var sjálfum að gjöra skylt,
og bæta öll vor brotin frí,
berlega vildi' hann lýsa því.

13. Þess vegna herrann hrópa nam,
hart nær á krossi stiginn fram,
að oss í voru andláte
öll hans verðskuldun huggun sé.

14. Svoddan aðgættu, sála mín,
sonur Guðs hrópar nú til þín,
hvað þér til frelsis þéna kann,
það er fullkomnað, segir hann.

15. Fullkomnað lögmál fyrir þig er,
fullkomnað gjald til lausnar þér,
fullkomnað alt, hvað fyrir var spáð,
fullkomna skaltu eignast náð.

16. Herra Jesú, eg þakka þér,
þvílíka huggun gafstu mér,
ófullkomleika allan minn
umbætti guðdóms kraftur þinn.

17. Hjálpa þú mér, svo hjartað mitt
hugsi jafnan um dæmið þitt,
og haldist hér í heimi nú
við hreina samvizku' og rétta trú.

18. Upp á þessi þín orðin traust
óhræddur dey eg kvíðalaust,
því sú frelsis fullkomnan þín
forlíkað hefir brotin mín. — *Amen.*

## 366.

(XLIV.) **Það sjöunda orð Kristí á krossinum.**

Lag: Herra Guð í himnaríki; eða:
**Sá frjáls við lögmál fæddur er.**

HRÓPAÐI *Jesús hátt í stað,*
*holdsmegn og kraftur dvínar:*
*Eg fel minn anda, frelsarinn kvað,*
*faðir, í hendur þínar.*

2. Þú, kristinn maður, þenk upp á
þíns herra beiskan dauða,
að orðum hans líka einnig gá,
eru þau lækning nauða.

3. Jesús haldinn í hæstri kvöl,
hlaðinn með eymdir allar,
dapurt þá að kom dauðans böl,
Drottinn sinn föður kallar.

4. Herrann vill kenna þar með þér,
þín ef mannraunir freista,
góðlyndur faðir Guð þinn er,
gjörir þú honum að treysta.

5. Fyrir Jesúm þú fullvel mátt
föður þinn Drottin kalla,

en þó þig krossinn þvingi þrátt,
það mýkir hörmung alla.

6. Eins og faðirinn aumkar sig
yfir sitt barnið sjúka,
svo vill Guð einnig annast þig,
og að þér í miskunn hjúka.

7. Einnig sýna þér orð hans klár
ódauðleik sálarennar,
þó kroppurinn verði kaldur nár,
krenkist ei lífið hennar.

8. Hvar hún finnur sinn hvíldarstað,
herrann sýnir þér líka;
hönd Guðs þíns föður heitir það,
hugsa um ræðu slíka.

9. Viljir þú eftir endað líf
eigi þín sál þar heima,
undir hönd Drottins hér þá blíf,
hans boðorð skaltu geyma.

10. Láttu Guðs hönd þig leiða hér,
lífsreglu halt þá beztu,
blessað hans orð, sem boðast þér,
í brjósti og hjarta festu.

11. Hrittu ei frá þér herrans hönd,
hún þótt þig typta vildi;
legg heldur bæði líf og önd
ljúflega' á Drottins mildi.

12. Hér þegar mannleg hjálpin dvín,
holdið þó kveini' og sýti,
upp á hönd Drottins augun þín
ætíð með trúnni líti.

13. Að morgni' og kvöldi minst
þess vel,
máls upptekt láttu þína:
Af hjarta' eg þér á hendur fel,
herra Guð, sálu mína.

14. Svo máttu vera viss upp á,
vilji þér dauðinn granda,
sála þín mætir miskunn þá
millum Guðs föður handa.

15. Hún finnur ekkert hrygðarstríð,
hörmung né mæðu neina;
í friði skoðar ætíð blíð
ásjónu Drottins hreina.

16. Eftirtekt mér það einnig jók,
er eg þess gæta kunni,
andlátsbæn sína sjálfur tók
son Guðs af Davíðs munni.

17. Bæn þína aldrei bygðu fast
á brjóstvit náttúru þinnar,
í Guðs orði skal hún grundvallast,
það gefur styrk trúarinnar.

18. Vér vitum ei, hvers biðja ber,
blindleikinn holds því veldur,
orð Guðs sýnir þann sannleik þér,
sæll er sá þar við heldur.

19. Vertu, Guð faðir, faðir minn,
í frelsarans Jesú nafni,
hönd þín leiði mig út og inn,
svo allri synd eg hafni.

20. Höndin þín, Drottinn, hlífi mér,
þá heims eg aðstoð missi,

en nær sem þú mig hirtir hér,
hönd þína' eg glaður kyssi.

21. Dauðans stríð af þín heilög hönd
hjálpi mér vel að þreyja;
meðtak þá, faðir, mína önd,
mun eg svo glaður deyja.

22. Minn Jesú, andláts-orðið þitt
í mínu hjarta' eg geymi,
sé það og líka síðast mitt,
þá sofna' eg burt úr heimi. — *Amen.*

## 367.

**(XLV.) Um Jesú dauða.**

Lag: Faðir vor, sem á himnum ert.

ÞÁ frelsarinn í föðursins hönd
fól nú blessaður sína önd,
*niður sitt höfuð hneigði fyrst*
*herrann, í því hann sálaðist.*
Drottinn vor þannig dó á tré,
dásemd kunni ei meiri ske.

2. Sankti Páll segir í sannri raun
syndarinnar sé dauðinn laun;
banaspjót hans eru brotin ljót,
boðorðum Drottins gjörð á mót;
sá skal deyja, sem syndgar hér,
svoddan úrskurður réttur er.

3. En það hér heima átti sízt,
af því Jesús er saklaus víst;
af helgum anda með hreinum sið
hann var getinn í meyjar kvið;

Guðs föður veru fegurst mynd
frjáls lifði' og dó af allri synd.

4. Hvorki refsing né heljar-bað
hafði nú Jesús forskuldað;
hvað kom þá til, að herrann leið
harða pínu og beiskan deyð?
Eða hvar fyrir hirtist hann,
hirtingar til sem aldrei vann?

5. Guðs andi þar á gjörir skil,
greinir þvílíka orsök til:
Vegna misgjörða vorra hér
vissilega hann særður er,
því Drottinn lagði svo fyrir sann
syndirnar vorar upp á hann.

6. Sjá hér, mín sál, fyrir syndir þín
sonur Guðs líður kvöl og pín;
hann dó fyrir þig, sem dauðans bað
dárlega hafðir forskuldað;
hann lét sitt líf, svo lifðir þú,
lífs eilífs von því áttu nú.

7. Á mig var fallin þyngsta þraut,
því að eg Drottins lögmál braut,
samvizku særði synda gráð,
svo fékk dauðinn sterk yfirráð,
til fordæmingar mér fjötrin hans
fastlega héldu víst til sanns.

8. Lögmál safnaði sektum mér,
sektinni dauðinn eftir fer,
dauðinn til dómsins dregur snar,
dómurinn straffið úrskurðar,

straffið um eilfð aldrei dvín,
eilíf því var hin þyngsta pín.

9. Lögmálið hér sig forgreip fyrst,
feldi það dóm yfir herrann Krist;
það bauð, að sá bölvaður sé,
sem bana líður á einu tré;
djarflega eftir því dauðinn gekk.
Drottin frá lífi skilið fékk.

10. Sekt þá, sem lögmál setti mér,
saklaus borgaði Jesús hér,
það misti sína makt í því,
mig verður nú að láta frí,
dauðans broddur var brotinn þá
burt hans fangelsi slapp eg frá.

11. Eilífur dauði deyddur er,
dauðinn Jesú það vinnur hér;
dýrt metur Drottinn dauða minn;
dauði, hvar er nú broddur þinn?
Dauðinn til lífsins nú stutt er stig,
stórlega því dauðinn batar mig.

12 Dauðinn því orkar enn til sanns
útslokna hlýtur lífið manns,
holdið legst í sinn hvíldar stað,
hans makt nær ekki lengra en það;
sálin af öllu fári frí
flutt verður himnasælu í.

13. Í þínum dauða, ó Jesú,
er mín lífgjöf og huggun trú,
dásemdarkraftur dauða þíns
dreifist nú inn til hjarta míns,
upp á það synd og ilskan þver
út af deyi í brjósti mér.

14. Þú hneigðir þínu höfði ljóst,
herra, þá þú á krossi dóst;
með því bentir þú mér það sinn,
að minnast jafnan á dauða þinn;
eins þá eg dey skulu' augun mín
upp líta, Drottinn sæll, til þín.

15. Fyrir þann deyð, sem þoldir
þig bið eg, Jesú, um það nú, [þú,
að gefi mér þín gæzkan blíð
góða kristins manns dauða tíð.
Hold mitt lát hvílast hægt í frið,
hönd þín sálunni taki við. — *Amen.*

## 368.

**(XLVI.) Um teiknin, sem urðu við Kristí dauða.**

Lag: Þá linnir hér mín líkams vist;*)
eða: Til þín, heilagi herra Guð.

ÞEGAR *Kristur á krossins tré*
*kannaði dauðann stríða,*
*teikn og stórmerki mestu ske,*
mælir svo ritning fríða.
*Musteristjaldið mjög umvent*
*í miðju varð að rifna' í tvent,*
*hristist jörð harla víða.*

2. *Sundur klofnuðu björgin blá,*
*byrgð leiðin opnast fóru,*
*líkamir dauðra lifna þá,*
(lít hér þau undrin stóru),
*eftir lausnarans upprisu*
*inn í borgina vitjuðu*
*af sumum þar sénir vóru.*

---

*) Sjá Jónas Jónsson: Passíusálmar.

3. Hvað hér histórían hermir rétt,
(hygg að því, sál mín mæta),
þér til lærdóms er það fram sett,
þess áttu vel að gæta;
jörðin sjálf, þegar Jesús dó,
jafnvel þeir hörðu klettar þó
sýndu meðaumkun sæta.

4. Steini harðara' er hjartað það,
sem heyrir um Jesú pínu,
gefur sig þó þar ekki að,
ann meir gjálífi sínu;
kann nokkuð svoddan kalt hugskot
Kristí dauða að hafa not?
Guð stjórni geði mínu.

5. Það má undra, hin þunga jörð
þreyði ei kyrru' að halda,
blágrýtis einnig björgin hörð
bresti liðu margfalda;
holdið þó ei né hjartað manns
hryggist við pínu skaparans,
sem hans þó hlaut að gjalda.

6. Fortjaldið sýnir sannleik þann,
sundur þá rifna náði,
af takast skyldi öll fyrir sann
eftir Guðs settu ráði
Gyðingakynsins kóngleg stjórn,
kennivaldið og lögmáls fórn,
sem ritning sjálf um spáði.

7. Hindrun réð öllum ærið stór
inn í Guðs ríki banna,
því veldur syndasektin vor

og saurugleikinn verkanna;
en fyrir Jesú dýrstan deyð
Drottinn tilbjó oss opna leið
héðan upp til himnanna.

8. Hér í kristninnar helgidóm
höfum vér frelsi' að ganga;
þar boðast náð og blessun fróm,
burt er þá sorgin stranga,
sálin vor hefir búna braut
beint í Abrahams gleðiskaut
eftir heims hörmung langa.

9. Frelsarans dauða einnig að
önduð líkin hér njóta
guðlegur kraftur gjörði það,
grafirnar opnast hljóta;
því Drottins Jesú dauði' á kross
dauðann sigraði fyrir oss.
afl hans og brodd nam brjóta.

10. Merk, að úr jörðu mátti' ei [neinn
maður frá dauðum standa,
fyr en tjáði vor herra hreinn
hold sitt aftur lifanda,
fyrstur allra því upp reis hann
af eigin krafti' og þar með fann
endurlausn oss til handa.

11. *Höfðinginn krossi herrans hjá,*
*hér með alt fólkið líka,*
*jafnframt er svoddan jarteikn sjá,*
*játning þeir gjörðu slíka :*
*Sannlega hefir saklaus hann*
*og sonur Guðs verið þessi mann,*
*brjóst slá og brátt heim víkja.*

12. Fólkið, sem harða krossins kvöl
Kristó fyrst óska náði,
fann nú hið þyngsta' í brjósti böl.
beiskleg samvizkan þjáði.
Of hastarlegan úrskurð flý,
ef þú vilt vera' af sorgum frí;
hætt er rasanda ráði.

13. Dauðinn þinn, Jesú Drottinn [þá
dýrlegan kraft út sendi,
heiðnum manni svo hér við brá,
hann þig Guðs son meðkendi.
Eg bið gæzkunnar geðið þitt,
gefðu við lifni hjartað mitt,
að svo frá illu vendi. — *Amen.*

## 369.

**(XLVII.) Um Kristí kunningja, sem stóðu langt frá.**

Lag: Ó, Jesú, elsku hreinn; eða: Kom þú, sál kristin, hér.

KUNNINGJAR *Kristí þá*
*krossinum langt í frá*
*stóðu með þungri þrá,*
*þessa tilburði sjá.*

2. *Var þar og viðstatt með*
*að vísu margt kvenfólkeð,*
*sár Jesú fengu séð,*
*sorgandi báru geð.*

3 Af þessu, mín sál, þú sér
sannlega, hversu er
valt alt í heimi hér;
haf slíkt í minni þér.

4. Dvínar og dregst í hlé
á dauðastundunne
vinskapur, frændur, fé;
fallvalt hygg eg það sé.

5. Þó vildu vinirner
veita hjálp nokkra þér,
vörn þeirra ónýt er,
enginn dauðanum ver.

6. Lífinu hjúkrar hönd,
þá herðir sóttargrönd,
hjálpa þá engin önd
upphugsuð ráðin vönd.

7. Vinskap í synda sið,
sála mín, þess eg bið,
bittu ei veröld við,
viljir þú sofna' í frið.

8. Hreinan vinskap halt þú
við herra þinn Jesúm nú
í helgri hjartans trú,
frá heimsins elsku þér snú.

9. Hann einn má hjálpa þér,
þá hjástoð mannleg þver,
heim þig á höndum sér
í himna sælu ber.

10. Það hér í sannleik sézt,
er sonur Guðs andaðest,
sorgin þá særði mest
sem hann elskuðu bezt.

11. Krists börn eru krossbörn,
við Kristum hlýðnisgjörn,

hann sýnir þeim hjálp og vörn,
þó hörð sé sútarkvörn.

12. Þú skyldir þar að gá,
þó þeir stæðu langt frá,
allir samhuga sjá
son Guðs kross festan á.

13. Komið svo, konur og menn,
að krosinum Jesú senn,
þó nauðin þrengi þrenn,
þar fæst nóg lækning enn.

14. Kom þú, sál kristin, hér,
sem kross og mannraunir ber;
settu fyrir sjónir þér
son Guðs, sem píndur er.

15. Upp á hans heilög sár
horfi þín trúin klár,
það mýkir trega' og tár,
temprar alt sorgarfár

16. Sértu, syndugur mann,
særður um hyggjurann,
horfðu beint upp á hann,
sem hjálp þér á krossi fann.

17. Hver sem eir-orminn leit
af Ísraels manna sveit,
eitrið ei á þann beit,
öll stiltist plágan heit.

18. Svo stór synd engin er,
að megi granda þér,
ef þú iðrandi sér
í trúnni Jesúm hér.

19. Sé eg þig, sæll Jesú,

svo sem álengdar nú,
von mína' og veika trú
við bið eg hressir þú.

20. Þá eg sé sárin mín
særir mig hjartans pín,
en sárin þá sé eg þín,
sorg öll og kvíði dvín.

21. Lát mig, ó Jesú kær,
aldrei svo vera þér fjær,
að sjái' eg ei sár þín skær,
þá sorg og eymd mig slær.

22. Veit mér eg verði' og sé
vin þinn og kunninge,
þó hverfi heilsa og fé,
hjálp mun þá nóg í té.

23. Eg fel í sérhvert sinn
sál og líkama minn
í vald og vinskap þinn;
vernd og skjól þar eg finn.—*Amen.*

## 370.

**(XLVIII.) Um Jesú síðusár.**

Lag: Tunga mín af hjarta hljóði.

AÐ *kvöldi Júðar frá eg færi*
*til fundar greitt við Pílatum,*
*og þess beiddu' að ekki væri*
*önduð lík á krossinum,*
*því hátíðin var harla nærri;*
hér svo ritning greinir um.

2. *Stríðsmönnum hann bauð að*
*beinin þeirra, og svo var gert;* [*brjóta*

*heljar stund því hreptu fljóta*
*hinir tveir, sem greini' eg bert,*
*en Jesúm létu síns lífláts njóta,*
*limina hans ei fengu snert.*

3. *Stríðsmann einn með heiftar hóti*
*harðlyndur gekk krossi að,*
*í lausnarans síðu lagði spjóti,*
*lagið nam í hjarta stað,*
*blóð og vatn þar frá eg út fljóti,*
*fyrir var áður spáð um það.*

4. Umhugað er einum Drotni
allra sinna barna lík;
í jörðu hér þó holdið rotni,
huggun traust mig gleður slík,
hann vill ei týnist bein né brotni;
blessuð sé sú elskan rík.

5. Guð Drottinn með gæzku ráði
gjörði Adams síðu af
fríða kvinnu fyrst á láði,
fast hann þó á meðan svaf,
vaknaður þess að vísu gáði
og veglegt henni nafnið gaf.

6. Sofnaður á sinni síðu
sárið Drottinn Jesús bar,
svo af vatni' og blóði' hans blíðu
bygðist heilög kristnin þar,
náði hún eðla nafni fríðu
nær til himna stiginn var.

7. Skoðaðu, hvernig skírnin hreina
skiljast nú með réttu á,
að vísu jafnan vatnið eina

vor líkamleg augu sjá,
en trúarsjónin, svo skal greina,
sonar Guðs blóð þar lítur á.

8. Æ, hvað má eg sælan sanna
sankti Tómas postula þinn,
þá síðu mátti' hann sár þitt kanna,
sína hönd þar lagði inn;
þú munt ei mér þjáðum banna
það að skoða, Jesú minn.

9. Allar Jesú æðar stóðu
opnaðar í kvölinne,
dreyralækir dundu' og flóðu
um Drottins líf og krossins tré;
nægð af lausnargjaldi góðu
Guðs son fyrir mig lét í té.

10. En svo eg skyldi sjá og játa
sanna elsku Drottins míns,
vildi hann ekki læstar láta
lífæðarnar hjarta síns;
því er, sál mín, mikil úr máta
miskunnsemi lausnara þíns.

11. Opnar dyr á arkar síðu
inn um gengu skepnurnar,
sem sjálfur Drottinn bauð með blíðu
bjargast skyldu inni þar
fyrir vatnsins flóði stríðu,
frelsi' og líf þeim gefið var.

12. Lífsins dyr á síðu sinni
setur Jesús opnar hér,
svo angruð sála aðstoð finni,
öll þá mannleg hjálpin þver;

hver, sem hefir þar athvarf inni,
frá eilífum dauða leystur er.

13. Nói um sinn arkarglugga
upp til himins litið fékk,
haldinn dimmum hrygðarskugga,
hátt þá vatnsins flóðið gekk,
svo hann mátti' um síðir hugga
sólarljóma birtan þekk.

14. Gegnum Jesú helgast hjarta
í himininn upp eg líta má,
Guðs míns ástar birtu bjarta
bæði fæ eg reyna' og sjá,
hrygðarmyrkrið sorgar svarta
sálu minni hverfur þá.

15. Guðs var máttug mildin prúða,
Móyses þá steininn sló,
út til allra Ísraels búða
ágætt svalavatnið dró,
hresti þyrsta, þjáða, lúða,
þeim svo nýja krafta bjó.

16. Þá sjálfur Guð á sonarins [hjarta
sínum reiðisprota slær,
um heimsins áttar alla parta
út rann svalalindin skær,
sálin við þann brunninn bjarta
blessun og nýja krafta fær.

17. Við þennan brunninn þyrstur dvel eg,
þar mun eg nýja krafta fá,
í þessi inn mig fylgsnin fel eg,
fargar engin sorg mér þá,

sælan mig fyrir trúna tel eg,
hún tekur svo Drottins benjum á.

18. Hjartað mitt er, herrann góði,
hryggilega saurgað mjög,
þvo þú það með þínu blóði,
þess af auðmýkt beiði eg,
vinni mér bót á mæðu' og móði
miskunnsemin guðdómleg.

19. Hjartans instu æðar mínar
elski, lofi, prísi þig,
en hjartablóð og benjar þínar
blessi, hressi, græði mig;
hjartans þýðar þakkir fínar
þér sé, gæzkan eilífleg. — *Amen.*

## 371.

**(XLIX.) Um Kristí greftran.**

Lag: Nú látum oss líkamann grafa.

JÓSEF *af Aramathíá,*
*eðalborinn ráðherra sá,*
*Gyðinga svik við son Guðs skeð*
*samþykt hafði þeim aldrei með.*

2. *Hann var lausnarans lærisveinn,*
*lífernisfrómur, dygða hreinn,*
*Gyðinga hræddist hefnda raun,*
*hélt sig að Kristó því á laun.*

3. *Þessi um kvöldið þangað gekk,*
*þá af Plató leyfi fékk,*
*að mætti Jesúm andaðan*
*ofan taka og jarða hann.*

4. *Jósef tók strax af krossi Krist,*

*keypti þó nýjan líndúk fyrst;*
*Nikódemus kom þegar þar,*
*þangað kostuleg smyrslin bar,*

5. *Jósef gröf eina átti þar,*
*útklöppuð sú í steini var,*
*í aldingarði allskamt frá,*
*enginn fyr dauður í henni lá.*

6. *Dýrlega smurðu Drottins lík,*
*(*dæmin má önnur finna slík*)*,
*byrgðu með steini búna gröf,*
*burt gengu strax fyrir utan töf.*

7. *María Jakobs móðir ein,*
*Magðalena á sömu grein,*
*Salóme einnig sat þar hjá,*
*sáu vors herra greftrun á.*

8. Í þeirra selskap, sál mín blíð,
settu þig niður litla tíð;
greftran þíns herra gæt vel að,
gagnlaust mun ekki vera það.

9. Við Jesú greftran jeg fæ séð
Jósef og Nikódemum með;
áður þorðu þeir ekki Krist
opinberlega' að játa fyrst.

10. Nú fá þeir næsta nýjan dug,
nóga djörfung og styrkan hug,
augljóslega svo allir sjá
elsku, sem Drotni höfðu á

11. Rrjúkandi trúar hörinn hér
helgur andi svo viðnærer,
ljómandi þar af ljósið skín,
lífgar hann alt með krafti sín.

12. Huggist þeir nú, sem hjartað
hafa og trúar-megnið veikt, [deigt
biðji um styrk og stöðugt geð,
stundi og læri Guðs orð með.

13. Veit mér, Jesú, að veik trú mín
vaxi daglega' og elskan þín
eflist svo með mér innvortes,
ytra góð sjáist merki þess.

14. Annað líka þú minnast mátt,
mislíkar Drotni' á engan hátt,
þó heiðarleg sé hér á jörð
holdi útvaldra líkför gjörð.

15. Mætast Guðs anda musteri
manns var réttkristins líkami;
því má honum veitast virðing rétt,
vel með hófi og stilling sett.

16. Erfisdrykkjur og ónýtt prjál
ekki á skylt við þetta mál;
heiðingja skikkun heimskuleg
hæfir kristnum á engan veg.

17. Ætíð þá sér þú sálað hold
sett vera niður í jarðarmold,
hryggur þú vert og hugsa brátt
hér við líka þú skiljast átt.

18. Lagt þegar niður líkið sér,
láttu sem dauðinn hvísli' að þér:
Langt máske ekki líði' um það,
legg eg þig eins á slíkan stað.

19. Góði Jesú, fyrir greftran þín
gefðu síðasta útför mín

verði friðsöm og farsæl mér,
frelsuð sál nái dýrð hjá þér.

20. Í þriðja lagi huggun hrein
hér veitist mér á alla grein;
Guðs sonar hold því greftrað var
greftrun minni til virðingar.

21. Helgum Guðs börnum herrans [hold
helgaði bæði jörð og mold;
gröfin því er vort svefnhús sætt,
svo má ei granda reiðin hætt.

22. Svo að lifa, eg sofni hægt,
svo að deyja, að kvöl sé bægt,
svo að greftrast sem Guðs barn hér,
gefðu, sætasti Jesú, mér. — *Amen.*

## 372.

**(L.) Um varðhaldsmennina.**

**Með sínu lagi.*)**

ÖLDUNGAR *Júða annars dags*
*inn til Pílatum ganga strax,*
*sögðu: herra, vér höfum mest*
*í huga fest,*
*hvað sá falsari herma lézt.*

2. *Eftir þrjá daga ótt fyrir sann*
*upp rísa mun eg, sagði hann;*
*við slíku er bezt að leita lags,*
*lát geyma strax*
*þessa gröf inn til þriðja dags.*

3. *Máske líkið með leyndum hljótt*
*lærisveinarnir taki' um nótt,*

*) Jónas Jónsson: Passíusálmar.

*og lýðnum segi það lyga skin;*
*þá lízt ei kyn,*
*þó verði' sú villan verri' en hin.*

4. *Pílatus víst þeim varðhald fékk,*
*vaktin strax út af staðnum gekk,*
*gröfinni blifu herrans hjá*
*og svo til sjá,*
*settu innsigli steininn á.*

5. Gyðinga hörð var heiftin beisk,
hjartans blindleiki' og villan treysk;
þeim kunni' ei nægjast kvöl og bann,
sem Kristur fann,
líka dauðan þeir lasta hann.

6. Forðastu svoddan fíflsku-grein,
framliðins manns að lasta bein,
sá dauði hefir sinn dóm með sér,
hver helzt hann er,
sem bezt haf gát á sjálfum þér.

7. Gyðingar vildu veita rýrð
vors lausnara upprisu dýrð,
en Drottins vald og vísdóms ráð
þess vel fékk gáð,
verk sitt framkvæmdi víst með dáð.

8. Hefði ei vaktin geymt og gætt
grafarinnar, sem nú var rætt,
orsök var meiri' að efast þá,
hvort upp réð stá,
Drottinn vor Jesús dauðum frá.

9. En þeir sjálfir og er það víst,
upprisu Drottins hafa lýst,
þó kennimenn Júða, af kaldri stygð,

kvaldir í blygð,
keyptu þá til að bera lygð.
10. Öll svikráð manna og atvik ill
ónýtir Drottinn, þá hann vill;
hans ráð um eilífð stöðugt stár
og stjórnin klár,
slægðin drambláta slétt forgár.
11. Hvíli' eg nú síðast huga minn,
herra Jesú, við legstað þinn;
þegar eg gæti' að greftran þín,
gleðst sála mín,
skelfing og ótti dauðans dvín.
12. Sektir mínar og syndir barst
sjálfur þegar þú píndur varst,
upp á það dóstu, Drottinn kær,
að kvittuðust þær,
hjartað því nýjan fögnuð fær.
13. Þú grófst þær niður í gröf með
gafst þitt réttlæti aftur mér. [þér.
í hafsins djúp, sem fyrir spáð finst,
þeim fleygðir inst;
um eilífð verður ei á þær minst.
14. Svo er nú syndin innsigluð,
iðrandi sála kvitt við Guð,
eilíft réttlæti uppbyrjað
í annan stað,
trúuð manneskja þiggur það.
15. Dauðinn þinn, Jesú, deyði hér
dárlega holdsins girnd í mér,
gröfin þín hylji glæpi mín
fyrir Guðs augsýn,
efli mér styrk upprisan þín.

16. Steinþró míns hjarta' út-höggvin
heilagur andi vann það bezt; [sést,
líndúk trúar eg læt í té,
minn lausnare,
ilmandi smyrsl iðrunin sé.

17. Svo finni' eg hæga hvíld í þér,
hvíldu, Jesú, í brjósti mér;
innsigli heilagur andi nú
með ást og trú
hjartað mitt, svo þar hvílist þú.

18. Dýrð, vald, virðing og vegsemd
hæst,
vizka, makt, speki' og lofgjörð stærst
sé þér, ó Jesú, herra hár,
og heiður klár,
amen, amen, um eilíf ár! — *Amen.*

---

## Ávarp frá höfundi Passíusálmanna.

**Guðhræddum lesara heilsun!**

"Það verður dýrast, sem lengi hefir geymt verið og gefur tvefaldan ávöxt, í hentugan tíma fram borið", sagði **Markús Varró.** Umþenking guðrækileg herrans Jesú pínu og dauða er vissulega dýrmæt, og hver sig langvaranlega gefur til þeirrar umþenkingar, og ber jafnan Jesú Kristí píslarminning í sínu hjarta, sá geymir hinn dýrasta hlut. Og með því eg hefi hennar langvaranlega íhugun mér í brjósti geymt, eftir þeirri náð, sem minn góði Guð hefir mér af náð sinni gefið, þá ber eg hana nú loksins opinberlega fram í þessum sálmum fyrir öll upp' á Jesúm lítandi augu og Jesúm elskandi hjörtu, svo mikið sem eg kann og get í þau fáorðu sálmavers innibundið. Þeim, sem herrans Jesú pínu jafnan elska, mun það ekki þykja í ótíma gjört, sérdeilis nær þeir rannsaka þessa yfirstandandi eymdanna öld, á hverri réttir Jesú pínu elskendur meir sorga en gleðjast, og sofandi hirðuleysingjar (sem of margir finnast, því ver) meir fagna en sorga; hver ávöxtur hér af færist, befala eg Guði. En þess er eg af guðhræddum mönnum óskandi, að eigi úr lagi færi né mínum orðum breyti, hver þeir sjá orði Drottins og kristilegri meiningu ei á móti. Þeir, sem betur kunna, munu betur gjöra. Herrann Jesús elski þá alla, sem hans heilögu kvöl og pínu guðrækilega elska, og iðka hennar minning.

Vale, pie lector!

**Hallgrímur Pétursson p.**

---

# XIII.
# Enskir sálmar.

### 1. Public Worship.

### 373.

HOLY, Holy, Holy! Lord God Almighty!
Early in the morning our song shall rise to Thee!
Holy, Holy, Holy! Merciful and Mighty!
God in Three Persons, Blessed Trinity!

2. Holy, Holy, Holy! all the saints adore Thee,
Casting down their golden crowns around the glassy sea.
Cherubim and Seraphim, falling down before Thee;
Which wert, and art, and evermore shall be.

3. Holy, Holy, Holy! Though the darkness hide Thee,
Though the eye of sinful man Thy glory may not see,
Only Thou art holy, there is none beside Thee,
Perfect in power, in love, and purity.

4. Holy, Holy, Holy! Lord God
Almighty!
All Thy works shall praise Thy
Name in earth and sky and sea;
Holy, Holy, Holy! Merciful and
Mighty!
God in Three Persons, Blessed
Trinity!

374.

LORD, with glowing heart I'd
Praise Thee
For the bliss Thy love bestows,
For the pardoning grace that saves
me,
And the peace that from it flows.
Help, O God, my weak endeavor;
This dull soul to rapture raise:
Thou must light the flame, or never
Can my love be warmed to praise.

2. Praise, my soul, the God that sought
thee,
Wretched wanderer, far astray;
Found thee lost, and kindly brought
thee
From the paths of death away.
Praise, with love's devoutest feeling,
Him who saw thy guilt-born fear,
And the light of hope revealing,
Bade the Blood-stained Cross
appear.

3. Lord, this bosom's ardent feeling
Vainly would my lips express:
Low before Thy footstool kneeling,
Deign Thy suppliant's prayer to bless.
Let Thy grace, my soul's chief treasure,
Love's pure flame within me raise:
And, since words can never measure,
Let my life show forth Thy praise.

## 375.

FEEBLE, helpless, how shall I
Learn to live and learn to die?
Who, O God, my guide shall be?
Who shall lead Thy child to Thee?

2. Blessed Father, gracious One,
Thou hast sent Thy holy Son;
He will give the light I need,
He my trembling steps will lead.

3. Through this world, uncertain, dim,
Let me ever lean on Him;
From His precepts wisdom draw,
Make His life my solemn law.

4. Thus in deed, and thought, and word,
Led by Jesus Christ the Lord,
In my weakness, thus shall I
Learn to live and learn to die.

## 376.

MY faith looks up to Thee,
Thou Lamb of Calvary,
Saviour divine!
Now hear me while I pray;
Take all my guilt away;
O, let me from this day
Be wholly Thine.

2. May Thy rich grace impart
Strength to my fainting heart,
My zeal inspire;
As Thou hast died for me,
O, may my love to Thee
Pure, warm and changeless be,
A living fire.

3. While life's dark maze I tread,
And griefs around me spread,
Be Thou my Guide;
Bid darkness turn to day,
Wipe sorrow's tears away,
Nor let me ever stray
From Thee aside.

4. When ends life's transient dream,
When death's cold sullen stream
Shall o'er me roll,
Blest Saviour, then, in love,
Fear and distrust remove;
O, bear me safe above,
A ransomed soul.

## 377.

JESUS, still lead on,
Till our rest be won!
And although the way be cheerless,
We will follow calm and fearless.
Guide us by Thy hand
To our Fatherland!

2. If the way be drear,
If the foe be near,
Let not faithless fears o'ertake us,
Let not faith and hope forsake us;
For through many a foe
To our home we go.

3. When we seek relief
From a long-felt grief;
When temptations come alluring,
Make us patient and enduring:
Show us that bright shore
Where we weep no more.

4. Jesus, still lead on,
Till our rest be won;
Heavenly Leader, still direct us,
Still support, console, protect us,
Till we safely stand
In our Fatherland!

## 378.

HOLY GHOST with light divine!
Shine upon this heart of mine!
Chase the shades of night away,
Turn the darkness into day.

2. Let me see my Saviour's face,
Let me all His beauties trace;
Show those glorious truths to me,
Which are only known to Thee·

3. Holy Ghost, with power divine,
Cleans this guilty heart of mine:
In Thy mercy pity me,
From sin's bondage set me free.

4. Holy Ghost, with joy divine,
Cheer this saddened heart of mine;
Yield a sacret, settled peace,
Let it grow and still increase.

5. Holy Spirit, all divine,
Dwell within this heart of mine;
Cast down every idol throne,
Reign supreme, and reign alone.

6. See, to Thee I yield my heart;
Shed Thy life through every part.
A pure temple I would be,
Wholly dedicate to Thee.

### 379.

COME hither, ye faithful, triumphantly sing:
Come, see in the manger the angels' dread King!
To Behtlehem hasten, with joyful accord;
O come ye, come hither, to worship the Lord!

2. True Son of the Father, He comes from the skies;
To be born of a Virgin He does not despise:
To Bethlehem hasten, with joyful accord;
O come ye, come hither, to worship the Lord!

3. Hark, hark to the angels, all singing in heaven
"To God in the highest all glory be given!"
To Bethlehem hasten, with joyful accord,
O come ye, come hither, to worship the Lord!

4. To Thee, then, O Jesus, this day of Thy birth,
Be glory and honor through heaven and earth.
True Godhead incarnate, omnipotent Word!
O come, let us hasten to worship the Lord!

### 380.

I know that my Redeemer lives!
What comfort this sweet sentence gives!
He lives, He lives, who once was dead,
He lives, my ever-living Head.

2. He lives to bless me with His Love,
He lives to plead for me above,
He lives my hungry soul to feed,
He lives to help in time of need.

3. He lives to grant me rich supply,
He lives to guide me with His eye,
He lives to comfort me when faint,
He lives to hear my soul's complaint.

4. He lives to silence all my fears,
He lives to wipe away my tears,
He lives to calm my troubled heart,
He lives, all blessings to impart.

5. He lives, and grants me daily breath;
He lives, and I shall conquer death:
He lives, my mansions to prepare;
He lives, to bring me safely there.

6. He lives, all glory to His Name!
He lives, my Jesus, still the same;
O, the sweet joy this sentence gives,
I know that my Redeemer lives!

## 381.

JESUS shall reign where'er the sun
Does his succesive journeys run;
His kingdom stretch from shore to shore
Till moons shall wax and wane no more.

2. For him shall endless prayer be
made,
And endless praises crown His head;
His Name, like sweet perfume, shall
rise
With every morning sacrifice.

3. People and realms of every tongue
Dwell on His Love with sweetest
song;
And infant voices shall proclaim
Their early blessings on His Name.

4. Blessings abound where'er He reigns;
The prisoner leaps to lose his chains;
The weary find eternal rest,
And all the sons of want are blest.

5. Where He displays His healing
power
Death and the curse are known no
more;
In Him the tribes of Adam boast
More blessings than their father lost.

6. Let every creature rise and bring
Peculiar honors to our King;
Angels descend with songs again,
And earth repeat the loud Amen.

**382.**

GOD bless our native land!
Firm may she ever stand,
Through storm and night;

When the wild tempests rave,
Ruler of wind and wave,
Do Thou our country save
By Thy great might

2. For her our prayer shall rise
To God above the skies;
On Him we wait;
Thou Who art ever nigh,
Guarding with watchful eye,
To Thee aloud we cry,
God save the State!

### 2. Baptism.

### 383.

BLESSED Jesus, here we stand,
Met to do as Thou hast spoken;
And this child, at Thy command,
Now we bring to Thee in token
That to Thee it here is given;
For of such shall be Thy heaven.

2. Yes, Thy warning voice is plain,
And we fain would keep it duly;
"He who is not born again,
Heart and life renewing truly,
Born of water and of Spirit,
Will My kingdom ne'er inherit."

3. Therefore hasten we to Thee;
Take the pledge we bring, O take it!
Let us here Thy glory see,

And in tender pity make it
Now, Thy child, and leave it never,
Thine on earth and Thine for ever.

4. Make it, Lord, Thy member now;
Shepherd, take Thy lamb, and
feed it;
Prince of peace, its peace be Thou;
Way of life, to heaven lead it;
Vine, this branch may nothing sever,
Be it graft in Thee for ever.

5. Now upon Thy heart it lies,
What our hearts so dearly treasure:
Heavenward lead our burdened sighs,
Pour Thy blessing wihout measure;
Write the name we now have given,
Write it in the Book of heaven.

**3. Confirmation.**

**384.**

MY GOD, accept my heart this day,
And make it always Thine,
That I from Thee no more may stray,
No more from Thee decline.

2. Before the Cross of Him Who died,
Behold, I prostrate fall;
Let every sin be crucified,
Let Christ be all in all!

3. Anoint me with Thy heavenly grace,
Adopt me for Thine own;

That I may see Thy glorious face,
And worship at Thy throne!

4. May the dear Blood, once shed for me,
My blest Atonement prove,
That I from first to last may be
The purchase of Thy Love!

5. Let every thought, and work, and word,
To Thee be ever given:
Then life shall be Thy service, Lord,
And death the gate of heaven!

### 4. The Lord's Supper.

### 385.

O, GOD unseen, yet ever near,
Thy presence may we feel;
And thus, inspired with holy fear,
Before Thine Altar kneel.

2. Here may Thy faihful people know
The blessings of Thy Love;
The streams that through the desert flow,
The manna from above.

3. We come, obedient to Thy Word,
To feast on heavenly food;
Our meat the body of the Lord,
Our drink His precious Blood.

4. Thus may we all Thy words obey;
For we, O God, are Thine;
And go rejoicing on our way,
Renewed with strength divine.

### 5. Marriage.

### 386.

O, Perfect Love, all human thought, transcending,
Lowly we kneel in prayer before Thy throne,
That theirs may be the love that knows no ending,
Whom Thou for ever more dost join in one.

2. O Perfect Life, be Thou their full assurance
Of tender charity and steadfast faith,
Of patient hope, and quiet, brave endurance,
With childlike trust that fears no pain nor death.

3. Grant them the joy which brightens earthly sorrow,
Grant them the peace which calms all earthly strife;
And to life's day the glorious unknown morrow

that dawns upon eternal love and
life.

### 6. Burial.

### 387.

MY GOD and Father, while I stray
Far from my home, in life's rough
way
O teach me from my heart to say,
"Thy will be done."

2. Though dark my path and sad my
lot,
Let me be still and murmur not,
Or breathe the prayer divinely
taught,
"Thy will be done."

3. What though in lonely grief I sigh
For friends beloved no longer nigh,
Submissive would I still reply,
"Thy will be done."

4. Though Thou hast called me to re-
sign
What most I prize, it ne'er was mine;
I only yield Thee what is Thine;
"Thy will be done."

5. Let but my fainting heart be blest
With Thy sweet Spirit for its guest,
My God, to Thee I leave the rest;
"Thy will be done."

6. Renew my will from day to day,
Blend it with Thine, and take away
All that now makes it hard to say,
"Thy will be done."

7. Then, when on earth I breathe no more
The prayer oft mixed with tears before,
I'll sing upon a happier shore,
"'Thy will be done!"

## 388.

ASLEEP in Jesus! blessed sleep,
From which none ever wakes to weep:
A calm and undisturbed repose,
Unbroken by the last of foes.

2. Asleep in Jesus! O how sweet
To be for such a slumber meet:
With holy confidence to sing,
That death has lost its venomed sting.

3. Asleep in Jesus! peaceful rest,
Whose waking is supremely blest:
No fear, nor woe, shall dim that hour
That manifests the Saviour's power.

4. Asleep in Jesus! O, for me
May such a blissful refuge be!
Securely shall my ashes lie,
And wait the summons from on high!

# XIV.
# Kórsöngvar

## 389.

### 1. Te Deum.

Lag: Ó, Guð vors lands.

ÞIG, Guð, vor Guð, vér göfgum þig
með gleði þér lofsyngur himinn og jörð,
þig vegsamar englanna sólbjarta sveit,
öll þín serafa' og kerúba hjörð:
Þú heilagur, heilagur, heilagur einn,
allsherjar vor Drottinn og Guð;
af dýrð þinni full eru hauður og höf
og himnar, þú lifandi Guð.
Þannig ómar alt, ótalþúsundfalt;
og spámenn og postular prísa þig snjalt
og píslanna vottar, ó, Guð.

2. Öll kristnin dýr um heimsins hring
þig himneskan föður og eilífan son
og heilagan anda í einingu Guðs
játar auðmjúk með lotning og von.
Þú konungur dýrðar, þú Kristur, Guðs
son,
þú klæddir þig mannlegri rýrð;
þú trúuðum opnaðir himnanna hlið;
á hægra veg Guði nú býrð.
Dauðans brodd þú brauzt, beztan sigur
hlauzt.
Til dóms kemurðu' aftur, þú hetja Guðs
hraust,
í hátign og vegsemd og dýrð.

3. Þú brunnur lífs, þig biðjum vér,
er blóði þú keyptir á píslanna kross:
Ó, varðveit þú lýð þinn, Guðs lifanda
son,
þínum ljósgeislum baða þú oss.
Á sérhverjum degi vér signum þitt nafn,
ver sífelt vort athvarf og hlíf.
Æ, miskunna' oss, Guð vor, vér grát-
bænum þig,
úr glötun og spilling oss hríf.
Lát þú öld af öld, ótalþúsundföld
þín blessunnar-hnoss veitast barnanna
fjöld
og bú oss hið eilífa líf.

## 390.

### 2. Lofsöngur.

Lagið í "Organtónar II".

ÞITT lof, ó, Drottinn vor, himnarnir
hljómi,
þitt heilagt nafnið prísa ber.
Og jörð vor söngvana endurrómi:
Þú, alheims stýrir, lof sé þér.
Hver reisti hvelfingu himinsins heima?
Hvers hönd gaf ljósið skærri sól?
Hver ekur sigrandi gegnum geima
á geislans braut að yzta pól?

2. Sjá, maður, hin dýrðlegu dásemd-
arverkin,
er Drottins lofa máttku hönd,
alt ber í heimi um mátt hans merkin,
hið minsta og stærsta tengja bönd.

Sjá, náttúran öll að fótum hans fellur
og fagnar (mót) skini af lífsins sól.
Til dýrðar skaparans söngurinn svellur
með sigurbrosi að yzta pól.

## 391.

**3. Guð hæst í hæð.**

Með sínu lagi.

GUÐ :,: hæst í hæð, :,:
þig himnum ofar í heiði stjarna-
mergðin lofar,
með göngu sinnar himin-hljóm;
þó sér ei meira sjónin veika,
en sjálfs þíns guðdóms skuggann bleika,
ei þig í hæstum helgidóm:
einn dropa' af dýrð, ei dýrðarhafið,
:,: sér dauðlegt auga, þoku vafið. :,:
Og hvað mót veru verk þitt er?
Ó, lútum guðdóms geislavaldi,
þér, Guð, vor sál í skuggsjá haldi,
sem daggtár sólar blíðmynd ber.

2. Guð :,: hæst í hæð, :,:
þér hörpur óma í hvössum ægigeisla
ljóma
við englaskarans sigursöng;
þar himnesk dunar hljóðstraums bára,
þú heyrir samt frá djúpi tára
hvert andvarp manns við örlög ströng.
Dýrð sé þér hátt og djúpt í geimi,
:,: þú dreifir myrkrum, lýsir heimi. :,:
Send vorum anda von og þrótt.
Hvað megnar allra myrkra kraftur?

Þín máttar-höndin leiðir aftur
úr sorta ljómann, sól úr nótt.

## 392.

### 4. Helgidagurinn.

HELGI Drottins dagur!
Dýrðar-sunna þín
eins og guðdóms ásján
upprennandi skín;
er sem opnist himinn,
er sem bæn og náð
mætist milli skýja,
morgunn gyllir láð;
bergmáls blíð um dali
berast klukkna hljóð,
en í hæðum óma
engla sólarljóð.

## 393.

### 5. Hátíð öllum hærri stund er sú.

Með sínu lagi.

HÁTÍÐ öllum hærri stund er sú,
himna konungs fæðing oss er boðar;
fyrirheita fylling gefst oss nú,
fengið hnoss í trúnni sálin skoðar:
ljós af himni lífs upprunnið er,
ljóma dýrðar Guðs því sjáum vér;
:,: komu Drottins kristnum fagna ber,
Kristur veitir sælu', :,: er aldrei þver. :,:

2. Englasöng vér undirtökum því;
æðstum Guði föður lofgjörð veitum;

gjöf hans sonar gaf oss frelsi' á ný;
glaðir hans því barnaréttar leitum;
hverfum skjótt af hættri synda leið,
hjálp er vís og braut til lífsins greið;
:,: hann er trúr og heldur vel sinn eið,
huggun vor er það :,: í lífi' og deyð.:,:

## 394.

### 6. Páskamorgun.

Lag: Sál mín, bíð þú.

PÁSKAMORGUN mannkynssorga,
mannkynssorga þerrir tár,
lífi manna ljóssins sanna
ljóssins sanna morguns-ár.
Páskamorgun mannkynssorga,
mannkynssorga þerrir tár.

2. Syngja hæðir sigurkvæði,
sigurkvæði' um fjörgjöf hans,
hans, er dó oss, hans, er bjó oss,
hans, er bjó oss lífsins krans
syngja hæðir sigurkvæði,
sigurkvæði' um fjörgjöf hans.

3. Brott er nauð og breytt er dauðans,
breytt er dauðans ógn í líf;
gröfin ljómar Guðs meðal blóma,
Guðs meðal blóma í Jesú hlíf.
Brott er nauð og breytt er dauðans,
breytt er dauðans ógn í líf.

## 395.

**7. Dýrðarsöngurinn.**

*(The Glory Song.)*

ÞEGAR eg leystur verð þrautunum frá,
þegar eg sólfagra landinu á
lífi og verð mínum lausnara hjá —
það verður dásamleg dýrð handa mér.
Dásöm það er dýrð handa mér,
dýrð handa mér, dýrð handa mér,
er eg skal fá Jesú auglit að sjá —
það verður dýrð, verður dýrð
handa mér.

2. Og þegar hann, er mig elskar svo
heitt,
inndælan stað mér á himni' hefir veitt,
svo að hans ásjánu' eg augum fæ leitt—
það verður dásamleg dýrð handa mér.
Dásöm það er, o.s.frv.

3. Ástvini sé eg, sem unni eg hér,
árstraumar fagnaðar berast að mér;
blessaði frelsari, brosið frá þér
það verður dásamleg dýrð handa mér.
Dásöm það er, o.s.frv.

## 396.

**8. Áfram, kempur kristnar!**

*(Onward, Christian Soldiers.)*

ÁFRAM, kempur kristnar!
kallar stríðið oss;
hátt skal merkið hefja:

helgan Jesú kross.
Kristur fylgi fær oss,
fjendum gegn oss ver.
Áfram! upp hans merki!
Út í stírðið vér.

Áfram, kempur kristnar!
kallar stríðið oss;
hátt skal merkið hefja:
helgan Jesú kross.

2. Fer hans kirkja fram sem
fari máttkur her;
göngum, bræður, gengið
Guðs menn hafa hér;
deildir ei vér erum,
einn sem maður nú;
einum huga elskum,
ein er von og trú.
Áfram, kempur kristnar! o.s.frv.

3. Hefjast veldi heimsins,
hrynja þá og þá;
en hin kristna kirkja
kletti stendur á;
aldrei hnekt fær henni
hel né djöfla fans.
Jesúm æ vér eigum
að og loforð hans.
Áfram, kempur kristnar! o.s.frv.

4. Áfram, allur lýður!
okkar fyllið hóp;
hefjum huga einum
heilagt sigur-óp.

Kristi, konung vorum,
kveði hátt í senn
lof um aldir alda
englar Guðs og menn.
Áfram, kempur kristnar!
kallar stríðið oss;
hátt skal merkið hefja:
helgan Jesú kross.

### 397.

**9.. Á kirkjuþingi.**

Lag: Adams barn, synd þín svo var stór.

KRÝN blessun, Drottinn, þetta þing,
og þjóð og kirkju' og einstakling,
oss ver gegn öllum voða.
oss geym frá vondum villu-straum;
oss vek af vondum syndadraum,
af andans deyfð og doða.
Ó, þú, sem liðin alda ár
lézt orð þitt buga sérhvert fár
í þjóðar vorrar þrautum,
bind eining trúar tvístruð börn;
oss tak í þína náðar vörn,
að sigrum böls á brautum.

2. Gef kraft í sálir, hjörtum hug,
gef höndum þrek, gef afl og dug,
gef eldleg orðin tungum.
Gef anda þinn í öll vor störf,
gef orð þitt seðji trúarþörf;
ó, gef það gömlum, ungum!
Gjör sál og hjarta sannleiks þyrst,
gef sanna trú á Jesúm Krist,

ást gef til Guðs og manna.
Teng bræðra hjörtun Krists við kross,
leið kirkju vora' og sjálfa oss
veg sáluhjálpar sannan.

3. Gef Lúters anda, Lúters trú,
þeim leiðsögn vora', er hafa nú,
lífs stríðið strangt að heyja.
Trú þeirra auki' og andans dug
með afl og djörfung, þrótt og hug
þín orð, sem aldrei deyja.
Ó, þú, sem Worms- á -þingi fyr
orð þitt og kirkju varðveittir,
ver þetta félag föllum.
Oss gegn því illa ganga ber,
ei getum annað,—stöndum hér;
Guð hjálpi' oss öllum — öllum.

## 398.

### 10. Stormurinn.

*(Master, the Tempest is raging.)*

HERRA, sjá bylgjurnar brotna
og beljandi stormur hvín
og himininn hulinn er skýjum,
vér hrópum í neyð til þín.
Hirðir þú ei um það, herra,
hér þó að týnumst vér?
Hvernig geturðu blundað á bárum?
vor bátur í voða er.

Kór : —

Sjá, eg hefi vald yfir vindi og sjó:
Verði ró!

Alls enginn maður né myrkravald,
ei magnþrunginn hafsjór, með öldu-
fald
fær grandað því skipi', er geymir í sér
þann Guð, sem frá upphafi var og er.
Sjá, eg hefi vald yfir vindi og sjó:
Verði ró!

2. Herra, eg andvarpa' í angist,
því anda minn skortir frið,
og hafdjúp míns hjarta er ókyrt
um hjálp þína' og náð eg bið.
Sál mín er glötuð að sökkva
syndmyrka hylinn í.
Tak við stjórninni himneski herra!
Eg hjálparlaus til þín flý.
Kór: —
Sjá eg hefi, o.s.frv.

3. Herra nú heyrist ei andblær,
því hér er svo inndælt skjól,
nú ljómar frá heiðbjörtum himni
þín heilaga náðarsól.
Drottinn minn, far þú ei frá mér,
fylg mér, því leið er vönd,
unz eg höfn næ og hugglaður uni
á himneskri friðarströnd.
Kór: —
Sjá eg hefi, o.s.frv.

## 399.

**11. Himinstjörnur bjartar blika.**

HIMINSTJÖRNUR bjartar blika
blárri festing á;

fær það eigi anda þínum
öflga vakið þrá?
Heyrirðu' engar himinraddir?
Hlusta, sála mín!
Skilurðu' ei, hve blítt þær benda
börnum Drottins upp til sín?
:,: Upp til sín :,:
Skilurðu' ei, hve blítt þær benda
börnum Drottins upp til sín.

2. Manstu ei hvað mildur Jesús
mælti jörðu á,
þegar föðurhúsin háu
himni blika frá?
Jú, þau blessuð ástarorðin
elskar sála mín;
og mér stjörnur bjartar benda
beint, minn Jesú, upp til þín.
:,: Upp til þín, :,:
og mér stjörnur bjartar benda
beint, minn Jesú, upp til þín.

3. Ljúft er sjón í hæð að hefja
heimi spiltum frá;
ljúft er raddir lífs að heyra
landi dauðans á.
Hvað mun þá, er lífs á landi
ljóssins dýrð mér skín?
Þá eg héðan heim er kominn,
hjartkær Jesú, upp til þín.
:,: Upp til þín, :,:
þá eg héðan heim er kominn,
hjartkær Jesú, upp til þín.

4. Lát mig heyra himinraddir
hjarta mínu í,
og úr heimi ávalt mæna
yfir jarðnesk ský.
Gegnum dauðans dimma skugga
dýrðar bjarmi skín;
því eg veit, að leiðin liggur,
lífsins herra, upp til þín.
:,: Upp til þín. :,:
Já, eg veita, að leiðin liggur,
lífsins herra, upp til þín.

## 400.

### 12. Þakkarljóð.

Lagið í "Söngbók Good Templara", Nr. 62.

VID ryðjum og við plægjum og við
ræktum okkar lönd,
en uppskeruna veitir hins almáttuga
hönd.
Hann regni' og þurki ræður, hann
sendir skin og skúr.
Við fáum alla blessun hans föðurhendi
úr.
Allar góðar gjafir þær eru, Guð, frá
þér;
því þökkum við, því trúum við og
treystum þér.

## 401.

### 13. Til himins upp vor liggur leið.

TIL himins upp vor liggur leið,
í ljóssins fagrar hallir;
þar eftir æfi skundað skeið,
vér skulum hittast allir.
Hve ljúft að sjást í lífsins borg,
er liðin öll er þraut og sorg,
:,: þá von :,:
oss veittir þú, Guðs son.

2. Á himnum uppi engla her
um eilífð Drottin lofar.
Þar fögnuður og friður er,
Guðs festing hárri ofar.
Hve ljúft o.s.frv.

3. Til himins upp vor hjörtu þrá
frá heimsins synd og þrautum;
um friðinn stjörnur fríðar spá
á fögrum ljóssins brautum.
Hve ljúft, o.s.frv.

4. Því af oss léttum allri synd
og áfram glaðir leitum;
oss svalar Jesú líknar-lind
á lífsins dögum heitum.
Hve ljúft o.s .frv.

5. Og þótt vér liggjum lágt í mold,
er lífsins dvínar kraftur,
á degi efsta dauðlegt hold

vor Drottinn vekur aftur.
Hve ljúft o.s.frv.

6. Til himins up þá hefjumst vér
um háar ljóssins brautir,
þar synd og dauði enginn er
og engin sorg né þrautir.
Hve ljúft o.s.frv.

7. Þar munum vér um eilíf ár
með andans gleði skærri
þig lofa, Drottin dýrðar hár,
þinn dagur oss er nærri.
Hve ljúft að sjást í lífsins borg,
er liðin öll er þraut og sorg.
:,: Þá von :,:
oss veittir þú Guðs son.

## 402.

**14. Sjá þann hinn mikla flokk sem fjöll.**

**Með sínu lagi.**

SJÁ þann hinn mikla flokk sem fjöll,
er fjölsett gnæfa í skrúði' af mjöll,
hið prúða lið, sem pálmavið
fyr' hástól heldur á.

2. Það hetjuvalið hér má sjá,
er hörmunginni miklu frá
heim komið hér til herrans er,
fyr' lambsins blessað blóð.

3. Og sínum Guði sigurljóð
nú syngur þessi hirðin góð,

með hjörtun trú svo hrærð og bljúg.
í sælla engla sveim.

4. Þeir fyrirlitning hlutu' í heim:
en hér er um skift fyrir þeim.
Þeir ljóma' í sól við lambsins stól
í sælu' um eilíf ár.

5. Æ mörg var þeirra þrenging sár,
á þrungnum augum brunnu tár.
Þau hefir nú Guðs höndin trú
af þerrað þjónum sín.

6. Í lífsins prestaskrúði skín
nú skarinn; hátíð aldrei dvín
í himnavist; fyr' herrann Krist
æ fjölgar helgur her.

7. Ó, mikli, fríði hetjuher,
af hjarta með þér gleðjumst vér;
þú reyndist trúr og raunum úr
ert leiddur, laun að fá.

8. Guð launi þér á himni há;
þú hér á jörð með grát réðst sá;
nú vitum vér þú víst upp sker
með gleði sætum söng.

9. Já, syng af megni: leiðin löng
til lífs er stigin, hætt og þröng;
þér, líknin blíð, sem leystir lýð,
sé lofgjörð ár og síð.

## 403.

### 15. Eg þekki land.

Lagið í "Söngbók Bandalaganna."

EG þekki land,—ei það er hér á jörð;

oft þangað reynist útivistin hörð.
Að vísu land það auga enn ei sá,
í anda' í fjarska samt það líta má.
Það blasir við. Ó, þar, ó, þar
vér þiggjum fylling vorrar löngunar.

2. Eg þekki veg, hann viss og
glöggur er,
ei villist neinn, er eftir honum fer.
En þyrnar vaxa þessum vegi á;
hann þröngur er, en samt hann rata má.
Hann leiðir oss í frið, í frið,
og flytur oss að Drottins hægri hlið.

3. Eg þekki vin,—og veginn þekkir
hann,
á vegi þessum takmarkið hann fann.
Til gleði' og sælu gegnum hrygð og
kross
hins góða hirðis raustin kallar oss.
Í lífi og dauða' hans hönd, hans hönd,
frá hverskyns neyð mun frelsa mína
önd.

4. Eg þekki stund, er stundlegt
hverfur alt,
hið stóra orð: Þú héðan fara skalt.
Þá hverfur þokan, þungu lífsins ský;
öll þraut og hrygð þá breytist fögnuð í.
Ó, blessuð stund, mót þér, mót þér,
ei þekki' eg neitt, er betur svali mér.

## 404.

### 16. Drottinn, ó, Drottinn vor.

Lagið í "Söngbók Bandalaganna."

DROTTINN, ó, Drottinn vor!
dagarnir líða,
alt er að breytast, en aldrei þú.
Vert þú oss veikum hjá,
vernda þína arfleifð;
líknandi hendi, ó, leið oss nú.

2. Drottinn, ó, Drottinn vor!
drag oss æ nær þér.
Lífið hið eina' er hjá einum þér,
þar veitir þú oss frið,
þróttinn til að lifa;
sigurvon eilífa eignumst vér.

3. Drottinn, ó, Drottinn vor
dýrð þína' að efla,
göfga þig einan æ gef oss náð,
vinna þitt verk á jörð,
vera þér til dýrðar,
vegsama nafn þitt um lög og láð.

## 405.

### 17. Konunga konungur.

Lagið í "Söngbók Bandalaganna."

KONUNGA konungur!
himnana átt þú og himnanna sveitir;
herskarinn dýrðlegi lotning þér veitir,
Kristur, þú englanna konungur,
konungur eilífur!

2. Konunga konungur!

heiminn á krossi með kærleikans sjóði
keyptir þú, fórnandi hjarta þíns blóði,
Kristur, þú, mannanna konungur,
konungur eilífur!

3. Konunga konungur!
lúti þér heimur og lífsorðum þínum,
lávarði sannleikans, konungi sínum,
Kristur, þú, sannleikans konungur,
konungur eilífur.

4. Konunga konungur!
viljanum þínum skal hjarta mitt hlýða,
hneigja þér einum og fyrir þig stríða,
Kristur, þú, hjarta míns konungur,
konungur eilífur!

## 406.

**18. Ó, dvel þegar hallar degi.**

Lagið í "Söngbók Bandalaganna."

Ó, dvel, þegar hallar degi,
minn Drottinn, og leiddu mig;
þó augun þig sjái eigi,
minn andi finnur þig.

2. Svo dauf er og grýtt mín gata,
þó glatt sé um dal og hól;
ó, hjálpa mér heim að rata,
þá hverfur dagsins sól.

3. Nú sígur á sæ og landi
hið sviplega næturtjald.
Ó, Guð, svo mér ekkert grandi,
eg gríp þinn klæðafald.

4. Þó úti sé fjúk með frosti,

ó, faðir, eg skelfist ei,
og blunda sem Guðs son brosti,
þá báran huldi fley.

5. Eg veit, að ei voði haggar,
þó veröldu nisti hjarn;
sem vöggu þú henni vaggar,
sem væri nýfætt barn.

## 407

### 19. Kveðju-söngur.

*(God be with you till we meet again.)*

ALLIR heilir unz vér sjáumst næst!
Drottinn yður dýrstur leiði,
Drottinn allan vanda greiði;
allir heilir, unz vér sjáumst næst.
Allir vér, allir vér
hittumst þar sem herrann er;
allir vér, allir vér
hittumst þar sem herrann er.

2. Allir heilir, unz vér sjáumst næst!
Drottinn yður yfirskyggi,
allan gang og vegu tryggi;
allir heilir, unz vér sjáumst næst!
Allir vér, allir vér, o.s.frv.

3. Allir heilir, unz vér sjáumst næst!
Fram með kærleiksfánann rauða,
flýja látið smán og dauða,
allir heilir, unz vér sjáumst næst!
Allir vér, allir vér, o.s.frv.

408

20. Útgönguvers.

Lag: "Old Hundred."

LOF sé föðurnum lesið og tjáð;
lof sé vors herra Jesú náð;
lof helgum anda alla tíð;
amen, lof sé þér, þrenning blíð.

II.

Guðs föður mildi, gæzka' og
náð,
Guðs sonar Jesú hjálparráð,
Guðs heilags anda hlífðin traust
hjá oss staðnæmist endalaust.

# EFNI:



---

## SÁLMAR.

---

# Upphöf sálmanna
og höfundar eða þýðendur.*)



---

*) "X" þýðir, að sálmurinn er þýddur eða annar sálmur hafður til fyrirmyndar. * þýðir, að höfundurinn er ókunnur.

---

## Enskir sálmar.

— — —

## KÓRSÖNGVAR.

---

## SKRÁ UM LAGBOÐA.

Lagboðarnir flokkaðir eftir bragarháttum til hægðarauka þeim, sem leita að fleiri lögum við sama bragarhátt.

### 1. flokkur—4 ljóðlínur í versi.

a) Kom, andi heilagi.
Ver, Guð, mín gleðisól.

b) Eg heyrði Jesú himneskt orð.
Upp, skepna hver, og göfga glöð.
Í austri rennur signuð sól.
Í upphafi var orðið fyrst.

c) Sá frjáls við lögmál fæddur er.
Herra Guð í himnaríki.
Upp skapað alt í heimi hér.
Nú hvellar klukkur hringja við ský.
Vort traust er alt á einum þér.

d) Á meðan sólin skæra skín.
Hér straumur tímans fram hjá fer.
Jesú, þín minning mjög sæt er.
Kom, skapari heilagi andi.
Minstu, ó maður, á minn deyð.
Nú látum oss líkamann grafa.
Ofan af himnum hér kom eg.
"Old Hunred."
Ó, Guð, mér anda gefðu þinn.
Ó, Guð, þér hrós og heiður ber.
Syng Guði dýrð, hans dýrkeypt hjörð.
Vor Guð, oss lýsa lát þitt orð.

Mig hefir ljúfur lausnarinn.
"Sun of my soul."
Þú, faðir vor á himna hæð.

e) Hin fegursta rósin er fundin.
Syrgjum ekki sáluga bræður.

f) Guð, allur heimur, eins í háu og lágu.
Hve sælt hvert hús.

g) Sælir þeir, er sárt til finna.
Aldrei mæzt í síðsta sinni.
Heyrið þér, sem viljið vera.
Lifðu Jesú, ekkert annað.

**2. flokkur—6 ljóðlínur.**

a) Hver veit, hve nærri' er æfi endi.
Hver sem ljúfan Guð lætur ráða.
Oss frelsa, Guð, frá öllu illu.
Rís upp, mín sál, og bregð nú blundi.
Sjá, nú er runninn nýársdagur.

b) Guðs son kallar: Komið til mín.
Sem vorsól ljúf, er lýsir grund.
Upp, gleðjist allir.
Að kveðja heim sem kristnum ber.
Til himna' er gott að hefja sýn.

c) Faðir vor, sem á himnum ert.
Hann lifir, sem til lífs mér dó.
Það skyggir oft í heimi hér.

d) Sæti Jesú, sjá oss hér.
Jesús grætur, heimur hlær.

e) Gleð þig, Guðs sonar brúð.
Sé Drotni lof og dýrð.

f) Nú fjöll og bygðir blunda.
Nú legg eg augun aftur.

g) Guð, Jehóva, þig göfgum vér.
Í bæn til Guðs, er gjörðir þú.
h) Þann signaða dag vér sjáum enn.
Nú syngjum á hátíð lofsöngslag.
i) Andinn Guðs lifanda.
Gleðinnar hátíð vér höldum í dag.
j) Enn í trausti elsku þinnar.
Sá krossfesti Kristur lifir.
Sál mín, bíð þú, bið og stríð þú.
Tunga mín af hjarta hljóði.
Upp á fjallið Jesús vendi.
k) Sólin ljóma sínum skrýdd.
Kærleiksgnótt, er gjörðir mig.
Friður er um fjall og dal.

### 3. flokkur—7 ljóðlínur.

Heiður sé Guði himnum á.
Af djúpri hrygð ákalla' eg þig.
Gjörvöll kristnin skal gleðjast nú.
Heimili vort og húsin með.
Hver, sem að reisir hæga bygð.
Hann ský að vagni velur sér.
Óvinum friðar blíður bað.
Um dauðann gef þú, Drottinn, mér.
Hve sælir allir yrðum vér.
Hvað ilt og bágt, sem mætir mér.
Þá kvöldstund síðast kemur mín.

### 4. flokkur—8 ljóðlínur.

a) Alt eins og blómstrið eina.
Á hendur fel þú honum.
Einn herra eg bezt ætti.
Hversu mig leysast langar.

Krists er koma fyrir höndum.
Mín sál, þinn söngur hljómi.
Ó, veit eg gætur gefi.
Þá alt að óskum gengur.
Ó, höfuð dreyra drifið.

b) Hásæti fyrir herrans er.
Sál, dufti klædd, ei sómir þér.
Sælir eru, þeim sjálfur Guð.
Það verði alt, sem vill minn Guð.

c) Jesú, þínar opnu undir.
Alt eg, Jesú, illa gjörði.
Fögnum, bræður, frelsisdegi.
Hjartað, þankar, hugur, sinni.
Hér er stríð og hér er mæða.

d) Konung Davíð, sem kendi.
Guðs vors nú gæzku prísum.
Enn skín mér sólin skæra.

e) Upp hef eg augun mín.
Í dag er dýrmæt tíð.

f) Sjáðu, sjáðu, faðirinn fríði.
Forðum þar sem herrann hreini.
Góði Jesú, læknir lýða.
Kom þú, himins ástgjöf æðsta.

g) Í Jesú nafni upp stá.
Lof sé þér um ár og öld.
Sérhvert ljós um lífsins nótt.

h) Hvar myndi vera hjartað mitt.
Ó, maður, hvar er hlífðarskjól.
Til þín eg, Drottinn, huga hef.

i) Svo blítt er hirðis hjartað æ.
Ó, leið mig, Guð, á lífsins veg.

5. flokkur—9 ljóðlínur.

Guð miskunni nú öllum oss.
Jesús Kristur að Jórdan kom.

(Miðað við "Sálmasöngsbók" Bjarna Þorsteinssonar og "Viðbætir". Notað hefir verið "Registur II.")

---

## Leiðréttingar.

Versið nr. 213 er með röngum lagboða: stendur: Með sínu lagi; á að vera: Forðum, þar sem herrann hreini.—Misprentast hefir og í fyrstu línu: fætur þínar, fyrir: fætur þína.

Sálmurinn, "Drottinn, minn Guð, þú ert bjarg mitt og borg", hefir af vangá verið prentaður tvisvar, nr. 57 og nr. 262. Á ekki að vera á fyrra staðnum.

